# Nýar
# Athugasemdir

við

## nokkrar ritgjørðir um alþingis-málið

samdar af

## Páli Melsted

Sýslumanni í Árnessýslu, Kammerráði og Riddara af Dannebroge.








Reykjavík.
Prentaðar af Helga Helgasyni, á kostnað Höfundarins.
1845.

# Formáli.



Eptir ad eg í nóvember mánudi árid 1843 hafdi lesid ritgjørdir þær, sem eg í bæklíngi þessum hefi umrædt í Nr. 7 og 8, og løndum mínum, þeim er ei lesa dønsk dagblød, eru kunnugar af „4 Þáttum", vyrdtist mér í fyrstu, sem þær ei útheimtu neitt svar frá minni hálfu. Ad sønnu bjóst eg vid ad sumir þeir, sem eru færir um ad leggja réttann dóm á málefni þad, sem um er rædt í ritgjørdum þessum, mundu af því, sem þar í er sagt, og fastlega framhaldid, leidast til ad ætla, ad eg mundi hafa haft rángt fyrir mér í ýmsum greinum; en á hinn bóginn var eg aptur sannfærdur um, ad margir vitrir og menntadir menn, er til hlítar þekktu málefnid, meintu ad ástædum þeim, er eg hafdi komid med fyrir mínu máli, bædi í frumvarpi mínu, til breytíngar á kosníngarløgunum og í „athugasemdunum" í „4 Þáttum", ekki væri hrundid med røksemdum þeim, sem tilgreindar eru í þeim áminnstu ritgjørdum; og af eintómu tilliti til sjálfs mín datt mér aldrei í hug ad halda áfram þeirri ritdeilu, er í sumum greinum var ordin svo ískyggileg, ad stuggur mátti af standa. Áform mitt var því í fyrstunni eingu ad svara uppá 2ra og 4du ritgjørdina í „4 Þáttum". En þegar margir merkir menn, er vída þekktu til, og vissu hvad fram-

fór, létu sér um munn fara, ad þad af mørgum mundi verda lagt svo út, ef eg svaradi eingu, sem ekkért mundi med réttu verda móti því haft, sem tínt hafdi verid til móti ritum mínum og adgjørdum Reykjavíkur nefndarinnar, bædi í þeim nefndu „Þáttum", og ødrum ritgjørdum um alþíng: — skrifadi eg í aprílmánudi árid sem leid, mestann hluta ritlíngs þess, er nú kémur fyrir almenníngs sjónir, en hafdi þá samt einganveiginn fastrádid ad láta prenta hann, heldur einúngis sýna handrit mitt vinum mínum og kunníngjum þeim, er skynbragd og áhuga hafa á alþjódlegum málefnum; og þar ed nú ferdaløg og embættisannir, sem adkomu fyrir mér, ádur enn riti þessu var lokid, hindrudu mig frá ad lykta þad, og ønnur tilfelli, er þá báru mér ad høndum, bendtu huga mínum í alla adra átt, vard eg ritgjørd þessari um stund med øllu afhuga, og hugsadi ei framar til ad leggja hønd á hana, og þad því sídur, sem starfi þessi aldrei hafdi verid mér gédfeldur.

En — því nær sem færdist þeim tíma, þá alþíngid á ad koma saman, og því meir sem þessvegna lifnadi eptirþánki manna á þeim málefnum, sem þjódina nú sem stendur, mest umvardar, þess heldur mátti vid því búast, ad áhugi manna helst og fremst mundi festast á því málefninu, sem svo ad seigja næst er fyrir hendi, og mest hefur verid umrædt, þad er: um alþíngismálid. Þad fer nú ad øllum líkindum, ad margir þeir, sem um málefni þetta dæmt hafa og dæma vilja, ekki eru einfærir um, ad leggja á þad áreidanlegann dóm, bygdann á eigin ígrundun edur á nægri þekkíngu á landi voru og høgum þess, og á løgun slíkra fulltrúa stiptana í ødrum løndum. Þad er því edlilegt, ad slíkir menn leiti sér þeirrar þekkíngar, sem þá í þessu tilliti vantar, í ritum þeim, sem út eru komin um alþíngid, og

ad þeirra meiníngar um hvornig þíngid eigi ad vera, verdi ad mestu, ef ei øllu, samkvæmar þeim, sem þeir lesid hafa í þessum ritgjørdum, án tillits til, hvort slíkar meiníngar eru byggar á gildum røkum, eda ekki. Mín eigin reynsla hefur nú sannfært mig um, ad þannig, sem líkindi máttu þykja til, hafi nú í þessu efni tilgeingid í raun og veru; því þó hinir greindari og hyggnari menn dæmi med greind og stillíngu um alþíngismálefnid, og líti á fleiri enn einn bóginn, eru þó aptur hinir margir, sem hugsunarlítid hlaupa eptir því, sem sagt er í alþíngisþáttunum, og endurkveda þá dóma, sem þar eru feldir um adgjørdir embættismannanefndarinnar, án þess ad þekkja þær ástædur til hlítar, á hvorjum þær eru byggdar, edur, þó þeir þekktu þær, séu færir um ad meta þær réttilega.

Þegar svona var nú ástatt, og eg á hinn bóginn var sannfærdur um, ad margt er midur grundad í alþíngisritum þeim, sem út hafa komid, áleit eg þad skyldu mína ad útlista betur málefnid frá minni hálfu, svo ad þeir, sem um þad vildu dæma, en ei eru færir um þad án leidbeiníngar, gjætu skodad þad á alla vegu. En sérílagi áleit eg mér skyldt ad sýna, ad dómar þeir, er feldir hafa verid um adgjørdir Reykjavíkur nefndarinnar, væru bædi ránglátir og ómerkir; því eg held þad sé eitt af því versta, sem hendt getur fødurland mitt, ef þad skyldi takast, ad veikja traust alþýdu ad raunarlausu á þeim embættimønnum, sem af alhuga leita almenníngs heilla eptir bestu sannfæríngu, og dyggilega rækja skyldu sína. Eg tók því bædi af þessum orsøkum, og líka eptir áeggjun margra skynsamra manna, er rit mitt høfdu séd, fyrir mig, ad leida þad til lykta í næstlidnum nóvember mánudi, og láta þad á prenti koma fyrir almenníngs augu; en ad prentun ritsins hefur

svo leingi dreigist, kémur af því, að ritið í öndverðu var samið á dönsku, en vegna ýmislegs annríkis varð ekki byrjað á að íslendska það fyrri enn seinast í næstliðnum mánuði.

Að útleggíngunni hafa fleiri menn unnið enn einn, og það í skyndi, og því gétur verið að hún allstaðar ei sé svo vönduð sem skyldi, og að sumum, og sérílagi þeim, er danska frumritið sjá eða hafa séð, virðist útleggíngin ekki allstaðar sjálfri sér lík. Í þeim kabla ritsins, sem eg hefi sjálfur útlagt, hefi eg sumstaðar vikið nokkuð frá orðum frumritsins, og útlistað sumt hvað nokkuð gjör og með fleiri orðum, enn í frumritinu er skéð.

Vera má að sumum þyki eg vera nógu þúngorður við mótstöðumenn mína í ritgjörð þessari á einstöku stöðum, og eflaust er það, að þeir munu þannig á málið líta, sem svo eru einrænir, að þeir fá ei betur séð enn að hinir hafi rétt fyrir sér í öllu; en aðrir, og þeir munu fleiri verða, sem hlutdrægnislaust vega beggja rit og ástæður, munu finna, að eg hafi ei tekið ofdjúpt í árinni, þegar þeir aðgæta,, hvað harðlega og þó ránglega þeir menn, sem eg hefi átt orðastað við, hafa álasað embættismannanefndinni í Reykjavík. Það er að sönnu öldúngis ómissandi til sannra framfara, að opinberlega sé dæmt um rit og aðgjörðir embættismanna; en best fer þá fram, og mest verður þá gagn að slíkum dómum, þegar þeir eru feldir með hóffsemi, stillíngu og sannsýni, án beyskju og bituryrða, því þó þessa sé alls gjætt, þarf ekki að draga af sannleikanum fyrir það. Ef ritgjörð mín yrði tilefni til þess, að hinir ýngri landar mínir gjættu meiri hóffsemi í dómum sínum eptirleiðis, enn sumstaðar er skéð í alþíngisþáttum þeirra, þá þæktist eg góðu fyrir bættur; því ekki má vita hvað íllt með tíman-

um, leida kann af því, ef dæmt verdur eins illa og ósanngjarnlega um adgjørdir alþíngismannanna, eins og gjørt hefur verid um størf Reykjavíkurnefndarinnar.

Høfundur sá, er eg optast hefi átti málstad vid, hefur á einum stad í ritum sínum sagt, ad eg „hafi ekki viljad þola neinum adfindnina nema sjálfum mér". Þetta er nú nokkud ordum aukid og verdur ad lagfærast, ef þad á ekki ad misskiljast. Eg vil því lýsa hér, hvor mín sanna meiníng sé í þessu efni. Þegar fundid er ad ritum, þá ber ætíd tvennt til: annadhvort er adfindnin bygd á gildum ástædum, ellegar ekki. Sé adfindnin rétt, á sá, sem hún kémur framm vid, ad fallast á hana, annadhvort þeigjandi, eda, þegar svo ber undir, med berum ordum. En sé adfindnin órétt, þá getur þad einnig verid med tvennu móti: annadhvort er hún þá órétt ad efninu, edur ad forminu til. Þegar adfindnin er órétt ad efninu til, þad er: þegar sá, sem adfinnur, ekki byggir adfindnina á gildum ástædum, en finnur þó ad á skikkanleganu hátt, þá á sá, sem fundid er ad vid, ad sønnu ad sýna, ad adfindnin sé raung, en gjøra á hann þetta med hófsemi og stillíngu; og þetta kalla eg „ad þola adfindni". En sé adfindnin órétt ad forminu til, þad er: ef hún er gjørd med meidandi eda nidrandi ordatiltækjum o. s. frv., þá kalla eg hana ekki þolandi, og þá er rétt ad refsa slíkri adferd svo hardlega, sem hún vinnur til. Þad er nú audskilid, ad adfindnin, t. d. vid eina ritgjørd, getur verid rétt í sumum greinum, en aptur raung í sumum; og ad svo miklu leiti hún er raung, getur hún verid þad annadhvort ad efninu eda ad forminu til, eda í hvorutveggju tilliti. En þetta breytir í eingu því, sem ádur er sagt um þad, hvornig sá skal hegda sér, sem fundid er ad vid.

Sá, sem með athygli og fylgislaust les rit mitt, mun finna, að eg allstaðar hefi „þolað aðfinndni" mótstøðumanna minna, eptir því, sem eg skil þetta orð, þar, sem hún er þannig løgud, að skyldt er að þola hana; en hvort eg hafi hitt rétt meðalhóf þar, sem aðfinndni þeirra átti, eptir minni hyggju, átølur skilið, þarum verða nú landsar mínir að dæma, hvor eptir því, sem hann hefur nærgjætni, greind og skapferli til.

Skrifað í apríl mánuði 1845.

---

Eingin af atgjørdum stjórnarinnar hefir nokkru sinni vakid gladari tilfinníngar, edur sætt meira athyglis af øllum landsmønnum á Íslandi, þeim er nokkra stund leggja á alþjódleg málefni, heldur enn konúngsúrskurdurinn frá 20 maí 1840, er hét Íslendíngum, ad þeir skyldu lausir vid þíngsókn ad Hróarskéldu med Eydønum, en eignast sjálfir fulltrúaþíng á Íslandi. Því hvorttveggja var, ad bædi þóttust menn fullvissir um, ad Íslendíngum mundi ekki verda þad gagn ad þjódþíngi þessu, sem til var ætlad, medan þeir ættu ad sækja þad med Dønum, og ýmsir høfdu sagt þad med berum ordum árid 1832, bædi embættismenn í bréfum til stjórnarrádanna, og adrir í ritum, er þá voru prentud, og þessi fullvissa styrktist hjá mønnum ár frá ári; svo var þad einnig almenn meiníng manna, ad Fridrik konúngur hinn 6ti mundi í eingu breyta útaf því, er hann hafdi eitt sinn bodid, hvad þíngskøp Íslendínga snerti. Fyrir því var øll von landsmanna, er æsktu þess, ad Íslendíngar eignudust alþíng sér, á konúngsefninu, og bidu þess, er hann gjørdi í því efni. En er sú von hafdi rætst fyrr enn menn hugdu, jók svo skjótur og svo gledilegur úrskurdur konúngs eigi allítid á gledi manna, og glæddi og styrkti þann áhuga, er þá vaknadi.

Til merkis um þennan áhuga er þad eitt medal annars, ad ekkért málefni, sem Ísland hefir vardad, hefir komid fótum undir jafnmarga ritlínga, sem þetta um alþíngid. En vegna þess, ad ritlíngar þessir, þótt þeir annars séu gjørdir af heilum hug til þessa málefnis, og í því skyni, ad því yrdi sem best og haganlegast fyrirkomid,

eru, ad minni hyggju, ad nokkru leiti byggdir á raungum ástædum, og líka hins vegna, ad sumir þeirra leggja, ad því er mér finnst, ástædulítinn og ekki sanngjarnlegan dóm á adgjørdir Reykjavíkur-nefndarmanna bædi í þessu máli og ødrum, en sá dómur er ad nokkru leiti til ordinn af ritkorni því, er eg samdi á dønsku, og lesa má í Berlínga tídindum frá 1843, Nr. 150—153, og er þad útlagt á ísl. í 4 þáttum, bls. 1—28, þá hefi eg haldid, ad eg gæti ekki alveg skorast undan því, ad skoda þessa ritlínga nokkud gjør, og þad því sídur, sem mér mun géfast færi á, ad koma med nokkrar athugasemdir, er eg hygg ad skýra muni sjónir fyrir mønnum á ýmsum atridum þessa máls, og koma því til leidar, ad þeir leggi á þad réttari dóm enn ádur. Von sú, er eg gjøri mér um, ad géta ennþá ad nokkru leiti rétt meiníngar manna um þad málefni, er svo mikils er umvardandi fyrir fósturjørd mína, og sem hvorki er, eda á ad vera, ad øllu leiti á enda kljád, verdur því ad sitja í fyrirrúmi hjá mér, og eg verd ad meta hana meir, heldur enn hitt, hversu ógédfeldt mér er ad halda áfram því strídi, sem nú þegar, ad naudsynjalausu, hefir verid hád býsna lángt frá gódu medalhófi.

Ritlíngar þeir, er á prent hafa komid, og tala um setníngu og løgun alþíngis vors, sumir á dønsku, sumir á íslendsku, og sem eg hefi viljad gjøra athugasemdir vid, eru þessir:

*I.* „Um alþíng" í bæklíngi þeim, er nefnist „þrjár ritgjørdir", samid af Síra Tómási heitnum Sæmundssyni, og géfid út af 17 Íslendíngum í Kmh. 1841.

*II.* „Um alþíng á Íslandi" í „Nýum félagsritum", fyrsta ár, 1841.

*III.* „Um alþíng" í „Nýum félagsritum", annad ár, 1842.

*IV.* Ritlíngur á dønsku, sem nefnist „Nogle Bemærkninger med Hensyn til det islandske Althing" (nokkrar athugasemdir um alþíng Íslendinga), í Kaup-

mannahafnarpósti, 31ta Aug. og 1ta Sept. 1842, Nr. 238 og 239.

*V.* „Bréf Íslendínga til Balthazars Kristensens", í viðbæti við Fréttir frá fulltrúaþíngi í Hróarskéldu 1842.

*VI.* „Bréf Austfirdínga til Balth. Kristensens", í viðbæti við Hróarskéldufréttir 1843.

*VII.* „Svar uppá athugasemdir Melsteds kammeráds um alþíngismálið", í „Fjórum þáttum", Kmh. 1843.

*VIII.* „Andsvar móti athugasemdum eins „Danskins" viðvíkjandi alþíngismálinu", í sömu bók.

Höfundur ritlíngsins Nr. 1. fer mörgum fögrum orðum og eptirtektarverdum um það, hversu hamíngjusamleg landinu sé sú mikilvæga stiptan, er konúngur hefir veitt oss Íslendíngum; tekur hann einkum fram vott þann um stjórnarspeki konúngs og gædsku, er lýsi sér bædi í anda og inntaki úrskurdarins, og í einstökum ordum hans og atridum; þessi vottur þykir honum einkum lýsa sér í því, að úrskurdurinn bendi mönnum til að rydja hinum íslendsku landslögum og rétti nýa braut, er ekkért eigi skyldt við Dani edur þeirra löggjöf; að nú géfist Íslendíngum færi á að ýngja upp aptur fornöld sína med allri sinni tign og menjum, og laga störf sín og framfarir hvervetna eptir fyrirmynd forfedra sinna.

Samkvæmt þessu leidir nú höfundurinn fyrir sjónir, hvernig alþíngid eigi ad vera lagad, bædi samkvæmt vilja konúngsins, er hann hafi í ljósi látid, og ósk þjódarinnar. Hann géfur fyrst þá adalreglu, ad þar ed úrskurdur konúngs vísi mönnum eingaungu til fornaldarinnar, svo eigi menn ad leggja alla hina fornu alþíngisskipan til grundvallar, og rydja burtu öllum vankvædum, sem virdist rísa af breytíngum og ásigkomulagi tímanna til hnekkis hinu gamla. Því seigir hann, ad réttarbæturnar um fulltrúaþíngin í Danmörku komi þessu máli ekkért vid, menn skuli géfa ad þeim eingan gaum, því þær séu ekki til annars, enn ad leida á eldri afvegina,

sem Íslandi hafi ordid til ills, ad løggjøf þess var løgud eptir útlendum løgum. Hins vegar heldur hann, ad þar ed ekki sé kostur ad ímynda sér adra stjórnarløgun, sem betur eigi vid edli og lífernishattu þessa lands, heldur enn þá, sem hér var í fornøld, svo eigi menn í øllum greinum ad koma henni á aptur, eins og hún var medan fríftjórn var í landinu. Hann vill þess vegna, ad í løg séu leidd hin fornu skipti á landinu í 4 fjórdúnga, og 13 þíngsóknir edur héradaþíng, og svo skuli menn taka upp aptur vorþíng þau hin fornu. Á þessum vorþíngum, er haldast skyldi á ári hverju 20ta dag maimán., þann dag er konúngsúrskurdurinn er dagsettur, og sem hédan af ætti ad vera þjódhátíd Íslendínga, á þeim ætti ad kjósa þjódfulltrúana til alþíngis, og hafa um hønd ýms alþjódleg efni, t. a. m. semja búnadarskýrslur, telja fé fram til tíundar, birta løg og adgjørdir valdsmanna.

Hann vill, ad sá meigi hverr kjósa alþíngismann, sem verid hefir í 5 ár vid bú, og ekki notid sveitarstyrks; sømuleidis þeir, er eigi svo sem 100 dala virdi í fasteign, þ. e. eptir því, sem jardir eru nú á tímum seldar, milli 2ja og 3ja hundrada; hefir høfundurinn sjálfsagt ætlast til, þó hann seigi þad ekki med berum ordum, ad kjósendur skyldu vera 25 vetra. Høfundurinn nefnir ekki, hverja kosti þurfi til kjørgeingi, ad hans áliti; en af anda og sambandi í riti hans má ráda, ad hann muni ei hafa viljad binda fremur kjørgeingi manna, heldur enn kosníngarrétt.

Alþíngismenn vill hann séu 48, og auk þeirra amtmenn, biskup og landsdómari vera sjálfvaldir til þíngs. Eins og godar í fornøld áttu setu á alþíngi, svo vill høfundurinn nú láta kjósa 12 menn til alþíngis úr hverjum landsfjórdúngi, nl. 3 úr hverju héradi edur héradsþíngi af þeim 4, er nordlendíngafjórdúngur skyldi skiptast í, og 4 úr hverju af þeim 3 héradsþíngum, er hinir fjórdúngar landsins skyldu greindir í. Þíngmønnum skyldi ekki daglaun greida, en løgtaka skyldi ferdakostnad þann, er hverjum einum ætti ad gjalda, allt eptir því hve lángt

hann ætti til þíngs. Þeir sem leingst ættu ad, 18 aura hverjum, edur 13 rbd. 48 sk., en 4 aura, edur 3 rbd., hverjum úr hinum næstu þíngum, og yrdi þá kostnadurinn allur til ad géta 368 rbd. 72 sk.

Høfundurinn, sem ekki vill, ad í neinu sé vikid frá hinum fornu þíngskøpum, ætlast til, ad þíngid verdi haldid á ári hverju, og standi 14 daga; ad yfirdómur landsins verdi haldinn á alþíngi, en landsyfirrétturinn leggist nidur, einn verdi yfirdómari edur landsdómari í landinu, og skuli í hvert skipti nefna til dóma med honum nokkra løgfróda menn af alþíngismønnum; ad alþíng verdi haldid á **Þíngvøllum**, þykir honum þad svo miklu varda, ad hann seigir, „ad þad sé hid sama, ad flytja alþíng frá **Þíngvøllum**, og ad aftaka þad gjørsamlega".

Þetta ágrip af ritlíngi høfundarins sýnir ljóslega, ad fastheldni hans vid reglur fornaldarinnar hefir leidt hann afvega í ransókn sinni um løgun hins nýa alþíngis, og látid hann seigja margt óheppilega og ósamkvæmt vorra tíma þørfum.

Þar sem hann vill taka upp aptur øll hin fornu skipti á landinu, og vorþíngin, þá er audséd, ad af því mundi ekkért sannarlegt gagn leida, en hitt liggur í augum uppi, ad slíkt mundi olla margvíslegum umsvifum og erfidleikum, ádur enn því yrdi framgeingt. Margar af hinum fornu þíngsóknum voru stórar og vidlendar, og mundi þad ekki lítid, ad naudsynja- og þarflausu, gjøra mønnum erfidari ferdir til héradsþínga, auka kostnad á þínghússmídi og vidhaldi; en hér vid bætist og þad, ad margar af þessum þíngsóknum nádu yfir fleiri sýslur enn eina, edur þá eina sýslu og parta af ødrum sýslum, eptir því sem landinu er skipt nú á tímum[1]. Af slíku mundi mørg

---

[1]) Høfundurinn villist, þar sem hann bls. 80 seigir, ad hinum gømlu héradsþíngum hafi í fornøld alstadar verid eins skipt, eins og sýslum nú á tímum, nema í vestfirdíngafjórdúngi. Hid gamla Ridjafellsþíng nádi bædi yfir sudur- og mikinn hluta nordur-

sú flækja spinnast, sem höfundurinn hefir ekki reynt úr ad greida. Pad er ad sjá á þessu frumvarpi hans, ad ást á fornri venju og fornum nöfnum hafi knúid hann til ad koma med þad; en auk þess er þad gjört í því skyni, ad fulltrúar géti ordid jafnmargir til þings kvaddir frá öllum landsfjórdúngum sem ádur, medan frístjórnin stód, og godar allir skyldu til þíngs koma, eiga sæti í lögréttu, og ráda þar lögum og lofum. En þad liggur í augum uppi, ad sú ástæda er einkis verd, og ná mætti tilgángi höfundarins med ödru móti, ef menn annars ættu ad leggja kapp á þad, heldur enn med því, ad trubla öll sýslu og sveita skipti, eins og þau nú standa. Par sem höfundurinn hefir viljad láta kosníngarrétt, og líklega kjörgeingi, ná til allra þeirra, sem verid hafa 5 ár vid bú, og ekki þegid sveitarstyrk, hefir hann ad nokkru leiti látid mikinn fjölda nefgildismanna og konúnga eiga þátt í kosníngum, og þannig feingid þær í hendur fáfródri og leiditamri alþýdu, en ad ödru leiti ástædulaust bægt frá mörgum kosníngarfærum mönnum, med því ad einskorda búskap þeirra vid 5 ára tíma [2]. Greidi sá, er höf-

---

múla-sýslu; og hid gamla Þverárþíng nádi bædi yfir Borgarfjardar- og mikinn hluta af Múla-sýslu, edur lögsagnarumdæmi því, er liggur undir sýslumanninn í tédri sýslu, svo ad þetta þing, ef þad væri tekid upp aptur, mundi einnig breyta þeim takmörkum, sem nú eru millum sudur- og vestur-amtanna.

[2]) Í tilliti til kosníngarréttarins, sem med réttu er kalladur „hyrníngarsteinn" alþingisstiptunarinnar, hefir höfundurinn samt verid naudbeygdur til ad víkja frá því, er hann telur eiga ad vera þá adalreglu, útaf hverri ekki meigi bregda, nefnil. ad leggja lögun og skipulag hins gamla alþingis til grundvallar fyrir hid nýja; því eptir hans uppástúngu eiga alþingismennirnir ekki einúngis ad veljast af þjódinni, heldur vill hann líka ad kosníngarrétturinn sé sem allra minnst takmarkadur, og nái til sem flestra mögulegt er, í stad þess ad þjódin eptir Grágásarlögum hafdi einga hlutdeild í ad velja þá lögréttumenn, er kosnir voru til hins gamla alþíngis, heldur

undurinn ætlast til, ad alþíngismenn ættu ad fá fyrir ferdakostnad sinn, er í alla stadi svo ónógur og ótilhlýdilegur, ad gánga má ad því vísu, ad einginn alþíngismadur mundi nokkru sinni þiggja hann. Þó einstakir menn hefdu fóung og færi á ad koma á þíng, þegar svona er tilhagad, mundu þeir miklu heldur eingin laun þiggja enn þessi, sem ekki eru helmíngur þess, er nú tídkast ad gjalda óvoldum sendimonnum. Ad alþíngid skyldi haldast á ári hverju, en ekki standa nema 14 daga, væri ekki til annars enn auka óþarflegan ferdakostnad, ef á annad bord ætti ad gjalda þíngmonnum hann sannsýnilega, en ad odrum kosti baka þeim óbærilegan ordugleika og álogur; svo væri þad heldur ekki vinnandi verk fyrir þíngmenn, ad ræda til lykta á svo stuttum tíma, nema fá mál og lítils vardandi. Þar sem hofundurinn hefir rádid til ad taka af landsyfirréttinn, en leggja dóms adgjordir hans til alþíngis, þá væri slíkt svo stórkostlegar apturfarir, ad oll sú endurbót, og allar þær framfarir, sem log og landstjórn hafa tekid í landinu sídan árid 1796, yrdi þá ad mestu leiti ad eingu; enda væri alþíngismonnum ómogulegt, auk annara starfa, ad dæma í ollum þeim málum, sem ordid hefdu í landinu frá því hid fyrra árid, á hálfs mánadar tíma. Þessi uppástúnga

---

einúngis þeir godar, er flestir án kosníngar, einúngis af því þeir áttu godordin, hofdu sæti á midpollum í logréttu. Samt ber ad géta þess, ad á fyrstu oldunum virdist sem alþíngisskipanin hafi verid alþjódlegri, enn hún vard sídar; því af hinum 97da kapitula í Njálu, er seigir frá stiptun fimmtardómsins, og þaradauki géfur ad skilja, ad eptir undirlagi Njáls hafi sú breyting á ordid um logréttu, ad þeir, er á midpollum sátu, skyldu hafa meira vald enn ádur, virdist meiga skilja, ad þessir menn einnig skyldu veljast. Njála kvedur þannig ad ordi: Vér scolom oc hafa þá logréttuscipan, ar þeir scolo réttir ar ráda fyrir lofum og logum, er sitja á midpollum, oc scal þá velja þar til, er vitrastir eru oc best at sér.

høfundarins sýnir gløgglega, hversu audveldlega menn, sem annars eru bædi vitrir og vel menntadir, géta leidst til ad flytja þær kénníngar, þegar þeir líta ekki nema á eina hlid málsins, sem mønnum hvorki er unut eda skyldt ad fylgja.

Þad er eingan veginn til þess, ad rýra orðstýr látins sæmdarmanns, ad eg hefi bendt mønnum til þess, sem rángt er í einu af ritum þeim, er hann lét eptir sig, heldur vegna þess, ad eg veit, ad margir hafa fallist á meiníngu hans, hrifnir af mælsku þeirri og fødurlandsást, sem lýsti sér í ritum hans [3]. Og einkum var þad þetta rit, og áhrif þau, sem þad hafdi gjørt á marga, er eg hafdi í huga, þegar eg í ritgjørd minni, í „4 þáttum" bls. 7, sagdi, ad sumir af løndum mínum, af einþykkni sinni, vildu snúa øllu í hid gamla horf, eins og verid hefdi fyrir mørgum øldum; og nú vil eg bidja skynsama menn ad dæma um, af því sem hér ad framan er sagt, hvort eg hefi haft gilda ástædu edur ekki, til ad seigja þessi áminnstu ord um landa mína.

Því nær í sama mund, sem ádurnefnd ritgjørd kom á prent, birtist ønnur ritgjørd, sem hér er nefnd ad framan, Nr. 2. Ritgjørd þessi er í 7 greinum, og talar ad sønnu um margt þad, sem ekki stendur í nákvæmu sambandi vid alþíngisskipun vora, og mætti því sleppa því fram hjá sér; en søkum þess, ad ýms atridi koma fyrir hér og hvar í flestum greinum þessarar ritgjørdar, sem bædi hafa tillit til alþíngis, og ad ødru leiti þurfa þess vid, ad skodud séu á fleiri vegu, þá held eg þad best fallid, ad yfirfara allar høfudgreinir hennar.

Í fyrstu grein gétur høfundurinn þess, eptir

---

[3]) Ad minnsta kosti er þad ei ólíklegt, ad þeir 17 Íslendingar, er tekid hafa þátt í ad géfa út ritgjørd høfundarins, muni ad mestu leiti hafa fallist á meiníngu hans, því ella mundu þeir, eins og þeir hafa gjørt vid ønnur tækifæri, uppá einn eda annann máta látid á sér merkja, ad álit þeirra væri høfundarins frábrugdid.

ad hann hefir minnst á hina helstu landstjórnarháttu í fornöld og á midöldunum, ad bædi þjódlífid og stjórnarhátturinn á Íslandi veki mesta undrun, og allt sé jafn addáanlegt: kjarkurinn, ad láta eigi kúgast af „ræníngjanum" Haraldi hinum hárfagra; árædid, ad leggja út á reginhaf á smáskipum, og þekkja ekki annad til leidsagnar enn nokkrar stjørnur; og dugnadurinn, ad leggja ekki einúngis undir sig Ísland, og rækta þad, heldur einnig stofnsetja nýlendur á Grænlandi og í nokkrum hluta Vesturálfu, og halda þó jafnframt samgaungum vid frændur sína í Noregi, Danmørku, Svíþjód, á Einglandi, Írlandi, Orkneyum og Skotlandi. Því er ad sønnu ekki neitad, ad landnámsmenn þeir, er tóku sér bólfestu á Íslandi, hafi, yfir høfud ad tala, haft þá mannkosti til ad bera, sem høfundurinn nefnir, og ad þessir kostir hafi fyrst eptir landnámstíd nokkud fram eptir øldum rádid ad nokkru stefnu þeirri, sem þjódlífid tók hér í landi; en hins vegar er ekki gott ad sjá, hvernig undrun sú, er mannkostir þessir eiga skilid, géti aptur verid ástæda til þess, edur sannad þad, ad stjórnarløgunin á Íslandi hafi verid betri enn alstadar annarstadar; því þad ætti þó helst ad vera eigid ágæti hinnar íslendsku stjórnarløgunar, og yfirburdir hennar yfir annara landa stjórnarform, þegar hvorutveggja væri jafnad saman, sem slíkur dómur gæti byggst á ad réttu. Þad er ekki øldúngis víst, en sýnist þó verda svo ad vera, þegar rakinn er þrádurinn í ritgjørd høfundarins, ad hann taki þjódveldid forna (Republik) á Íslandi fram yfir ønnur þjódveldi á fyrri tímum, og einkum hid rómverska þjódveldi. Þessu gét eg, fyrir mitt leiti, eingan veginn verid samþykkur. Stjórnarformid Rómverja var á miklu fastari fótum byggt, enn stjórnarform Íslendínga, og hafdi nád meiri þroska í øllum greinum; og jafnvel þó litid sé til þeirra stiptana (nl. løgréttu og dómanna) á Íslandi, sem mestu rédu um lagasetníngu og réttarstørf, og sem ágætlega var fyrirkomid, eptir því sem menntun og framfarir manna voru á

þeim tímum, gét eg samt ekki séd, ad menn géti í nokkru tekid stjórnarform Íslendínga fram yfir stjórnarform Rómverja, án þess ad vera stórlega ósanngjarnir. En þar ed høfundurinn hefir ekki borid þeisi atridi nákvæmar saman, heldur einúngis komid med þau ástædulaust, ætla eg ekki ad fara um þad fleirum ordum. Því einu vil eg vidbæta, er mér þykir hann optar enn einu sinni géfa tilefni til í ritgjørd sinni, ad þá sæmir sér lofid best um frægd forfedra vorra, er menn seigja frá fornøld þeirra, háttum og menjum med sannsøgli, sanngirni og nægum ástædum, en á hinn bóginn er þad fremur til ad rýra enn auka frægdina, þegar sagan er ekki nema hálfsøgd, hallad málunum ýmislega, tínt til hid skárra, en ekki gétid hins lakara, og drepid nidur sæmd annara þjóda, edur manna þeirra, er þar hafa mestir verid. Þannig á þad stórilla vid, er høfundurinn kallar Harald hinn hárfagra „ræníngja". Þetta vidurnefni sæmir sér ekki, hvort sem litid er til þess, hversu merkur madur hann var, bædi setti á stofn stórt einvaldsdæmi, og ad af honum var komin fræg konúngaætt, edur til þeirrar hugmyndar, sem fornir sagnaritarar gjørdu sér um nafnkénnda einvaldskonúnga, er þeir jafnan halda á lopt afreksverkum þeirra. Þess háttar auknefni (epitheta ornantia) lýsa því, ad menn hafa ekki gétad losad sig úr fjøtrum sjálfshyggju sinnar, eda hafid hugann frjálsan og fjørugan til heimspekilegrar skodunar á mønnum og vidburdum þeim, er veraldarsagan skýrir frá, en án þess er øldúngis ómøgulegt, ad nokkur saguaritun géti verid í gódu lagi [4]. Høfundurinn

---

4) Þad var þannig einu sinni sídur hjá nokkrum sagnariturum, ad smána Olaf konúng Tryggvason og gjøra litid úr honum, og var hann þó einn af þeim yppurstu mønnum, er søgur hafa farid af á nordurløndum. Kølludu þeir hann óstjórnlegan ædikall (Fanatiker), blódþyrstan hardstjóra m. m., af þvi hann, eptir því sem søgurnar greina, einstøku sinnum refsadi grimmlega þeim, er stódu í móti kristnibodinu. Slíkir sagnaritarar, er líkjast gømlum skóla-

seigir enn fremur, ad á elleftu øld hafi landstjórn øll farid mjøg vesnandi, og hafi því valdid vélar Noregs konúnga og klerkavaldid; ad landid hafi misst frelsi og frístjórn sína, hafi ad minnsta kosti medfram verid af þeirri orsøk, „ad hún hafi mænt of lángt upp yfir þá øld", og vill hann ad nokkru leiti sanna þad af bodum Vilhjálms kardínála til Íslendínga 1248 (høfundur-inn seigir 1348, sem líklega er prentvilla), ad þeir skyldu „þjóna til Hákonar konúngs", því þad væri „ósannlegt, ad þad land þjónadi eigi undir einhvern konúng, sem øll ønnur í verøldinni". En vid þad er adgætandi, ad þad var ekki á elleftu øld, heldur seinna, á tólftu, og einkan-lega á þrettándu øld, ad hagur og stjórn hér í landi fór vesnandi, og líka, ad þad voru hvorki klerkar edur Noregs konúngar, sem á elleftu øld spilltu í nokkurn handa máta landstjórn á Íslandi. Þad er heldur á hinn bóg-inn almennt játad, ad hinir fyrstu biskupar hér á landi, á elleftu øld og fyrri hluta tólftu aldar, hafi átt gódan þátt ad því, ad efla framfarir þjódfélags vors, og opt midlad málum med høfdíngjunum [5]. Ekki vita menn heldur til, ad á þeim tímum, sem nú var sagt, hafi Noregs konúngar átt nokkurn þátt í vidskiptum manna edur stjórn hér á landi. Þad var fyrst á þrettándu øld, ad klerkavaldid nádi skadsamlegum yfirrádum, og

---

meistarum eldri tída, gæta þess ei, ad athafnir þeirra manna, er mest kvedur ad í veraldarsøgunni, af því þeir hafa undirbúid eda byrj-ad nýtt þjódalíf, stydjast vid og hafa sína rót í ædri køllun, og því eilífa løgmáli, hverju verøldin á veígi sínum til hins fyrirsetta tak-marks verdur ad hlýda. Menn samanberi vid þetta, þad sem Hegel seigir í „Forelæsninger vor Historiens Philosophie", sérílagi í inn-gánginum, hvar hann líkir slíkum sagnariturum vid Thersítes hjá Hómer, og Schiern: „Om Historieskrivning, i Tidsskrift for Litteratur og Kritik".

[5]) Sbr. P. E. Müller om den islandske Historieskriv-ning, i Nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed, 1te Bind, p. 37.

Noregs konúngur reyndi, ad færa sér í nyt óeyrdir þær, sem hér voru þá, til þess ad koma landinu á sitt vald. Ad eigid ágæti landstjórnar vorrar hafi ¦ad nokkru leiti valdid því, ad frístjórn leid undir lok í landinu, er bædi ósannad, og verdur heldur ekki sannad, og þau ord Vilhjálms kardínála, sem vitnad er til, sanna þad heldur eingan veginn; því þad gat ekki haft mikil áhrif á ástand hins íslendska fríveldis, edur rádid nokkru fyrir um afdrif landstjórnar vorrar, hvort álit hins rómverska kardínála á henni var gott edur ekki. Þetta hefir naumast heldur verid full alvara høfundarins, því seinna í bókinni, nl. á 71 bls. nedanmáls, telur hann sjálfur eina af adalorsøkum til þess, ad landstjórn leid hér undir lok, og frístjórnin lagdist nidur, „ad framkvæmdarvaldid var of lint", þar ed Íslendíngar hinir fornu hvorki høfdu vit á ad setja á stofn hjá sér eina adalstjórn (Centralregjering). Þá er hefdi nægilegt vald í høndum, né heldur haga þannig valdi embættismanna um landid, ad þeir gætu, hvenær sem á þyrfti ad halda, gégnt køllun sinni med atorku og látid adra hlýda sér.

Í annari grein talar høfundurinn um ýmsa stjórnarløgun, kosti hennar og ókosti; en fyrir þá søk, ad slíkt sýnist í litlu snerta þad efni, sem høfundurinn hefir ætlad sér um ad tala, sem er um alþíng á Íslandi, þá ætla eg ad sleppa þessari grein fram hjá mér, og þad því heldur, sem þar eru fáar hugleidíngar, er géfid géti efni til athugasemda, sem nokkud eigi skildt vid þetta mál.

Í þridju grein, sem talar um addragandа fulltrúaþínga hjá Dønum, er fyrst gétid þess, hvernig konúngavaldid sé til ordid, og hafi nád þeirri festu, sem þad hefir feingid; því næst er drepid á stjórn þeirra Hlødveranna á Frakklandi, rit Voltéra, Rúsós og „þjódfrædínga flokksins" (Encyclopædistanna), frelsi Vesturheimsmanna undan Bretum, stjórnarbiltínguna miklu á Frakklandi, og aftøku Hlødvers konúngs 16da, ríki Napóleons keisara hins mikla, frelsisstrídid, og loksins ríkisstjórn Karls konúngs hins

lodo, og þannig opt bendt til þess, ad þjódirnar géti komid til leidar, hverju sem þær vilja, þegar þær eru samhuga og elska frelsid. Allur sá kabli þessarar greinar, sem talar um þetta, hefdi vel mátt missast, án þess tilgángur høfundarins med ritgjørd sína hefdi í nokkru haggast, og þaradauk hefir hann farid hér svo fljótt yfir, ad hver sá, sem ekki þekkir nokkurn veiginn søgu þessara vidburda, er hann nefnir, — og svo er nú um mestalla alþýdu á Íslandi, og henni er þó einkum ritgjørdin ætlud —, fær einga greinilega þekkíngu á þeim, þótt hann lesi ord høfundarins.

Þegar høfundurinn hefir minnst á fulltrúaþíng Dana, getur hann í stuttu máli um addragandann ad því, ad Íslendíngar gætu og eignast þátt í þíngum þessum, og einkum, hvernig hagad yrdi kosníngum hér á landi, til ad kjósa menn til þíngs med Eydønum í Hróarskéldu. Fylgir høfundurinn ad nokkru leiti frásøgn þeirri, sem ritud er um þetta mál í Kollegial-tídindum ár 1840, bls. 617 og n. bls. Hann minnist fyrst á þad, þegar kanselíid ritadist á vid amtmenn á Íslandi árid 1831 um þetta efni, getur hann þá þess, ad vera meigi, ad sundurleitar meiníngar manna á Íslandi hafi ollad því, ad landid fékk þá ekki fulltrúaþíng sérílagi; en sú tilgáta sýnist þó ekki eiga sem best vid þad, sem høfundurinn seigir skømmu seinna, ad allt bendi til þess, ad Fridrik konúngur hinn 6ti hafi aldrei ætlad ad géfa Íslendíngum fulltrúaþíng sérílagi. Því næst talar høfundurinn um embættismannafund þann, er haldinn var í Reykjavík 1839, samkvæmt konúngsbodi frá 22. ágústm. 1838, er skipadi þessum mønnum ad bera rád sín saman um þad, hvernig hæfileg kosníngarløg yrdu samin fyrir Ísland, med tilliti til tilskip. frá 15 maí 1834, þegar landid ætti ad senda fulltrúa til þíngs í Hróarskéldu. Høfundinum líkar ekki adferd nefndarmanna, ad því leiti, sem þeir sømdu kosníngarløg fyrir Ísland, en søgdu þarhjá, og sýndu med skýrum og sterkum røkum, ad slík kosníngarløg mundu olla landinu ónýtrar og tilgángslausr-

ar byrdar, en Íslendíngar mundu því ad eins géta haft nokkur not af fulltrúaþíngum, ef þeir feingi ad eiga eitt í landinu sjálfu. Fyrir því heldur hann, ad þad eitt hefdi verid nóg, ad koma fram med røk þau, er nú voru nefnd, og nefndarmenn hefdu átt ad spara sér ómak þad, ad búa til þessi kosníngarløg, og hafa þann tíma til ad taka dýpra í verdslunarmálid. Þetta hafa nú støkumenn hér í landi sagt ádur, en þad er án efa bædi rángt og ástædulaust. Þar ed nefndarmenn høfdu fyrir sér beina og skýlausa skipun til þessa starfa, edur til ad semja skýlaust frumvarp kosníngarlaga handa Íslandi, med þeim skilmálum, sem ádur er sagt, hefdi þad fyrst og fremst ekki átt vid, né heldur verid vel sæmandi, ef nefndarmenn hefdu ekki einúngis látid ógjørda skipan konúngs, heldur þar á ofan komid med þad frumvarp, sem var henni øldúngis gagnstædt. Þar ed ástædur þær, er mæltu med því, ad Íslendíngar einúngis mundu géta haft not af þíngi í landinu sjálfu, voru tíndar til, og sagdar med øllu því abli og greind, er mønnum var unnt, í bænarskrá þeirri, er hédan fór frá landi árid 1837, og sem høfundurinn minnist á, án þess nokkud hefdi þá af því leidt, og þar ed nefndarmenn sáu sig ekki færa um, ad bæta miklu vid þad, sem þar hafdi verid sagt, þá høfdu þeir þar næst gilda ástædu til ad halda, ad þá mundi ekki fást þad, er menn æsktu, þó þess væri beidst og beinlínis færd røk til. Ad sídustu héldu þeir, ad best mundi eiga vid, og þad mundi djúpast stydja ad því, ad Ísland yrdi ekki fyrir fullt og fast lagt til Eydana þíngs í Hróarskéldu, ad samin væru kósningarløg, þau er bæru med sér og sýndu stjórninni, ad aldrei yrdi því máli haganlega fyrir komid, medan þad væri ad skilyrdum haft, ad Íslendíngar skyldu eiga þíngsókn ad Hróarskéldu, og senda þángad fulltrúa sína; gæti því málid bedid og leigid milli hluta, þángad til betri tímar bydust, og breytst hefdi hugur og skodunarmáti stjórnarinnar. Og þó høfundinum seigist svo frá, sem þad einkanlega sé ad þakka framgaungu Íslendínga, þeirra er þá voru í

Kaupmannahøfn, og heillaóſk þeirri, er þeir fluttu konúngi vorum, þá er hann var nýkominn til ríkis, ſvo og grein þeirri, er ritud var í „Fødurlandinu" 16 marts 1840, ad konúngur lagdi þann úrſkurd á málid 20 maí 1840, ſem kunnugt er ordid, má vera ad sú ſaga ſé nokkud fljót- lega søgd og einſtreingíngslega". Meiníngar manna hédan frá landi, er ſtjórninni hafa verid ſendar, t. a. m. álit nokkurra embættismanna árid 1836 [6], þar ſem þad var ſagt med berum ordum ad øll þørf væri á, ad fá rádgjafa- þíng hér á landi, bænarſkráin frá 1837, og álitsſkjal nefnd- armanna í Reykjavík 1839; allt þetta mun ſtjórnin ekki ſídur hafa haft fyrir augum, þegar hún lagdi úrſkurd á málid, heldur enn hitt, þó henni birtuſt meiníngar Is- lendínga, er þá áttu dvøl í Kaupmannahøfn.

Þegar høfundurinn ſeigir, ad Reykjavíkur nefndin hafi rádid þad af, ad bidja konúng enn ſem fyrr, ad kjósa ſjálf- ur tvo menn fyrir hønd landsins til þíngs í Hróarskéldu, og ad kanſelíid, ſem ad øllu hafi falliſt á meiníngu nefnd- arinnar, hafi tekid hana ſvo, ad beſt mundi vera, ad allt í þeſsu efni ſtædi vid ſama og verid hefdi, þá er fráſøgn hans bædi ónákvæm og óſønn. Reykjavíkur nefndin bar þad undir álit kanſelíisins, hvort ekki mundi réttaſt, og ſamkvæmaſt þørfum Islands, eins og nú væru mál med vexti, ad konúngur fyrſt um ſinn, eins og ádur, nefndi 1 eda 2 menn, er gagnkunnugir væru Is- landi í øllum greinum, en ættu heimili í Danmørku, til ad mæta fyrir hønd Islendínga á Hróarskéldu þíngi. Eins og høfundurinn líklega einga áreidanlega viſsu hefir

---

6) Þad er án efa prentvilla, ſem høfundurinn ei hefir leidrétt í ritgjørd ſinni, þar ſem (þad í „Collegial-tídindum" 1840 blſ. 617 er ſagt, ad kanſelíid hafi lagt málid fyrir konúnginn þann 4 júní 1 8 3 2, því þar ed øll álitsſkjøl um málefni þetta vart hafa verid komin frá Islandi fyrr enn med hauſtſkipum 1832, er þad líklegaſt, ad kanſelíid ei hafi borid málid undir konúng fyrr enn 4 júní 1833.

haft fyrir sér í því, hvernig kanselíid hefir skilid ord nefndarinnar, svo sýna Kollegial-tídindin 1840, bls. 620 — 621, ad stjórnarrád þetta, samkvæmt ástædum nefndarmanna, hefir álitid þad gagnslaust, ad Íslendíngar kysu menn til ad mæta fyrir sína hønd í Hróarskéldu, og fyrir þá søk mundi þad vera betur rádid, ad láta allt sitja fyrst um sinn vid þad, sem tilsk. frá 15 maí 1834 § 1. segdi. Þegar høfundurinn seigir, ad nefndin hefdi átt ad verja þeim tíma, sem hún brúkadi til þess ad semja kosníngarløgin, til þess ad taka dýpra í verdslunarmálid, er án efa midar til atrida þeirra, er standa í bænarskránni um verdslunina á Íslandi, sem send var hédan frá landi 1838 til fulltrúaþíngs í Hróarskéldu, þá er ad því ad gá, ad hvorki gékk lángur tími til þess, ad búa til kosníngarløgin, og honum var eingan veiginn eydt til ónýtis, því álitsskjal nefndarinnar um ýms atridi vard taleverdt stytt med því, ad menn gátu um þessi atridi, er ad ødrum kosti hefdi þurft ad fara mørgum ordum um, vitnad til þess, er sagt hafdi verid í frumvarpi nefndarinnar til kosníngarlaganna. Ad ødru leiti hafdi nefndin einga orsøk til ad „taka dýpra í verdslunarmálid", eins og høfundurinn ad ordi kémst. Þridja atridid í bænarskránni frá 1838 til þíngmanna í Hróarskéldu, um þad ad Noregsmønnum væri leyft, ad flytja út híngad vid allan og áhøld til húsasmídis, var þegar feingid med opnu bréfi rentukammersins frá 22 marts 1829, og þad jafnvel ríflegar, enn um var bedid, því Noregsmønnum var ekki einungis leyft, ad flytja til Ísland tegldan húsavid og áhøld, heldur einnig ødrum þjódum, án þess ad greida nokkurt flutníngsgjald til Dana. Annad atridid í bænarskránni, er hneig ad því ad kaupmenn, þeir er hér eiga stadfasta verslun, væru til skyldir ad hafa hér ætíd nægar vørubyrgdir, gátu nefndarmenn því sídur gjørt ad umtalsefni, sem flestir, ef ekki allir, gátu ekki fallist á þad. Því fyrst er þad, ad sá vegur er ekki hinn beinasti til

þess, að Ísland sé jafnan byrgt af nauðsynjavøru, að skylda kaupmenn til þess, sem þeim er mikil byrði að, og gagnstædt er réttum verðslunarreglum, heldur er á hinn bóginn meira verðslunarfrelsi, og eiginn hagur kaupmanna sjálfra hið besta meðal til að koma góðu skipulagi á þetta efni. Því næst er, þegar um vørubyrgðir hér er að tala, ekki svo mikið undir því komið, hver kaupmaður á einhverjum tilteknum tíma, t. a. m. á haustin, hefir mestar vørubyrgðir, heldur hinu, hver híngað hefir flutt og selt landsmønnum mesta nauðsynjavøru. Þannig væri það bæði óréttvíst og lángt frá øllum vegi, að þraungva í nokkru þeim kaupmanni, er t. a. m. eitt haust hefði lítinn forða af nauðsynjavøru, en hefði um sumarið á kauptíð selt talsvert af þeirri vøru, og gjørt ársbyrga eina sveit eður fleiri, en þar á móti láta nágrannakaupmanninn lausan við alla ákæru, einúngis vegna þess, að hann hefði meiri nauðsynjavøru að haustnóttum enn hinn, þó hann hefði selt lítið um sumarið, og fáa menn byrgt að vøru, annaðhvort af því, að vara hans hefði verið lakari enn hins, eður menn hefðu átt þar verra að mæta, og fyrir þá skuld flykkst til hins kaupmannsins. Loksins væri það, að minni hyggju, óréttlátt og mønnum að þarflausu settir misjafnir kostir, ef fastakaupmønnum væri einum saman skipað að hafa svo og svo mikla nauðsynjavøru, — því þann veg yrði sú skipun að vera løguð, ef hún ætti nokkurt gildi að hafa —, en lausakaupmenn látnir ráða sér sjálfir; því lausakaupmenn þeir, er flyttu híngað einúngis óþarfavarníng, ættu sannarlega ekki skilið, að þeir væru undanþegnir slíkum kvøðum. Fyrir þá søk var það einúngis fyrsta atriðið í bænarskránni, það nefnilega, að kaupmønnum á Íslandi væri bannað að hafa fleiri enn eina sølubúð í sama kaupstað, sem nefndarmenn gjørðu, — og eg vil, af því sem áður er sagt, bæta við, og áttu að gjøra —, að umtalsefni, og fólu

á hendur stjórnarrádinu, en af því leiddi opid bréf frá 7 apríl 1841, eins og kunnugt er [7].

Í fjórdu grein talar høfundurinn um, af hvada ástædum naudsýn sé á fulltrúaþingi fyrir Ísland sérílagi, og tekur hann til þessar:

1) Reynsla allra þjóda, ad þeim hefir þá vegnad best, þegar þær sjálfar hafa hugsad um stjórn sína.

2) Fjærlægd Íslands frá ødrum løndum, og sá dráttur og seinlæti, sem af henni leidir á øllum þeim málefnum, sem ei verda til lykta leidd í landinu sjálfu.

3) Mismunur á landi voru og þjód, og Danmørku og Dønum, og af því leidi vankunnáttu Dana í stjórnaradferd á Íslandi, og auk þess þad, ad gagn vort virdist sumstadar ad vera beinlínis mótstædilegt þeirra gagni, eins og t. a. m. verdslunin.

4) Ásigkomulag Íslands, einkum stærd þess og mismunur sá, sem af því leidir, bædi á atvinnu manna, útvegum og ýmsum sveitarsid; þá og landstjórnin, sem leingi

---

[7]) Í hinni íslendsku úleggingu þessa opna bréfs er sleppt ordunum: „á sama verdslunarstad („paa samme Handelsplads"), bædi í yfirskrift bréfsins og í þess 1ta artikula. En med því er ekki einúngis afbøkud meining lagabods þessa, heldur mundu einnig afleidingar þess, ef fylgt væri meiningu íslendsku úleggingarinnar, verda øldúngis gagnstædar þeim, sem til var ætlast. Tilgángur opna bréfsins var, ad koma í veg fyrir þann skort á adsókn kaupmanna til verdslunarstadanna, sem nú, medan verdslunin er mjøg takmørkud og bundin, mundi leida af því, ef einn kaupmadur gæti útilokad alla adra fastakaupmenn frá einum verdslunarstad, med því ad leggja undir sig allar sølubúdir, sem þar eru; en ef þad, samkvæmt meiningu íslendsku útleggíngarinnar, væri sérhverjum íslendskum kaupmanni óleyfilegt, ad hafa verdslun vidar enn í einum stad á øllu landinu, þá mundi slíkt bædi orsaka kaupmønnum óþarfan og tilgángslausan óhagnad, og líka mjøg rýra adsókn kaupmanna, til óbætanlegs skada fyrir landsins innbúa.

hefir verid fremur dønsk enn íslendsk, fremur óedlileg enn edlileg.

5) Afsigkomulag Danmerkur, þar sem hún, þegar svo bæri undir, ad Nordurálfumenn ættu í ófridi saman, gæti ekki verndad Ísland, edur séd því fyrir adflutníngum; edur ef stjórnarbreytíng yrdi í Danmørku, ad þá mundi árídandi fyrir Ísland, ad hafa nokkurn stjórnarvísi í landinu sjálfu.

6) Sama álit allra, sem ritad hafa um fulltrúaþíng Dana, ad á Íslandi ætti ad vera rádgjafaþíng sérílagi.

7) Atgjørdir manna og ord á Hróarskélduþíngum, er berlega sýna, ad þíngmenn þar hafa ekki verid því vaxnir, ad dæma ad nokkru lidi um málefni Íslands.

8) Takmark þad, sem í inngángi tilsk. 28 maí 1831 er sagt, ad konúngur hafi haft fyrir augum, þegar hann setti á stofn fulltrúaþíngin, næst ekki, ad því leiti sem Ísland á hlutinn ad, ef þíngid er ekki í landinu sjálfu.

Pad er mjøg fátt, er eg hefi ad athuga vid sjálfar þessar ástædur. Pær eru ad miklu leiti hinar somu, sem ádur hafa komid hédan frá landi í bænarskrám og álitsskjølum til stjórnarrádanna, einkum bænarskránni árid 1837, sem ádur er nefnd, og álitsskjali Reykjavíkurnefndarinnar 1839, og þar munu þessar ástædur finnast, bædi ljósari og betur fyrir komid, enn í ritgjørd høfundarins; er eg þeim því ad svo miklu leiti samþykkur. Aptur á hinn bóginn verd eg ad mæla móti sumu því, sem høfundurinn hefir sagt, til nákvæmari útskýríngar þessum ástædum, svo og móti ástædum hans, er eg ekki veit til, ad adrir hafi komid med á undan honum, sem eg kalla ástæduna e, og ad nokkru ástæduna b og c.

Hin almenna regla, á hverri fyrsta ástædan er byggd, ad hverju landi sé borgid, þegar stjórnin er í høndum landsmanna sjálfra, er í sjálfu sér audskilin, og med vissum skilyrdum er hún stadfest af reynslu manna á øllum øldum. Pessi skilyrdi eru, ad þjódin sé svo vel á veg komin í allri menntun andar og líkama, ad henni sé

fáandi í höndur forráð sjálfrar sín; að landstjórninni sé hagailega fyrir komið; og að hún hafi góðan vilja. En eigi þessi skilyrði sér ekki stað hjá einhverri þjóð, þá má vel vera, að henni komi betur, til þess að geta tekið framförum í hvers konar menntun, að málefni hennar séu um stundar sakir í höndum annarar þjóðar, sem betur er að sér gjör. En ekki get eg alveg á það fallist, sem höfundurinn seigir til sönnunar þessari hinni almennu reglu, í tilliti til Íslands. Hann seigir svofelldum orðum: „það er hægt að sanna, að það var ekki af því, að Ísland væri betra eða hægra aðgaungu enn nú, að forfeður vorir lifðu þar góðu lífi; heldur var það af dugnaði og atorku og þjóðaranda þeim, sem lýsti sér í athöfnum flestra þeirra, meðan allt fór vel fram, að hagur þeirra blómgaðist eigi síður, enn flestra annara þjóða á þeim öldum, og þeir hafa látið sér eptir þau sýnileg merki framkvæmda sinna og kunnáttu, sem vér getum ekki að sinni jafnast við". Eins seigir höfundurinn sé um mannablann: „menn hafa reiknað, að landið hafi þá borið helmíngi fleira fólk enn nú, og það fer að líkindum, þó ekkért sé annað skoðað enn eyðijarða registrið, sem er hræðileg rolla. Þeir fóru landa á milli á skipum sjálfra sín, og höfðu stjórn á útlendum kaupmönnum, sem í landið komu. Yfir höfuð að tala stóðu þeir miklu betur jafnfætis sinni tíð, enn vér vorri; og hverju er það að kénna? Erum vér lakar útbúnir af náttúrunni enn þeir, eða aðrar voldugari þjóðir? Er landið óbyggjandi fremur nú enn þá? Eingan veginn. En það er stjórnarlögunin og stjórnaraðferðin, sem hefir skapað oss, eins og þær skapa hverja þjóð. Þegar Ísland kom undir Noregskonúng, þa stíngur svo í stúf með alla hluti, að valla eru dæmi til, og hefir aldrei til fulls rétt við síðan". Í þessari lýsíngu höfundarins er sumt ofhermt, og sumt sérdrægnislegt, og einkum hefir hann rángt fyrir sér, að eigna það einni orsök, sem að réttu lagi má eigna fleiri orsökum í sameiníngu. Fyrst er það ekki með öllu rétt,

þegar höfundurinn seigir, að landið hafi ekki verið betra á fyrstu öldum eptir landnámstíð, enn það er nú; því auk þess að mikið land, jafnvel heilar sóknir, þar sem margt manna gat leitað sér atvinnu, hefir víða lagst í eydi, bædi af vatnagángi, elds umbrotum og sandfoki, svo hafa og skógar vorir svo gjöreydst, medfram af náttúrunnar völdum, og hefir það mjög stadið velmeigun vorri fyrir þrifum; þá hafa og, jafnvel nú á vorum dögum, jöklar hlaupið fram, og lagst yfir stór afréttarlönd, þar sem géldfé manna gat ádur geingið á sumrum. Því næst er adgætandi, að jafnvel þó höfundurinn hafi rétt að mæla, þar sem hann seigir, að forfedur vorir hafi betur gétað stadið jafnfætis sinni tíð, enn vér vorri, þá kémur það af því, að vér höfum ekki gétað átt samleið með ödrum þjódum, í svo stórkostlegum framförum, sem þær hafa tekið, en eingan veginn af því, að vér skyldum, eins og höfundurinn sýnist halda, yfir höfud að tala standa mikið á baki forfedra vorra í allri menntun og þjódframförum; þar á móti er eg þess fullviss, að vér í þessu tilliti höfum eigi allitla yfirburdi yfir þá. Eg þykist vita, að höfundurinn og þeir, sem gjarnir eru á það, að gylla fyrir sér fornöld vora, muni kalla slíkt sérvitríngsdóm, og því vil eg seigja ástædur mínar í stuttu máli fyrir þessum dómi. Það leiddi af höfdingjavaldi (Aristokratie) því, er komið var af lendsku þeirri, er hér var almenn í landnámstíð, og kalla mátti nokkurs konar patríarcha-stjórn, og öllu fremur af valdi einstakra manna (Oligarchie), er af hinu var risið, að einstöku höfdíngjar íslendskir, á friststjórnar öldunum, bædi innanlands og utan, höfdu meira álit, meiri aud, og meira veldi, og gátu því áorkað meira, enn Íslendíngar á seinni öldum. En af því leidir eingan veginn, að þjódin yfir höfud að tala hafi lifad vid betri kjör, edur í nokkru verið sælli enn nú á dögum. Í fornöld, medan ófridur var hér í landi, og hver skamtadi sér sjálfur réttinn, var einginn með öllu óhultur um líf sitt og eignir, og einkum

voru þad þeir, sem lítid áttu undir sér, er helst máttu sæta afarkostum ríkismanna, ef þeir voru hardir í huga og gjarnir á ójøfnud. Nú meiga menn þar á móti vera óhultir um sig, og løgin ná jafnt yfir alla. Lagareglur þær, er Grágás hefir um ómaga framfæri, gjørdu þad ættíngum ad skyldu, sem fjærstædt er allri sannsýni, ad þeir, til ad veita framfæri vanheilum ættmønnum sínum, hlutu margopt ad verda skuldaþrælar annara og missa frelsi sitt. Þessar hørdu lagareglur hafa hlotid ad hafa ill eptirkost fyrir hinn fátækari hluta landsmanna, og olla miklum ójøfnudi og óreglu[8]. Þessari mikilvægu grein hinnar opinberu stjórnar er nú þar á móti svo vel fyrir komid med løgum og landsvenju, ad hún getur litlum bótum tekid. Þad, sem Grágás ákvedur um gardløg, er menn skuli skyldir ad gjøra, þá til eru kvaddir, og sem reyndar er tekid úr eldri løgum norskum[9], hefir aldrei algjørlega komist á hér í landi, eda menn gétad fylgt þeim lagabodum, sem ad því efni hafa lotid, enda hefdi þess einginn kostur verid, nema því ad eins, ad menn hefdu til þess eydt bædi tíma þeim og krøptum, sem menn máttu ekki missa frá ødrum naudsýnlegri og þarflegri størfum. Þess vegna er lagagrein þessi, þótt hún jafnvel ogsvo finnist í Jónsbók, ordin ad eingu í sambúd manna, án þess nokkrum hafi til hugar komid, ad vilja endurnýa hana, eda láta hana fá lagagildi. En þessar og þaradlútandi lagagreinir, og menjar þær, sem hingad og þángad sjást slíkra gardlaga, eru þad þó, sem þeir eru jafnan ad vitna til, sem aldrei fá oflofad fornøld vora, en nidrad þeirri, sem nú lifum vér á, jafnvel þó slíkar menjar séu í augum þeirra, sem lausir eru vid hleypidóma, einúngis vottur þess kúgunarløgmáls, sem bædi var

---

[8]) Stutt ágrip af Grágásar lagabodum, um fátækra framfæri, er ad lesa í juridisk Tidsskrift, 22. B. p. 347. seqv.

[9]) Samanber Grágásar landsleigu- eda landabrigda-bálks 15. kap. vid Gulaþíngslog Hákonar Adalsteinsfóstra, landsleigubálks 11ta kap., hjá Paus 1. D. p. 98.

þarflaust og ómøgulegt eptir að breyta; að menn eyddu og sóudu til einkis vinnukrøptum sínum, og að menn høfdu ránga hugmynd um það, að hagagirdíngar, edur gardar um beitarland manna, væru eins árídandi, eins og akragirdíngar í kornløndum, edur túngardar á Íslandi. Jafnvel réttargángsmáti sá (Proces-System), er við var hafdur hér í landi á frístjórnartímunum, og sem með øllum rétti á hrós skilið, var þó þannig lagaður, að sumt í honum hefir ordið að tálma framkvæmdum réttlætisins, og ónýta ávextina af þeim hinum viturlegu reglum, er hins vegar voru settar í þessum kafla laganna. Af sérhverri yfirsjón móti þessum reglum, er sækjendum edur verjendum sakar vard á, leiddi eigi einúngis það, að hið besta mál ónýttist til fulls og alls, heldur einnig það, að sá, sem málið eyddist fyrir, vard, enn þótt hann hefdi farið að øllu með hreinskilni (*bona fide*), sekur fjørbaugsmadur, en yrdi honum ødru sinni sú villa, vard hann alsekur skógarmadur. Nú þar á móti eru í løgum vorum settar hinar ágætustu reglur til varnar og sóknar réttindum manna, er í besta máta samsvara þørfum landsmanna, og láta bædi øreigum og einfeldníngum innanhandar að neyta réttar síns. Søgurnar sýna einnig, að mannfellir hefir ordið hér eins opt af sulti á frístjórnaroldinni af einni saman óáran, án þess eldgos edur adrar stórkostlegar biltíngar kæmu til, eins og á hverri annari øld, og sést það ljósast í hinni ágætu ritgjørd Hannesar biskups Finnssonar „um mannfækkun af hallærum á Íslandi", sem fyrst var ritud á íslendsku í „Félagsritunum", 14da bindi, sídan útløgd á dønsku af Haldóri sýslumanni Einarssyni, og lýst í Maanedsskrift for Litteratur", 8de B., af Baldvini Einarssyni. Ritgjørd þessi sýnir, að á frístjórnarøldunum hafi hér á landi ordið manndaudi talsverdur af sulti, eigi sjaldnar enn sex sinnum, nl. á árunum 976, 985, 1056, 1120, 1203—4, og 1227. Og sé það satt, sem einn af hinum seinni rithøfundum segir, eg meina Eggers í Philosophische Schilderung der gegenwärtigen Verfassung von Island, form. bls. 4, „að það

liggi einkanlega í augum uppi, ad hallæri þad, er vard 1783—4, — og þá mátti þó seigja, ad jørdin yrdi banvæn, og fénadur sjúkur af øskufallinu um landid —, og allt þad íllt, er af því leiddi, sé eingaungu af því risid, hve andhælislega allri stjórn sé til hagad í því landi, sem náttúran hafi útbúid svo ríkuglega ad allri matbjørg" —, sé þetta satt, þá er hitt víst, ad manndaudi sá, er í fornøld vard, nærri því hvenær sem illa áradi, ekki bendir til þess, ad landstjórn hér hafi verid svo sérlega vel fyrir komid. Og eg hika ekki vid ad fullyrda, ad eins og nú er komid hjá oss landsløgum og stjórn, þá erum vér ólíkt betur farnir, þótt óáran beri ad høndum, — sé því annars ekki samfara stórkostlegar verkanir náttúrunnar —, heldur enn forfedur vorir voru. Mér sýnist annars, þegar á allt er litid, ad eins og þad lýsir of mikilli hlutdrægni og einþykkju, ad lofa allt, sem í fornøld var, bædi stjórn og verk forfedra vorra, en lasta allt ástand og verk þessara tíma, svo lýsir þad einhverju þrekleysi og andlegum linleika, ad setja sér í øllu fyrir sjónir ástand fornaldarinnar, — sem menn þó aldrei géta gjørt sér ad øllu leiti greinilega hugmynd um —, svo sem þá fyrirmynd, er menn skuli keppast eptir ad ná, og dæmi fedra vorra, svo sem þad einasta, er menn skuli laga sig eptir og ekki leingra komast. Þad eru til adrar hvatir, hreinni og ágætari, og sem ekki þarf ad seilast eins lángt til, sem eiga ad knýja mann til, ad vinna svo mikid gagn, sem unnt er, ættjørdu sinni og þjód, heldur enn þessi eptirøpunarlaungun, enda er hún naumast svo ákøf, nema hjá einstøku mønnum, sem svo eru gjørdir. Svo er þad og réttara, og eblir betur sannar og øblugar framfarir, ad hagnýta sér alla þá kosti, sem løg og sidir þeirra þjóda, sem bædi eru vel menntadar og okkur skyldar, géta bodid oss, og sem annars verdur hér vid komid vegna landslags og háttar, heldur enn ad sækja allt slíkt til fornaldarinnar, og þokast fyrir þá søk lángt burtu frá menntun annara þjóda í Nordurálfunni, sem ekki gét-

ur annad enn verid landinu til mikils skada, og stadid því fyrir øllum framførum.

Enn fremur er það á eingum røkum byggt, þegar sagt er, ad mannfjøldi hafi verid hér helmíngi meiri í fornøld, enn nú á døgum. Menn eru vanir ad byggja þá søgu á þessari ástædu: á ofanverdri elleftu øld lét Gissur biskup Ísleifsson telja bændur á Íslandi, þá er þíngfararkaupi áttu ad gégna, voru þeir, ad því er sumir seigja, 4560, en adrir seigja 3800. Þegar nú skattbændur árid 1753 voru 2100 ad tølu, og búenda tala 6700, en fólkstala árid 1750 á øllu landinu litid yfir 50,000, svo hafa menn eptir því reiknad, ad eptir sama jøfnudi hafi búendur verid á døgum Gissurar biskups annadhvort 14,540, edur þá nálægt 11,500; gjøri menn nú, eins og venja er á Íslandi, 7 manns fyrir hvern búandi mann edur heimili, þá verdur fólksfjøldinn eptir fyrri tølunni 100,000, en eptir hinni sídari hérumbil 80,000. En øll sú undirstada, sem reikníngur þessi er byggdur á, er, eins og M. Stephensen í bók sinni: „Ísland i det 8de Aarhundrede", bls. 267, hefir gétid um, alveg byggd í lausu lopti; því það leiddi af þremur undanfarandi hallærisárum, á hverjum tíundarstofn hafdi stórum mínkad, ad skattbændur voru mjøg fáir árid 1753, í samanburdi vid búenda tølu, svo ad madur nær eingri áreidanlegri vissu med því, ad bera tølu skattbænda þá saman vid tølu þeirra bænda, er á ofanverdri elleftu øld áttu ad gégna þíngfararkaupi; því þá høfdu geingid mørg góð ár á undan, svo velmeigan var í landinu, — og það verdur øldúngis rángt ad álykta þadan, hversu búendur hafi margir verid, og hve mikill allur mannfjøldi; líka verda menn einnig ad gæta þess, ad á elleftu øld voru daudir munir lagdir í tíund, eins og lifandi fé, og vard því tíundarhædin miklu meiri þá, enn nú á tímum, edur árid 1753, þegar daudir munir, annadhvort øldúngis ekki voru tíundadir, ellegar ad minnsta kosti, samkvæmt alþíngissamþykkt frá 1574, eptir þeim mælikvarda, ad 3 hndr. voru látin gilda sem 1 hndr. til tíundar, og

med því fækkadi líka stórum tala skattbænda. Og jafnvel þó eg ekki þori ad taka svo djúpt í árinni, sem Hannes biskup, sem í áminnstri ritgjörd, athugagr. 104, seigir, ad medan daudir munir voru tíundadir eptir fullu verdi, þá hafi sá, sem tíundadi 12 eda 14 hundrud, eigi verid ríkari enn hinn, sem nú tíundar 2 eda 3 hundrud; svo er þó hitt ekkért efamál, ad tala skattbænda á 11tu öld hefir verid í allt ödrum jöfnudi vid búenda: og fólkstölu, heldur enn seinna á öldum edur nú. Og tala búenda á elleftu öld verdur eingan veginn gjörd meiri, enn hérumbil 8000, og fólkstala öll nálægt 60,000.

Þegar höfundurinn ad sídustu seigir á þá leid, ad velmeigan Íslands hafi feingid þad áfall allt í einu, af því þad kom undir Noregskonúng, ad landid hafi aldrei til fulls rétt vid sídan, þá eru þau ord hans, sögd svona rétt ut í bláinn, alteins ástædulítil. Þad er ad sönnu satt, ad Íslandi hefir aldrei hrakad svo mjög, edur verid svo báglega komid, sem á 14du öld; en þad er eingan veginn einúngis af því risid, ad landid var þá fyrir skömmu komid undir útlenda stjórn, heldur hafdi þessi útlenda stjórn í fyrstu verid landinu til góds, því hún frelsadi þad undan ófridi þeim, er allri reglu spillti, og lagdi landid í eydi á 13du öld. Þar á móti fór landinu mest part aptur af mörgum hallærum, af eldgosum og af drepsóttum, er venju fremur geingu yfir þad á 14du öld, og sem glögglega sést af ádurnefndri ritgjörd Hannesar biskups. Ad sönnu má álíta þad sem nokkurs konar breytíngu til hins verra, sem Jónsbók tiltekur um ómaga framfærslu, og sem vera má, ad medfram hafi ollad manndauda þeim, er vard svo opt af sulti og seyru á fjórtándu öld; en á hinn bóginn meiga menn ekki ad eingaungu taka þad fram, edur gjöra of mikid úr því, og líta ekki til hins, ad lögbók þessi vægdi í nokkru til um framfærsluskyldur ættíngja, þar sem hin eldri lög voru hardari og ónáttúrlegri.

Adra ástæduna til þess, ad Íslandi sé naudsýn á fulltrúaþíngi, tekur höfundurinn af fjærlægd Íslands frá

Danmörku, en af fjærlægdinni leidi seinlæti og deyfd í öll-um stjórnarathöfnum, sem breidist út til allra þeirra, er ad opinberum málefnum eigi ad starfa. Fyrir því vill hann láta setja landstjórn í landinu sjálfu, er rédi málum til lykta, nema þeim, sem fara þyrftu til konúngsúrskurdar; þá vill hann og, ad hinir óædri embættismenn rádi enda-lyktum sumra mála, sem nú eru komin undir atgjördum hinna ædri, og seigir svo: „þó ekki sé annad ad gjöra, enn stökkva angljósu hneixli, þá verdur ad skrifast á um þad árunum saman, ádur enn sá þori ad gjöra þad, sem hæg-ast á med þad, og best er trúandi fyrir því". Hann von-ast til, ad alþíngid muni bæta úr þeim brestum og ödrum, en þykir midur farid, ad frumvarp eitt, er Krieger stipt-amtmadur ritadi þessa efnis, hefir ekki sætt athygli stjórn-arinnar.

Þad er nú hvorttveggja, bædi nokkud ofhermt í um-kvörtunum höfundarins um seinlæti í öllum stjórnarathöfn-um íslendskum, og skada þann, sem þar af leidi, svo má og hitt heita ekki nema hálfskodad hjá honum, er hann væntir svo mikils góds af því, ad setja stjórn í landinu sjálfu, og leggja málsúrskurdi á hennar vald, í stad þess ad eiga þá undir stjórnarrádunum ytra. Flýtirinn á mála-lokum er ekki eina atridid, sem er adgætandi, jafnvel ekki hid helsta. Hitt er meir umvardandi, ad málalok séu sem réttlátust, og á sem bestum rökum byggd. Og þá stjórn-arlögun, sem í því tilliti er tryggust, eiga menn ad taka fram yfir hverja adra. Í fámennu landi, þar sem fátt er embættismanna, mundi innlend stjórn, er skéra ætti úr flestum málum, miklu fremur verda gjörn á, ad líta á hid einstaka og fylgja því, heldur enn hin fjærlægu og ædri stjórnarrád, er einúngis líta á hid almenna þjódargagn. Og mér er þad mikid efunarmál, ad margir verdi til hér á landi, ad fallast á mál höfundarins, og æskja stjórnar-lögunar þeirrar, er hann vill hafa, fyrir hina, sem nú er; sá er og grunur minn, ad alþíngismenn vorir muni ei mæla med henni. Frumvarp Kriegers stiptamtmanns, sem höf-

undurinn nefnir, er mér kunnugt, og um þad hefi eg allt af haldid, og held enn, ad erfidt mundi ad koma því á stofn, og yrdi því framgeingt, mundu menn mikils missa, en ekkért vinna. En med því høfundurinn hefir ekki farid fleyrum ordum um frumvarp þetta, ætla eg ekki ad tala fleyra um þad. Ad svo miklu leiti, sem ráda má af ádurnefndum ordum høfundarins, ad hann hafi bendt til þess, er løgin nú ákveda, ad úrskurd hinna ædri embættismanna þarf til þess, ad slíta samvistir karls og konu, þeirra er legordssek eru, þá mundu menn ætla, ad høfundinum þækti vænna um persónulegt frelsi manna enn svo, ad hann ad naudsynjalausu vildi raska þeirri lagagrein; því væri hverjum og einum hinna lægri embættismanna leyft, án þess leita mætti til hinna ædri, ad ráda slíkum málefnum ad fullu og øllu, þá yrdi ekki einúngis adalundirstødu undir frelsi manna hætta búin, heldur einnig frelsinu sjálfu opt og tídum; en gætu menn í slíkum málum skotid atgjørdum lægri embættismanna til hinna ædri, þá mundi nú ekki flýtirinn verda meiri, því þad yrdi þá almennt sidur manna. Annars fæst nú úrskurdur slíkra mála hér í landi svo fljótt, sem þørf gjørist, og þad á sér eingan stad, og er ad øllu leiti ofhermt, þegar høfundurinn seigir, „ad skrifast verdi á um þad árunum saman."

Þegar høfundurinn er ad útlista fjórdu ástæduna fyrir því, ad Íslandi sé naudsýn á fulltrúaþíngi, seigir hann, „ad landstjórnin hafi leingi verid fremur dønsk enn íslendsk, þ. e. fremur ónáttúrleg enn náttúrleg; ad í stjórnarrádunum sitji Danir einir, og allir ókunnugir Íslandi [10]. Þeir hafi leingi stýrt Íslandi eptir vild sinni,

---

[10]) Høfundurinn seigir, ad þau ár, sem Erichsen var í rentukammerinu (1771—1787), hafi meira verid unnid Íslandi i hag enn 100, eda jafnvel 600 ár næst á undan. Einginn Íslendingur getur minnst Erichsens, edur nefnt nafn hans, án innilegrar þakklætistilfinningar, og einginn mun heldur gjøra minna, enn vera ber, úr því, er hann, bædi sem manneskja, vísindamadur og embættis-

og leitast vid ad gjøra þad sem dønskulegast, enda hafi þeim tekist þad eigi illa; sídan løgvitríngar vorir hafi farid ad læra vid háskólann, hafi dønsk løg komist smá-saman inn í landid, og nú sé ordid svo, ad hin dønsku løg séu send híngad jafnhardan, en bleudíngur sá, sem þar af verdi, komi því til leidar, ad þad sé ekki mjøg ýkt, ad sín løg séu í hverri sýslu og hjá hverjum sýslu-manni. En þar af leidi slíka óvissu um, hvad løg og réttur sé í landinu, ad løgvitríngarnir sjálfir séu í vafa um, hvad løg sé edur ekki, og þad í mørgum merkilegum greinum, t. a. m. um hefd. Ad mesti hluti bréfaskrifta um stjórnarmálefni landsins fari fram á dønsku, en þar af leidi þrennt íllt, fyrst, ad alþýda géti ekki fylgt med því, sem fram fer, og verdi med því fráhverf ad hugsa nokkud um slík málefni, en um leid full af tortryggni vid embættismennina; annad, ad þad beini dønskum mønnum veg í landid, og géti þad ordid eitthvert hid øblugasta medal, til ad gjøra oss ad þjódblendíngum, þeg-ar eingin adalstjórn sé í landinu sjálfu; „en svo bætir høfundurinn vid, til þess einginn misskilji hann, ad sér

---

madur vann og kom til leidar fyrir fødurland sitt. En þessi vid-urkénning má ei leida menn til þess, ad verda ósanngjarnir eda virda lítils, þad er adrir hafa áorkad Íslandi til framfara. Þar ed eg þykist vita, ad høfundurinn ei mun meta lítils hinar andlegu framfarir þjódarinnar í samanburdi vid þær líkamlegu, edur þær, sem efnahag hennar snertir, mun hann víssulega ei lítils virda þad, er á døgum Kristjáns konúngs 6ta, sérílagi eptir áeggjan Har-boes og med tilstyrk hans, var gjørt til ad efla upplýsíngu og kristindómsþekkíngu, og sem ad hinu leiti ei er minna verdt, enn þad, sem framkvæmt var medan Erichsen var uppi. Tilskipanir þær, er útkomu medan Kristján 6ti sat ad ríkjum, eru tilgreindar í Péturssons *Hist. eccl. Isl.*, *p.* 2—3. Sú endurbót, er Ís-land hefir feingid á løgum sínum og rétti sídan 1820, er mikil-vægari enn þær réttarbætur, er þad nokkurn tíma ádur í þeim laga-greinum feingid hefir.

þyki ekkért ad, þó dugleigir menn útlendir séu settir til embætta á Íslandi ef þeir kunna málid nokkurn veiginn; og „hid þridja, ad vér missum øldúngis lagamál vort, svo ágætt sem þad var í fornøld". Hann gjørir sér í lund, ad alþíngi muni ráda bót á þessum vankvædum, og fá því til vegar komid, ad løgin verdi øllum skiljanleg; sídan seigir hann nedanmáls: „mér verdur án efa svarad, ad tilskipanir séu lagdar út á íslendsku, en eg svara því, ad þad eru ekki nærri allar, og eingir úrskurdir, sem þó rídur eins mikid á, og réttarbótunum sjálfum, en þaradauki er útleggíngin vída eins myrk og danskan, og er þad ekki til ad lasta verk hinna ágætu manna, sem samid hafa útleggíngarnar, ad þetta er sagt, heldur er þad ad sumu leiti því ad kénna, ad løgin eru í fyrstu samin á dønsku, þ. e. þýdsku og latínu blandadri dønsku, og ad sumu leiti því, ad einginn í kanselíinu skilur íslendska túngu; vilja þeir því (sic) helst þá útleggíngu, sem mest fylgir ordunum".

Því verdur nú ad vísu ekki neitad, ad fyrir þá søk, ad Ísland er skattgildt Danakonúngi, og stjórnarrád hans eiga øll hin ædstu forrád mála vorra, gétur þjóderni vort ekki ordid svo frábrugdid Dønum, og ella mundi; en svo fer því fjærri, ad þad sé til fyrirstødu og tálma þjódlífi voru og framførum, ad þad miklu fremur eykur þau stórum. Med því móti gétur Ísland ekki einúngis notid góds af vitsmunum og kunnáttu þeirra manna, er Danmørku stýra, heldur á þad og hægra med ad hagnýta sér og komast vel nidur í því, sem hér á vel vid í løggjøf og tilskipunum Dana. Því meiga þad heita miklar framfarir til hins betra, ad løg Dana um réttargáng og misgjørnínga (Proces- og Criminal-Lovgivning) hafa verid flutt út híngad, og løgud ad landsþørfum, og svo er um fleiri løg þeirra, sem nú er hér fylgt, t. a. m. um erfdir, um víxlunarbréf (Vexelbreve), o. a. fl., svo og um hinar ágætu sáttanefndir, sem einnig eru løgleiddar á Íslandi. Því er ei gott ad sjá, hvada

ástædu höfundurinn hefir til umkvörtunar í þessu efni. Ekki getur það heldur ordid til annars, enn ábata fyrir Ísland, ad þeir menn, sem sídan eiga ad gégna þar embættum, stunda bókmenntir í Kaupmannahafnar háskóla. Því meiri þekkíngu og gløggari, sem menn ná, því sídur er hætt vid, ad mønnum skjátli í hvers kyns størfum sínum. Eda hvad er það, sem høfundurinn vill láta koma í stad þessarar menntunar? Ekki þó líklega hina fánýtu nasasjón vísindanna, og þann ófimleika í embættis-athøfnum manna, sem vant er ad verda hvort ødru samferda, og sem víslega hefir ad undanførnu rádid hér mestu, en nú hefir á seinni tímum flúid landid fyrir frjálslegri menntun og betra hugarfari. Það leidir ad sønnu af stærd Íslands, og þeim hinum litlu samgaungum millum héradanna, sem opt eru hvort ødru næsta ólík ad atvinnuvegum og ásigkomulagi, ad ýmsar eru løgvenjur í ýmsum hérødum; en ættu menn ad kollvarpa því øllu, og jafna yfir allar þær ójøfnur, sem myndast hafa og til eru ordnar á ýmsan hátt eptir ýmsum þørfum manna, mundi það bædi trubla félag manna, og valla mundi heldur høfundurinn fallast á það. En það er fjarskalega ofhermt, er hann seigir, ad sín sén løg í sýslu hverri. Hitt er ad sønnu satt, ad auk óvissu þeirrar, sem jafnan er samfara allri lagasetníngu og allri lagaframkvæmd, þá er á Íslandi eins konar lagaóvissa fyrir sig, sem bædi er af því risin, ad tvenn hafa verid hér løg í landi, bædi hin fornu løg íslendsku, og hin dønsku og norsku, edur løgbækur Kristjáns 5ta, og líka af því, ad á fyrri døgum voru réttarbætur Danakonúnga fluttar út híngad og birtar hér, án þess ad því væri gætt, hvort þær ættu hér vid eda ekki. En eins og stjórnin hefir látid sér annt um ad eyda ástædu þeirri, sem fyrr var til lagaóvissu á Íslandi, svo á hin sídari ástædan sér eingan stad, sídan konúngur lagdi á úrskurdinn 6ta júní 1821, og med því móti hafa menn feingid vissa og áreidanlega adferd til þess, ad lagasetníng hér géti tekid jøfnum framførum, og jafnan

sé til þess litid, í hverju land þetta er frábrugdid Danmørku. Ad stjórnin edur stjórnarrádid hafi nokkra sérlega laungun til ad gjora Ísland sem dønskulegast, er á eingum ástædum byggt. Hver, sem les med nokkru athygli ástædur réttarbóta þeirra, er nú um stund hafa verid samdar fyrir Ísland, mun alstadar sjá, ad þess er vandlega gætt, ad verda ekki of nærgaungull þjóderni voru. Ad nokkud af bréfaskriftum embættismanna vorra, einkum amtmanna og sýslumanna, fer fram á dønsku, á ad sønnu ekki sem best vid; en þad er eingan veginn ad kénna stjórninni eda stjórnarrádunum. Eg veit ekki til, ad sá vani hafi komist á, af því stjórnin hafi nokkru sinni þann veg skipad, heldur hafa íslendskir embættismenn tekid hann upp hjá sjálfum sér fyrir mørgum árum. Ad ødru leiti er flest þad á veikum fæti byggt, sem høfundurinn seigir um hid illa, sem eigi ad leida af þessum vana. Þar ed allt þad, sem embættismennirnir rita um sín í milli, og sem nokkud vardar alþýdu manna, er kunngjørt henni á íslendsku, þá géta dønsku bréfin ekki ollad því, ad alþýdan verdi „fráhverf ad hugsa nokkud um slík málefni", edur „um leid full af tortryggni vid embættismennina", enda verda menn þess ekki varir hér í landi, nema því ad eins, ad embættismenn hafi til hennar unnid med breytni sinni; þar ed enn fremur allar sakir, bædi fyrir héradsdómum og yfirdómi landsins, eru fluttar á íslendska túngu, þá er ei hægt ad sjá, hvernig vani þessi, (ad embættismenn ritast á um landstjórnarmálefni á dønsku), sem høfundurinn lastar, gétur svipt oss lagamáli voru hinu forna, sem einkanlega var audugt af ordum í réttargángs- eda dóms-sokum, og mætti því enn vid hafa í øllum málaflutníngi, þar sem hugmyndir manna um løgin og tilskipanir (Retsbegreber og Retsinstitutioner) enn eru hinar sømu, og hin gømlu ord ekki annadhvort ordin óskiljanleg edur úrelt; edur hvernig sá vani gétur „beint dønskum mønnum veg í landid", nema máské amtmønnum, þar ed hinir adrir embættismenn verda ad rita øll hin

helstu málefni, eins og ádur er sagt, á íslendsku túngu. Ad ødru leiti er eg sampykkur høfundinum í því, ad Danir væru reyndir, hversu þeir væru færir í íslendsku, ádur þeim væri veitt embætti hér á landi, því þad getur ollad stórkostlegri villu, ad þeir embættismenn kunni ekki mál vort, sem eiga um áríðandi málefni ad semja vid alþýduna, sem ekki kann dønsku[11]. En ekki mundi sídur enn þad, sem høfundurinn tiltekur, sá annarki leida af því, sem nú er lendska, ad íslendskan missir margan gódan mann, sem ordid gæti henni ad lidi, og aukid framfarir hennar, medan þeir embættismenn, sem best eru menntadir, rita mørg embættisskjøl sín á dønsku[12]. Þó er aptur á hinn bóginn adgætandi, ad þessum mønnum verdur sýnt um ad rita dønsku, sem í mørgu tilliti er nytsamlegt, og sannast þá einnig hér hid fornkvedna: *nihil est ab omni parte beatum.*

Athugagrein høfundarins, sem ádur er nefnd, um útleggíngu á réttabótum þeim, sem Íslandi eru ætladar, er í ýmsu merkileg. Hún sýnir gløggt, hvernig menn

---

[11]) Eptir þad ad þetta var ritad, er þessum óhagnadi létt med kóngsbréfi af 8da april 1844.

[12]) Einstøku menn kynnu, ef til vill, ad færa þad til hér á móti, ad gamla íslendskan hafi verid svo fullkomin og ágæt, ad hún ei géti framførum tekid, og þad sé ei nema til ad lýta hana og skémma, ad víkja nokkud frá því, sem fyrir kémur í søgunum, hinum gømlu løgum, og ødrum íslendskum fornaldarritum, og vid því eigi menn ad sporna af alefli. En einu lifandi máli verdur ei þannig steypt í fast og óbreytanlegt form; því ef allt frumefni til andlegra framfara hjá einni þjód ekki er øldúngis dautt, þá hlýtur túnga sú, er slík þjód talar, ad taka þeim framførum, sem ad því skapi eru. Annad mál er þad, ad málid á ad lagast og þróast svo ad seigja af sinni eigin rót, og samkvæmt sinu náttúrlega edli, en ekki taka upp framandi ord eda ordatiltæki, þar sem hjá því verdur komist. Ad hvad miklu leiti þetta seinastalda verdi umflúid, er spurning sú, er hverri seinni tíma málfrædingar eiga ad leysa.

rita stundum, rétt eptir því, sem þeim er vel edur illa í þokka til mannsins, án þess ad meta sannleikann eins og vera á. Þegar høfundurinn seigir, ad íslendska „útlegg- ingin sé vída eins myrk og danskan", þá er þad ekki nema hálfsatt, og verdur þann veg ad réttast, ad þad sé einúngis med tilliti til alþýdunnar, sem ekki skilur dønsku. Hid sanna og rétta er þetta: ad danska málid á réttar- bótum þessum er optast ljóst og fullvel skiljanlegt þeim, er dønsku skilja; en íslendska útleggíngin, auk þess sem hún sumstadar er raung, yfir høfud ad tala, óvidfeldin og óskiljanleg Íslendíngum sjálfum, svo þeir, sem løgin vilja skilja, verda optast ad flýa til dønskunnar, ef þeir á annad bord kunna hana. Ástædum þeim, sem høfundur- inn hefir komid med, til afsøkunar þessari „myrku útlegg- íngu", er þannig varid, ad furdu gégnir, ad honum skuli hafa komid þær til hugar. Þó þad væri nú satt, ad réttarbæturnar væru, eins og høfundurinn seigir, „samdar á þýsku- og latínublandadri dønsku", þá leiddi eingan veginn þar af, ad útleggíngin yrdi ad vera óíslendskuleg, hálfbjøgud og þúngskilin. Miklu fremur mundi þad, (ef á annad bord væri møgulegt ad komast ad efninu í dønsku réttarbótunum, en því mun høfundurinn ekki neita), vera hægur vandi, hverjum þeim sem fær væri í ís- lendsku, ad koma þeim á laglegt og ljóst mál. Ad slíkt meigi takast, hafa landar vorir í Kaupmannahøfn sýnt á útleggíngu þeirri, er þeir hafa samid af frumvarpi því um skipun alþíngis á Íslandi, sem borid var undir full- trúa á Hróarskéldu þíngi. Utleggíng þessi er prentud í „Fréttum frá fulltrúaþíngi í Hróarskéldu 1842", og er vel frá henni geingid, ordfærid vandad og lipurt, og meiníngu frumritsins þó svo nákvæmlega fylgt, sem þørf gjørist [13].

---

[13]) Til dæmis uppá, hvad hyrdulauslega hinar dønsku tilskipanir fyrir Ísland eru útlagdar, vil eg taka alþíngistilskipunina af 8da marts 1843 § 5., seinasta *membrum*, hvar ordid: „Valgrettighed" er útlagt „kjørgeingni" (á ad vera: kjørgeingi), hvarmed mein-

Verid gétur, ad kanselíid hafi áskilid vid útleggjandann, ad útleggíngin væri svo nákvæm, og þræddi svo nálægt ordunum, sem kostur væri á, og hafi leidst til þess af því, hvernig útleggíngum réttarbóta var háttad hér fyrrum; en þad nær eingri átt, ad halda, ad þad hafi verid vilji þessa stjórnarráds, ad svo skyldi semja útleggínguna, ad ekkért væri hirdt um málid á henni. Og er þad því ástædulaust, ad færa slíkt til afsökunar. Þad má gánga ad því vísu, ad stjórnarrád þetta fylgir í þessu gømlu reglunni: *Cæsar non supra grammaticos*. Loksins verd eg. af því sem nú var sagt, ad géta þess, ad fyrir laungu sídan mundu embættismenn hér á landi hafa kvartad opinberlega yfir þessum útleggíngum, hefdi ekki bædi aptrad því virdíng fyrir þeim hinum ágæta vísindamanni, sem svo stórum hefir eblt fornfrædi nordurlandanna, (en sem þessar útleggíngar hefir samid), og von sú, ad alþíngid mundi bæta úr þessu; mér hefir þess vegna verid þad mjøg ógédfeldt, ad minnast á þetta atridi, en þar ed høfundurinn hefir leyst sér, eins og ádur er ávikid, ad skýra ránglega frá því, þá hefir virdíng fyrir sannleikanum, og tilgángur þessara athugasemda, krafist þess, ad frásøgn hans væri nógsamlega hrundid, — *amicus Plato, sed magis amica veritas*.

Þó þad kynni fleira ad vera, sem seigja mætti um útskýríngu høfundarins yfir hinar ástædur hans fyrir naudsýn alþíngis, ætla eg samt ad leida þad hjá mér, því eg er ad mestu leiti samþykkur honum um þad efni.

Í fimmtu grein ritgjørdar sinnar setur høfundurinn sér þá spurníngu, „hvort Ísland eigi ad hafa fulltrúaþíng nú sem stendur", og „hvort hætta eigi embættis-

---

ingin á þessum lagastad er øldúngis afbøkud og rángfærd. Frumritinu mun þó varla verda kénnt um þessa raungu útleggíngu. Útleggíngin í „Fréttunum" frá Hróarskéldu brúkar hér hid rétta ord: „kosníngarrétt."

mannanefndinni", og játar hann því hvorutveggja. Um þessa grein ætla eg sem fæst ad tala, því eg er þar á sama máli sem hann; en gét þess einúngis, ad þegar semja á einhver mjög árídandi lagafrumvörp fyrir Ísland, t. a. m. landbúnadarmálid og skattamálid, mundi öll naudsýn á, ad þau væru lögd undir álit íslendskra embættismanna, er skipad væri í nefnd, heldur fleirum enn færri, ádur stjórnin skodadi slík frumvörp, og leggdi þau undir atgjördir alþíngismanna; því hver hygginn madur mun sjá, ad alþíngid á ekki hægt med ad semja slík lagafrumvörp, edur ræda þau til hlítar, ef þau eru ei nógsamlega undir þad búin.

Ekki ætla eg heldur ad fara mörgum ordum um sjöttu grein ritgjördarinnar, þar sem höfundurinn talar um ætlunarverk alþíngis, og leitast vid, ad koma löndum sínum á rétta hugmynd um fulltrúaþíng. Eg vil ad eins géta þess, ad álit þad, sem alþíngi voru audnast ad ná, verdur ekki einúngis komid undir samheldni og eníngu í störfum þíngmanna, edur stillíngu þeirri og viturleik, er þeir sýna, heldur einkum undir því, ad þeir hafi óbifanlegt traust á gódum vilja stjórnarinnar, og hlýdi ekki þeirri rödd, sem vill veikja edur prédika móti þessu trausti; því hvenær sem þad er minkad edur farid, þá mun alþíngid litlu gódu fá til leidar komid úr því.

Sjöunda og sídasta greinin talar um „ýmislegt vidvíkjandi kosníngum og þíngsköpum". Höfundurinn vill, ad „öllum sé leyft ad kjósa, sem myndugir eru (25 ára), og búfastir á landinu, ef þeir hafa ekki lidid niett mannordstjón fyrir laganna dómi". „En þætti mönnum þad of mikid frelsi", heldur hann, „ad ekki ætti ad binda kosníngarréttinn meira, enn til 10 hundrada tíundar", og ætlast hann líklega til, ad þad sé lausafjártíund. Ad eg géti á hvorugt þetta fallist, er audséd af því, sem eg hefi sagt hér ad framan, þegar eg taladi um ritgjördina Nr. 1; og líka má sjá þad af því, sem eg hefi ádur sagt, og kunnugt er, um þad efni, og skal eg

færa fleiri ástædur til þrís selnna. Af því höfundurinn talar svo á reyki, og svo lauslega um kjörkostina, er ei hægt ad sjá, hvort hann vill hafa kjörgeingi öldúngls ó- bundna vid fjáreign, edur bundna vid sama sem kosníngar- réttinn. Ad ödru leiti heldur hann, ad kostir þeir, sem hver alþíngismadur á ad hafa, séu sjaldan samfara mikilli örbyrgd. Hann vill, ad fulltrúar verdi 30 eda 32 ad tölu, og í því tilliti gét eg þess, ad fyrir þá skuld, ad hann hefir fylgt hinum fornu fjórdúngaskiptum á landinu, sem nú eiga ekki vid, í stad þess ad gæta hins, ad landinu er nú skipt í 3 ömt, hefir gódur jöfnudur ekki alstadar ordid á í uppástúngu hans. Ad sídustu talar hann um þad, ad alþíngid verdi haldid í Reykjavík, og ad þíngsalurinn verdi látinn öllum opinn, og færir hann margar gildar og gódar ástædur fyrir því, ad sá þíng- stadur sé beztur.

Ad lyktum vil eg géta þess, ad eg hefi farid svo mörgum ordum um ritgjörd þessa fyrir þá skuld, ad eg ímyndadi mér, ad hlutdrægni sú, sem komid hefir höfund- inum til ad lofa fornöldina og ástand hennar og skipulag, en nidra verkum þessara tíma og atgjördum stjórnarinnar, mundi, ef til vildi, leida þá, sem ekki hefdu nóga þekkíngu eda vitsmuni til ad prófa söguspögu hans, til þess ad gjörast óánægdir med þad, sem nú er, og kveikja hjá þeim vantraust á stjórninni, vití hennar og vilja, sem aldrei hefir ádur átt sér stad hér í landi, en nædi slíkt ad festa rætur hjá mönnum, mundi þad trubla sam- tök stjórnarinnar og þjódarinnar, þau er mida til eblíng- ar þjódargagni voru.

Ritgjördinni Nr. 3 er skipt í 2 greinir, og seigir í hinni fyrri frá ýmsu, er lýtur ad því, ad sýna mönnum, hver sé naudsýn og nytsemi alþíngis, hvetja menn til ad færa sér þad sem best í nyt, bædi med því ad und- irbúa sjálfan sig, og kjósa þá til alþíngismanna, sem færastir eru til þess; rædur því höfundurinn til, ad menn ættu hreppafundi edur sókna „einu sinni edur tvísvar í

mánudi", „til ad tala sig saman um þau málefni, sem þeim þætti mestu varda", og semja bænarskrár; skyldi þadan senda fulltrúa á sýslufundi, er haldast ættu 2 eda 4 sinnum á ári. Önnur grein ritgjördarinnar er mestmegnis ritud móti ritgjördinni Nr. 1, er þad sýnt med skýrum og ljósum rökum, hverjir séu annmarkar á ad halda alþíng á Þíngvelli, og laga þad í öllu eptir alþíngi hinu forna.

Þar ed þad er hvorki svo umvardandi fyrir lesendur, né heldur svo audgjört, ad gjöra stutt og gagnordt ágrip af ritgjörd þessari, sem í fyrri greininni er nokkud reykul í máli, og ekki sjaldan haggad réttri nidurskipun efnisins [14]; og þar ed athugasemdir þær, er eg hefdi kunnad ad gjöra vid sum ord og atridi höfundarins, nú ekki leingur eru svo umvardandi, þá vil eg einúngis géta þess, ad jafnvel þó mannfundir þeir, er hann minnist á, gætu máské ordid til gagns, edur menn kynnu stöku sinnum, ef eitthvad sérlegt væri í rádi, ad sækja þá, sé eg þó ekki betur, enn slíkir fundir væru tilgángslausir, tefdu menn frá ödrum nytsamlegum störfum, og þar ad auki margsinnis ómögulegt á vetrum ad halda þá, eins opt og höfundurinn vill.

---

14) Þessu til sönnunar er byrjan ritgjördarinnar. Höfundurinn upptelur hér þær orsakir, er hann heldur séu því til hyndrunar, ad alþýda hafi þær mætur á stiptun alþingis, sem vera ber, þessar nl., 1) ad þingid, eptir sumra meiníngu, verdi almúganum til þýngsla. 2) Ad þingid verdi ad eingu gagni, sé þad ei á Þíngvöllum. 3) Ad þingid komi almúganum ekkért vid, þar ed embættismennirnir hvort sem er rádi öllu. 4) Ad sá rétti timi til ad skipta sér af þinginu sé enn þá ekki kominn. 5) Og ad þad sé enn þá allur dagur til stefnu. Hér er nú ekki audveldt ad sjá, hver deilíngargrundvöllurinn er (*fundamentum divisionis*) millum Nr. 4 og 5; því sá sem meinar, ad hinn rétti timi til ad gjöra einhvern hlut ekki enn þá sé kominn, meinar sjálfsagt líka, ad allur dagur sé til stefnu.

Hinn ónefndi höfundur 4du ritgjördarinnar lætur fjúka mörg stóryrdi yfir Reykjavíkurnefndina, og telur hardlega á hana fyrir yfirsjónir þær, er henni hafi ordid, þá er hún samdi frumvarp alþíngislaganna; hefir hann og sagt álit sitt um þau atridi, er honum þykir sem breyta þurfi, en þad eru kosníngar, fulltrúafjöldi, málid, sem menn skulu ræda á, og hvort alþíngisdyr séu opnar edur eigi. Höfundurinn minnist og á þíngstadinn; en þar ed hann í því atridi er samdóma meiri hluta nefndarmanna, (— er og lagafrumvarp þad, er borid var upp á Hróarskélduþíngi um þetta atridi, samkvæmt því, er sá hluti nefndarinnar hafdi rádid til —), hefir hann ekki haft þar ödru vid ad bæta, enn láta í ljósi innilega virdíngu sína og ást á hinum forna alþíngisstad vid Öxará.

Höfundurinn byrjar á því, ad seigja Dönum frá, ad þetta mikilvæga málefni hafi komid fótum undir nokkrar ritgjördir íslendskar, sem einkaulega hafi hnígid ad því, ad vekja áhuga manna á þessari þjódstiptun, sýna naudsýn hennar og nytsemi, en undir eins hafi þar verid minnst á hin helstu höfudatridi, t. a. m. ad nefndin íslendska ætti ad hafa fyrir sjónum ástand og þarfir Íslands, en ekki ástand og lög Danmerkur; ad kosníngarlög yrdu rýmkud svo mikid, sem unnt væri; ad alþíngismenn yrdu ei færri enn 30 — 32; ad einúngis yrdi töluð íslendska á alþíngi; ad hver, sem vildi, mætti hlýda á vidrædur alþíngismanna; og ad störf þeirra yrdu sem fyrst birt allri alþýdu. Því næst heldur höfundurinn harda rædu yfir Reykjavíkurnefndinni, fyrir þad hún hafi ekki fylgt bendíngum þeim, er gefnar voru í áminnstum ritgjördum, og seigir medal annars, ad hver madur, sem hafi gefid gaum ad störfum nefndarinnar um þetta málefni, hafi furdad sig stórum á, ad nefnd hinna íslendsku embættismanna hafi í frumvarpi sínu til alþíngislaganna öldúngis ekkért skeytt um bendíngar þær, er ádur eru nefndar, jafnvel þó hún

játi, ad hún taki gjøf konúngs med þøkkum; — hún tekur med þøkkum gjøf konúngs, en reynir sjálf, ad banna sér og fósturjørdu sinni leid þá, sem liggur til þess, ad hagnýta hana, og hafa nokkur not af gódum ávøxtum hennar. Í stad þess, ad hugsa upp og semja ný frjalsmannleg alþíngisløg handa Íslandi, kýs nefndin heldur hitt, ad skrifa upp hin dønsku þíngskapaløg frá 1834, og víkja þeim lítid eitt vid eptir Íslands þørfum; í stad þess, ad gánga samsídis brædrum vorum í Danmørku og á Holsetalandi, frjáls og fjørug, med djørfúngu og hugrekki, kýs hún heldur ad gánga „bogin og bjøgud" á eptir þeim; og þad ekki fyrir sakir vankunnáttu og þekkíngarleysis, heldur fyrir sakir hins alkunna þorleysis embættismanna, og þrældómsótta fyrir því, sem þeir ætla, ad sé vilji stjórnarrádanna[15].

Þær hinar 2 íslendsku ritgjørdir, er høfundurinn meinar, eru án efa þær, sem hér eru ádur nefndar Nr. 2 og 3. Af því, sem þar er sagt um þær, mun þad audséd, eins og líka høfundurinn seigir sjálfur, ad þær eru ad mestu leiti ekki annad enn almennar málsgreinir, sem mida bædi til ad vekja hjá mønnum ást á alþíngi, og líka til þess, ad gjøra mønnum skiljanlegt, naudsýn þess og nytsemi. Þessum almennu greinum er þannig varid, ad þó þær væru allar réttar, og þess verdar, ad menn félluist á þær, gátu þær samt ekki gefid Reykjavíkurnefndinni nokkra bendíngu, edur efni í lagafrumvarp þad, er henni var falid á hendur ad semja. Ad svo miklu leiti, sem hin „helstu høfudatridi", er høfundurinn svo kallar, eru nefnd í þessum ritgjørdum, þá eru uppástúngur þær, er þar ad lúta hjá honum, svo reykular og óákvardadar, ad nefndin gat ekki haft tillit til þeirra. Þar sem hann talar um kosníngarréttinn, er hann í óvissu um, eins og ádur er sagt, hvort sleppa eigi øllum eignakjørkostum (reelle Qvalifica-

---

[15]) Eg vil geta þess hér, ad eg, en ekki høfundurinn, hefi látid audkénna þessi ord.

tioner), ellegar binda kosníngarrétt vid 10 hundrada lausafjártínnd. Og þar sem hann talar um kjørgeingi, er ekki hægt ad seigja, hvort hann vill ad hún sé øldúngis óbundin, edur bundin vid sømu kosti sem kosníngarrétturinn. Ad nefndin hafi ekki gétad géfid mikinn gaum ad slíku frumvarpi sem þessu, er sleppa vildi øllum eignakjørkostum, þarf líklega ekki ad afsaka. Það er ad taka sig of geyst, og vilja kollvarpa øllu, ad flytja slíkar kénníngar, og kæmist slíkt á stofn, mundi það ekki einúngis vera frábrugdid því, sem tídkast alstadar í Nordurálfunni, þar sem fulltrúaþíng eru, heldur mundi það leida til stjórnleysis. En um hitt mun seinna verda talad í ritlíngi þessum, hvers vegna nefndin ekki gat fallist á hitt í frumvarpinu, ad 10 hndr. lausafjártínnd yrdi gjørd ad kosníngarskilmála. Í tilliti til þess, hve margir fulltrúar séu, hefir høfundurinn stúngid uppá, ad úr Nordurmúlasýslu yrdu 2, úr Sydri Múlasýslu 2, úr Skaptafellssýslu 2—3, úr Rángárvallasýslu 2, úr Vestmanneyum 1, úr Árnessýslu 2, úr Gullbríngu- og Kjósar-sýslum med Reykjavík 2—3, úr Borgarfjardarsýslu 1, úr Mýrasýslu 1, úr Snæfellssýslu 1, úr Dalasýslu 1, úr Bardastrandarsýslu 2, úr Ísafjardarsýslu 2, úr Strandasýslu 1, úr Húnavatnssýslu 2, úr Skagafjardarsýslu 2, úr Eyafjardarsýslu 2, og úr Þíngeyarsýslu 2. En þessi fulltrúatala, sem á eingum føstum grundvelli er byggd, gat nefndinni ekki þótt eiga vel vid, edur á hana fallist. Þar ed høfundurinn hefir, eins og ádur er sagt, gjørt ráð fyrir ad landinu væri skipt í fjórdúnga, eins og fyrrum, en ekki í ømt, eins og nú, hefir hann til þess, ad jafnmargir yrdu fulltrúar úr fjórdúngi hverjum, látid annadhvort 2 eda 3 verda úr Skaptafellssýslu, en það er meira enn úr ødrum sýslum, sem þó eru lángtum fólksfleyri, og er þá eingin ástæda til hins. Eins er því varid, þegar hann lætur ekki nema 1 fulltrúa verda úr Mýrasýslu, og 1 úr Snæfellssýslu, af því fleiri eru sýslur í Vestfirdíngafjórdúngi enn hinum; en þar á móti úr ødrum sýslum, sem annadhvort eru fólksfærri eda ekki fólksfleiri (enn hinar 2 sýslurnar)

alstadar 2 fulltrúa. Eg hefi ádur (sjá Fjóra Pætti bls. 6) minnst á hid annad rád, sem takandi væri um fulltrúa-fjøldann, auk þess sem nefndin stakk upp á, og sem hvorki hefdi átt illa vid, né verid óvinnandi verk. Vidvíkjandi því, hvada túnga skyldi tølud á alþíngi, hefir høfundurinn einga uppástúngu komid med í áminnstum ritgjørdum, en á hitt hefir hann minnst, ad þingstofan yrdi øllum opin.

Af því, sem nú hefir verid sagt um frumvørp høf-undarins í ritgjørdum þeim, er nefndar eru, er þad ljóst, ad ekki verdur med nægum ástædum fundid ad því vid nefnd-ina, þótt hún féllist eigi á frumvørpin. Ad høfundurinn, sem samid hefir ritgjørdina í Kaupmannahafnarpóstinum, hefir furdad sig á því, verdur því ad koma annadhvort af því, ad hann vantar athygli og eptirtekt, edur honum þykir um ekkért eins vænt, eins og þad sem honum hugsast sjálf-um, (hafi høfundur þessarar ritgjørdar einnig samid hinar tvær, eins og almennt er sagt), eda loksins af því, ad hon-um er sérlega lagid ad furda sig á því, sem fyrir hann ber; því þó hann seigi, ad hvern mann hafi furdad á at-gjørdum nefndarinnar, sem tekid hafi eptir størfum hennar í þessu málefni, þá er þad talad rétt út í bláinn, án þess nokkur ástæda sé færd til. Høfundurinn hefir einga átillu til ad setja sig, og þá fáu menn, sem honum fylgja, í stad allrar þjódarinnar. Eg þekki ad minnsta kosti marga menn, jafnvel mjøg marga, sem eru svo fjærri því, ad furda sig nokkud á nefndinni, ad þeim þvert á móti þykir þad hafa farid eins og vera átti, ad nefndin fylgdi ekki frumvarpi høfundarins. Af því, sem nú er sagt, gétur enn fremur séstˏ hvada þýdíngu þad hefir, þegar høfundurinn seigir, ad nefndin reyni sjálf, ad banna sér og fósturjørdu sinni leid þá, sem liggi til ad hagnýta sér þá hina gódu ávexti alþingisins. Eg vil einúngis géta þess, ad eg ætla mér ekki ad binda mig svo fast vid merkíngu þessara orda: „ad reyna til"; því jafnvel þó høfundinn skorti ekki ástædulausar og hardar ákærur vid þá, sem ekki eru á hans máli, held eg þó ekki, ad hann hafi ætlad sér med

ordum þeim, er hann velur nefndinni, ad eigna henni einlægan og stadrádiun illvilja edur áform, ad reyna til, edur leitast vid, ad ónýta med frumvarpi sínu alla góda ávexti af alþingi, jafnvel þó ordin: ad reyna til, sem ætid géfa til kynna sjálfráda stefnu viljans, einkanlega hafi í sér fólgna þessa merkingu; heldur er þad ætlan mín, ad þegar høfundurinn var í brædi sinni ad nidra frumvarpi nefndarinnar, þá hafi hann ekki hugsad vel um, hvada ord hann skyldi velja henni, en einúngis haft þad í huga, hvada afleidíngar frumvarpid, eptir hans áliti, yrdi ad hafa. Þetta verda menn því heldur ad ætla, sem høfundurinn litlu sídar eignar þessa raungu adferd nefndarinnar, sem hann svo kallar, annari hvøt lítid betri, þó ekki eins illmannlegri, nl. þrældómsótta hennar fyrir því, sem hún hélt vera vilja stjórnarrádanna.

Þar sem høfundurinn hefir borid nefndinni á brýn, ad hún, í stad þess ad semja nýa alþíngistilskipun handa Íslandi, hafi kosid hitt, ad skrifa upp dønsku tilskipunina frá 1834, med breytíngum þeim, er vid ættu á Íslandi, þá sýnir þetta ordatiltæki, og þad, ad hann setur spurníngarmerki vid þessi ord: „ættu vid", („passende" er þad í frumritinu danska), hversu vænt honum þykir um ad setja allt, hvad hann gétur til tínt, til þess ad nidra nefndinni. En þessi ákæra høfundarins sýnir þó, hversu dádlitil þessi laungun hans hefir verid, hversu hann hefir vantad bædi vit og athygli, og hversu hann ætlar lesendur grunnhyggna og gálausa, ad slíkt skuli géta blindad sjónir fyrir þeim. Þó nefndin hefdi stúngid uppá, ad kjósa 30 eda 32, eda jafnvel 42, í stad 10 alþíngismanna; þó hún hefdi gjort 20 hndr. í lausum aurum ad kjørkostum, í stad 10 hndr. í løndum, (því ekki kom mønnum til hugar, ad sleppa øllum eignakjørkostum), og þó hún hefdi stúngid uppá því, ad alþing yrdi haldid ad opnum dyrum, þá hefdi ekki þurft nema stínga nidur penna til þess, ad gjøra þær breyríngar ad skapi høfundarins, og samt sem ádur mundi hver sá, sem lángad hefdi eins til og høfundinn, ad seigja nefnd-

inni eitthvad til vansæmdar, hafa haft jafn gildar ástædur sem hann, til ad seigja, ad nefndin hefdi skrifad upp til- skipunina um dönsku fulltrúaþíngin. Þvi mestur hluti þess- arar tilskipunar, t. a. m. allt um addraganda kosnínga og kosníngahald, og um störf manna á þínginu sjálfu, hefdi þó hlotid ad verda óbreytt, medan menn voru ekki færir um ad setja annad betra í þess stad, en því hefir höfund- urinn ekki farid á flot. Uppástúnga nefndarinnar um mál- id, sem tala eigi á þínginu, og sem ad mestu leiti hefir verid fylgt í 43dju grein tilskip., er ad öllu leiti eptir nefnd- ina sjálfa, því eingin ákvördun er sama efnis í hinum dönsku tilskipunum. Nefndinni verdur því ekki borid á brýn, ad hún hafi, vidvíkjandi þessu atridi, skrifad upp dönsku tilskipunina. Af því, sem nú er sagt, má sjá, á hvada ástædum þad er byggt, þegar höfundurinn krefst af nefndinni, ad hún skyldi semja ný lög og ólík ödrum handa alþíngi, og ekki laga þau í neinu eptir dönskum lögum. Þar ed konúngsúrskurdur frá 20 maí 1840 seigir, ád á alþíngi skuli menn hafa öll hin sömu störf á hendi, sem á hinum ödrum fulltrúaþíngum í ríki sínu, og menn verda ad álíta þad sem höfudatridid, eins og höfundurinn hefir gjört í ritgjörd sinni Nr. 3, þá leidir af því, ad í tilskipuninni um lögun alþíngis urdu menn ad hafa tillit til tilskip. um lögun hinna dönsku fulltrúaþínga, og ad menn áttu einúngis ad fara annann veg, enn þessar tilskip. sögdu, þar sem ásigkomulag Íslands krafdist þess, ad út af væri breytt. Þad er því annadhvort öldúngis rángt, edur einúngis orda- þræta, sem höfundurinn lendir í, af því hann hefir ekki hugsad um efnid nógu ljóslega, edur komid skýrum ordum ad því, en byggir svo á því öllu saman nýar ákærur, þeg- ar hann seigir, ad ekki hafi mátt byggja á dönskum lögum frumvarpid til alþíngislaganna á Íslandi.

Þegar höfundurinn ber nefndinni á brýn, ad hún, í stad þess ad gánga samsída brædrum sínum í Danmörku og á Holsetalandi, frjáls og fjörug, med djörfúng og hugrekki, hafi heldur kosid hitt, ad gánga bogin og bjögud á ept-

ir þeim, svo efast eg ekki um, ad þegar hann hefir verid búinn ad rita þessi fögru ord, þá hafi honum þótt sérlega vænt um sig, og þad því heldur, sem hann hefir komid med þau aptur í annari ritgjörd. Þad eru ad sönnu bitur ord, sem hann seigir. En hann gáir þess ekki, ad bitur ord eru, eins og einn frægur höfundur hefir komist ad ordi, lík tvíeggjudu sverdi, þau særa þann sjálfan, sem beitir þeim ránglega. Eingum skynsömum manni mun finnast, ad nefndin eigi skilid smánaryrdi þau, er höfundurinn velur henni; af því hún hefir ekki tekid frekar til, enn ad Ísland skyldi hafa ferfaldt fleiri fulltrúa ad sínu leiti, enn Danmörk; af því hún hefir ekki sleppt öllum eignakjörkostum vid kosníngarnar, edur gjört þá svo litla, ad eingin vissa feingist fyrir áreidanlegum kosníngum; af því hún hefir ekki vilja takmarka konúnginn í ad kjósa sér umbodsmann; og af því hún hefir ekki rádid til þess, ad þíngid yrdi haldid ad opnum dyrum, sem eptir því, sem tilhagar á Íslandi, er til einkis gagns. Smánarord þau, sem höfundurinn lætur sjúka yfir nefndina, verda því eingum til vanvirdu, nema sjálfum honum.

Til þess, ad höfundurinn komist svo hátt sem verdur, í því ad atyrda nefndina, seigir hann loksins, ad allt þetta, — nefnil. þær herfilegu yfirsjónir, sem nefndinni hafa ordid á eptir hans áliti —, hafi hún ekki gjört af vankunnáttu og þekkíngarleysi, heldur af hinu alkunna þorleysi embættismannanna, og þrældómsótta fyrir því, sem þeir ætla ad sé vilji stjórnarrádanna. Ákæra þessi er þess edlis, svo óviturleg og skémmdarfull, ad hún hlýtur ad svipta tillögur höfundarins öllu áliti hjá hyggnum og rádsettum mönnum. Ad höfundurinn tekst í fáng ad dæma um sidferdi manna, og eignar þad vondum og vansæmandi hvötum, sem alltéins beint lá vid ad eigna vankunnáttu manna, er í sjálfu sér óleyfilegt, og gagnstætt þeirri virdíngu, sem menn eiga ad sýna óskérdtu mannordi annara; svo ad ákæra höfundarins, skodud einúngis í þessu tilliti, er fyrirlitníngarverd. Ad ákæra sú, sem höfundurinn hefir borid á nefndina, sé

í mesta máta meidandi, er í augum uppi; því hefdi þad verid satt, ad nefndin móti betri vitund, med ásettu rádi, af vondum og vansæmandi hvøtum, hefdi bannad fósturjørdu sinni ad hafa not og ávexti af alþíngi, þá mátti med sanni seigja um hana, ad hún hefdi skotist undan skyldu, og svikid ættjørdu sína. Og hvad kémur nú høfundurinn med, til ad færa røk fyrir þessari þúngu ákæru? Ekkért, øldúngis ekkért; og hann verdur aldrei fær um ad seigja hid minnsta, sem géti heitad ástæda fyrir þessari ákæru; en þessa ástædu átti hann þó ad færa, ef hann á ekki ad heita madur ad verri. Þar á móti má benda til margs í þessu málefni, sem sýnir ad nefndin hefir farid eptir bestu sannfæríngu, en eingan veginn hefir látid nokkurn þrælsótta fyrir vilja stjórnarrádanna leida sig. Kanselíid hafdi ekki í minnsta máta gétid þess, hvernig þad vildi ad alþíng yrdi lagad, en øldúngis géfid þad í vald nefndarinnar, ad stínga uppá því, sem henni sýndist best eiga vid, eptir ásigkomulagi Íslands. Þess vegna hafdi hvorki nefndin, né gat haft, minnsta grun um, hvernig kanselíid vildi láta breyta tilskipununum um fulltrúaþíngin med tilliti til Íslands; og gat því ekki farid eptir því, því sídur fylgt því af þrælsótta. En þó nú nefndin hefdi haft þann grun, þá hefdi hún þó ekki fylgt honum, nema því ad eins, ad hann hefdi verid samkvæmur sannfæríngu hennar. Nefndin hefir einúngis gjørt sér í lund, ad kanselíid mundi vilja hafa alþíngid svo lagad, sem best ætti vid, og stjórnarrád þetta mundi ad eins mæla fram med því vid konúnginn, sem á bestum og gildustum ástædum væri byggt. Nefndin hefir því fyrst og fremst leitast vid ad hitta þad, sem eptir ásigkomulagi landsins átti best vid, og sem þess vegna mátti færa bestar ástædur fyrir. Þar á móti hafdi konúngur vor, eins og alkunnugt er, géfid í skyn, ad alþíng skyldi halda á Þíngvelli; en þad aptradi þó ekki þeim af nefndarmønnum, sem annad leitst í því efni, frá ad seigja meiníngu sína med þeirri djørfúng og einlægni, sem sæmir frjálsum mønnum, og þeim, er sannleikans leita, en þó med

þeirri lotníngu, sem konúngurinn á skilið. Og hinir af nefndarmönnum, sem vildu hafa alþíngið á þeim stað, sem konúngur hafði bendt til, gjörðu það ei af þrælsótta, þar um er eg sannfærður, heldur einúngis af því, það var samkvæmt sannfæríngu þeirra. Ákæra höfundarins er þess vegna ástæðulaus. Og hvað hefir nú rekið höfundinn til að koma með slíka ákæru? Ekki annað, enn að nefndin hefir verið á öðru máli, enn hann, um 4 atriði í frumvarpinu um alþíngislögin. Það verður ekki að því fundið, þó höfundinum finnist, að hann hafi á réttu að standa, þar sem honum kémur ekki saman við nefndina, svo og hinu, að hann leitast við að færa sem gildastar ástæður fyrir sínu máli; en þegar hann gjörir ekki ráð fyrir öðru, enn að hann hljóti í þessu máli, sem þó má skoða á marga vegu, sjálfsagt að hafa á réttu að standa, en nefndin á röngu, og þegar hann leyfir sér að velja henni hrakyrði, einúngis fyrir þá skuld, að hún er á öðru máli enn hann, þá er auðséð, af hvaða rótum það er runnið.

Þegar höfundurinn hefir þannig lokið máli sínu við nefndina, þá lýsir hann yfir þykkju sinni við kanselíið, að það skuli ekki hafa endurbætt frumvarpið eptir uppástúngu sinni, og nefnir hann þá frumvarp mitt, það er seinna var sendt kanselíinu, og byggt var á tvöföldum kosníngum, og er svo að sjá, sem höfundinum hafi líkað það ekki illa, þá er hann samdi þessa ritgjörð. Eg ætla ekki að fara um það fleirum orðum, en einungis géta hins, af því hvernig höfundurinn hefir sett frumvarp mitt í sambánd við umkvörtun sína yfir kanselíinu, að þó eg sé þess fullvíss, að tvöfaldar kosníngar eigi best við á Íslandi, og finni mér því skyldt, að styrkja til þess af mætti, að það verði framgeingt, þá læt eg ekki eiginn hugþótta blinda mig svo, að eg hafi, að svo vöxnu máli, búist við að þessu frumvarpi mínu yrði fylgt í alþíngistilskipuninni, þar eð það var laust við Reykjavíkurnefndina, og hvorki þeir af nefndarmönnum, sem sáu það, mæltu með því, — því það er ekki rétt, sem

høfundurinn segir, ad þeir hafi fallist á frumvarpid í einu hljódi —, né heldur þíngmenn í Hróarskéldu.

Þad, sem eg einkanlega hafdi í hyggju ad koma til leidar med frumvarpinu, var, ad málid yrdi ad nýu skodad í nefndinni, og bjóst eg þá vid, ad flestir, ef ekki allir, af nefndarmønnunum mundu fallast á þad. En þó mér hafi verid ánægja ad því, ad bædi rentukammerinu, og mørgum skynsømum og vitrum mønnum hér á landi, hefir gédjast vel ad frumvarpinu, æski eg þó ekki, eins og nú er ástatt, ad tvøfaldar kosníngar komist á hér á landi, nema því ad eins, ad meira hluti hinna vitrustu manna þyki þad eiga betur vid, enn hitt, sem løgtekid hefir verid; því ad vilja þraungva mønnum jafnvel til þess, sem madur er sjálfur sannfærdur um ad gott sé, er eins konar hardstjórn, sem mér ad minnsta kosti hvorki gédjast ad, né æski ad vid sé høfd.

En þá von hefi eg, ad á kosníngaradferd þessa muni því fleiri fallast, sem leingra lídur frá, og ad menn muni sannfærast um, ad hún er betri enn hin, einkum þegar reynslan hefir sýnt þeim alla þá annmarka, sem hljóta ad fylgja þessari, sem nú er fylgt.

Seinna í riti þessu, þegar eg fer ad minnast á adrar ritgjørdir, mun mér gésast færi á ad nefna ýms atridi, er høfundurinn hefir talad um í ritlíngi sínum, og fyrir því leidi eg þad hjá mér ad sinni. Einúngis vil eg nú fara nokkrum ordum um einstøku ordatiltæki hjá honum í þessum ritlíngi, því þad á helst vid á þessum stad. Høfundurinn hefir farid nokkrum ordum um þad, ad tvøfaldar kosníngar mundu eiga best vid á Íslandi. Eg er einnig á því máli, og þess vegna er eg því flestu samdóma, sem hann seigir um þad efni. Þad held eg og, eins og hann, ad tíundarstofninn, edur tíundbært fé yfir høfud, (bædi lønd og lausir aurar), þó því ad eins, ad tvøfaldar kosníngar verdi løgleiddar, eigi ad vera grundvøllur kosníngarréttar og kjørgeingi. En samt sem ádur gét eg ekki annad, enn álitid sumt þad

léttvægt og jafnvel rángt, sem höfundurinn hefir tínt til, til þess ad sýna, ad þad ætti illa vid, ad fasteign ein væri gjörd ad skildaga fyrir kosníngarrétti og kjörgeingi, en kjörkostir rýmkadir eptir því, sem hann stíngur upp á. Þegar hann þannig seigir, ad fasteign sé veik og kvikul undirstada, til ad byggja á henni nokkur þjódréttindi, þá má öllu heldur seigja þad um lausafjártíundina; því hún er ekki einasta miklu meiri biltíngum undirorpin, edur breytilegri, enn fasteignin, vegna þess hún mínkar hjá flestum, þegar í ári hardnar, en hún er einnig veikari og kvikulli í þeirri þýdíngu, sem höfundurinn tekur þessi ord. Hann gjörir, ad eitt hundrad í jördu sé metid ad dýrleika frá 20 til 100 rbd. Eg held þad og, þó mér þyki hin sídari talan vel mikil. En miklu valtari, og meiri munur er á dýrleika lausafjárhundradanna, þar sem 1 hundr., edur 6 ær, kosta opt ekki meira enn 12 rbd., en einn 10- eda 8-æríngur kostar frá 120 allt ad 150 rbd. Lausafjárhundradid verdur þannig ódýrara, enn hid ódýrasta jardarhundrad. Þegar höfundurinn seigir, ad hinir rýmkudu kjörkostir, er hann mælir med, nl. allir tíundbærir fjármunir, bædi lönd og lausir aurar, séu bædi yfirgripsmeiri og stödugri, enn þeir kostir, sem nefndin stakk upp á, og einúngis nádu til fasteigna, þá er þad ad sönnu satt, ad þeir eru yfirgripsmeiri; en hitt er ei gott ad sjá, ad þeir séu fyrir þad stödugri, edur minni breytingum undirorpnir. Þad er ádur sýnt, ad lausafjártíundin sé í öllu valtari; en fasteignin gétur ekki í neinu sérlegu breytst, edur ordid stödugri fyrir þad, þó hún sé tekin saman vid lausaféd, og lendi med því í yfirgripsmeiri undirstödu undir kosníngum og kjörgeingi. Þegar höfundurinn færir þad sem ástædu móti frumvarpi nefndarinnar, ad jardeigendur nú á tímum sati minni álögum ad réttum jöfnudi enn adrir, þá er þessu ekki þann veg varid. Jardeigendur svara ad sönnu ekki sem jardeigendur nokkrum af hinum svo nefndu konúngstekjum, nema jardartíund, og nokkrum hluta af lögmannstollinum, sem er ærid lítill. En í stad þessa gjalda þeir

aptur á hinn bóginn miklu meira ómagaútsvar enn hinir, sem eingaungu gjalda lausafjártíundina. Þar ad auki er þad adgætandi, ad jardeigendur optast eiga mestan lausafjártíundarstofn, og gjalda skyldur þær, sem á honum liggja, og gjalda því optast nær mesta skatta til almenníngs þarfa af øllum landsmønnum. Þetta sést ljósast af dæmi, er eg vil taka til: þegar øllum lausafjártíundarstofni, sem um þessar mundir er talinn til tíundar í Árnessýslu, er skipt med tølu allra búenda, þá á hver búandi upp og nidur $8\frac{3}{4}$ hundrads. En þegar øllum lausafjártíundarstofni þeim, er þeir hinir 107 jardeigandi kjósendur í Árnessýslu nú eiga, er skipt med tølu þessari (107), þá verdur lausafjártíund hvers af kjósendum upp og nidur $17\frac{7}{10}$ hundrads.

Af þessu er audsætt, ad mótbárur høfundarins eru annadhvort ekki med øllu réttar, eda ad minnsta kosti nokkud léttvægar. Helsta ástædan til þess, ad þad á ekki vel vid á Íslandi, ad fasteign sé ein gjørd ad kjørkostum, er sú, ad sé farid eptir henni, þá verda þeir of margir, sem ekki komast ad til kosnínga, enda þótt vel væru til þess hæfir, og aptur á hinn bóginn of margir, sem ad komast, þó ekki séu til þess fætir. Þessa hefir høfundurinn gétid, en ekki tekid þad eins fram, og þad átti skilid.

Høfundinum þykir þad mjøg líklegt, ad Íslendíngum, eins og þeir eru skapi farnir, muni finnast þad þíng vera eins konar samsærismannaflokkur, sem rædir um landsgagn og naudsynjar innan luktra dyra. Þessi gétgáta hans þykir mér aptur á móti mjøg ólíkleg og ástædulítil. Þad fer svo fjærri, ad løndum mínum þækti Reykjavíkurnefndin vera nokkur „samsærismannaflokkur", (og þó voru í henni einúngis konúngkvaddir embættismenn, sem ekki gátu alveg kunngjørt størf sín), ad þeir, sem menntadir eru og hugsa um þjódmálefni, hafa géfid eigi allítinn gaum ad størfum hennar. Þad er því sídur enn ekki líklegt, ad Íslendíngar muni kalla alþíngid samsærismannaflokk, þar sem á því sitja flestir þeir, er þjódkjørnir eru, og størf þeirra eiga ad verda øllum kunnug. Alþíngismenn yrdu fyrst ad hafa

gjørt samtøk móti þjóðinni, áður þeim mundi verða það nafn gefið.

Þegar høfundurinn hefir talið ýmsar ástæður til þess, að alþýða manna hér á landi sýni tregðu og hafi illan grun á nýum skattaálögum, (sem nú hefir leingi ekki að borið, nema það, sem goldið var í jafnaðarsjóðu amtanna þau 2 skipti, sem Reykjavíkurnefndin var haldin), segir hann, að það sé eingin furða, að skynsamir alþýðumenn, sem finna, hvar skórinn kreppir, en geta ekki við spornað, þegar embættismennirnir beygja og hneigja sig, verði tortryggnir; — en embættismennirnir þar á móti tali eptir vild þeirra, og styrki þá í þeirri trú, með eins konar þybbinni mótstøðu móti øllum nýum kostnaði án alls greinarmunar. Það væri fróðlegt að vita, hvort høfundurinn ætlar að halda leingra á fram lýsíngu þeirri, er hann hefir byrjað á um embættismennina á Íslandi, og að hann vildi þá nákvæmar útlista, hvort það eru hinir sømu embættismenn, sem í hinu sama málefni þeigja og hneigja sig, þegar stjórnin leggur nýar áløgur á alþýðuna, en tala þó eptir vild alþýðu og styrkja hana í trúnni með þybbinni mótstøðu móti øllum nýum kostnaði; því annars gæti skéð, að þeir, sem óvanir eru að fylgja høfundinum á hugsunarleið hans, ættu erfitt að finna réttan þráð og samband milli þessara tveggja ákærna, er hvor sýnist vera gagnstæð annari. Vera má, að høfundinum takist af hyggjuviti sínu, að miðla svo á milli þeirra (mediere dem), að þær sameinist í æðri einíngu, í æðri hugmynd, nefnilega eins konar óviðjafnanlegri fúlmennsku, ásamt stakslegu hugsunarleysi, hjá hinum íslendsku embættismønnum. Mér finnst eptir því, sem hann hefir byrjað, þá verði hugmyndirnar að taka þessa stefnu. Skyldi høfundurinn treysta sér á annann veg að rýma því burtu, sem er hvað á móti øðru í ákærum hans, þá rekur þar að fyrir honum, að hann verður að færa sønnur á sitt mál.

Nr. 5. Bréf Íslendinga til Balthazar Christensens málaflutningsmanns gefur hér ei tilefni til margra

athugasemda, þar eg sumpart ádur (í fyrstu ritgjørdinni í Fjórum Páttum) hefi talad um atridi þau, er tekin eru fram í bréfinu, og mun ad nokkru leiti sídar fá færi á ad víkja máli mínu ad þeim aptur. Hér skal eg ad eins géta þess, ad eg eingan veginn vil draga þad hrós af Christensen, er bréfid tileinkar honum, og ad eg sømuleidis ætla, ad þad ad eins hafi verid eintóm ummønnun fyrir málinu og heill Íslands, er hafi knúid hann til ad skipta sér af því med fylgi og fjøri. En jafnvel þó ræda hans í alþingismálinu, þá hún er skodud sem ræda, sýni, ad madurinn er vitur og vel ad sér, þá vottar hún þó vída hvar, ad hann ei hefir haft nákvæmari edur djúpsærari þekkíngu á høgum Íslands, enn adrir upplýstir og menntadir Danir almennt hafa, er ei hafa haft sérlegt færi á ad kynna sér landid. Pad fer því fjærri, ad breytíngaratkvædi þau, er Christensen stíngur upp á, hafi feingid skilyrdislaust edur almennt medhald á Íslandi, edur, eins og bréfid kémst ad ordi, ad „hverr Íslendíngur mundi hafa óskad sér, ad hafa sagt þad, er hann sagdi". Einkum eru þeir margir, sem, eptir því sem landslagi hagar á Íslandi, álíta þad ei ad eins gagnslaust, heldur jafnvel óhentugt, ad hafa alþingisstofuna opna; eins og líka mørgum virdist þad ótilhlýdilegt, ad vilja taka svo fram fyrir hendurnar á konúnginum, ad hann ei gæti kosid til alþingis fyrir sína hønd (Commissarius), nema íslendskan mann. Ad vísu eru þeir ei fáir, sem óskad hafa nokkud fjølmennara fulltrúaþings, (t. a. m. 30 — 32), heldur enn embættismannanefndin hafdi stúngid upp á, og nú er løgtekid, ef kosníng svo margra fulltrúa hefdi anmarkalaust gétad komist á, en eg hefi, enn sem komid er, eingan hér á landi heyrt mæla fram med svo fjølmennu þíngi, sem Christensen stíngur upp á. Par á móti eru flestir óánægdir med kosníngarløgin, ad svo miklu leiti sem þau eingaungu hafa einskordad kosníngarrétt og kjørgeingi vid fasteign.

Ad svo miklu leiti, sem þad er bædi hér og vídar

látid í ljósi, ad ýmsir, (hvar med einkum hlýtur ad vera meint til embættismannanefndarinnar í Reykjavík), hafi misskilid úrskurd konúngs frá 20 maí 1840, edur, eins og kvedid er ad ordi í bréfinu: „hafi viljad teygja greinilegt konúngsmál til þeirrar þýdíngar, er þeim var skapfeldust", þá er þetta öldúngis ástædulaust. Nefndin hefir hvorki misskilid edur rángfært konúngsúrskurdinn, og ei heldur hefir henni sést yfir, edur lítils metid, heldur þvert á móti med innilegri þakklátsemi kannast vid hid umhyggjusama og kærleiksfulla tillit, sem konúngur med úrskurdinum hafdi haft til þjódernis Íslendínga, í hverju nefndarmenn einnig eiga þátt; en nefndin hefir álitid þad, er konúngur lætur í ljósi um, med hverjum hætti setja skuli alþíngid á stofn, ad undanteknni ákvördunninni um störf þess, einúngis sem nokkurs konar tilkynníngu fyrirfram, edur ávísun, hvar vid konúngur hvorki hefir viljad einskorda sjálfan sig, í tilliti til þess, hvada úrskurd hann ad lyktum leggdi á málid, edur firra þá menn tækifærinu, til ad ræda frjálslega og tálmunarlaust um þad, sem falid var á hendur ad meta þad og ransaka. Ad þessi skodunarmáti, er ad öllu leiti stydst vid ordatiltæki úrskurdarins sjálfs, hafi einn saman verid hinn rétti, sýnir háttur sá, med hverjum konúngurinn loks er búinn ad haga málinu og útkljá þad.

Nr. 6. Bréfid til Christensens málaflutningsmanns frá nokkrum leiguliðum á austfjördum er raunar í sjálfu sér ekki svo markverdt, ad þad útheimti hér ýtarlegri málaleiugíngu; en þar ed opt hefir verid skýrskotad til þess, svo sem væri þad mikilvægt ritsmídi, og vottur þess, „hvernig hinni nýu stiptun, í því skipulagi, sem nú er ákvardad hún hafi, (þess er ad géta, ad bréfid er fyrst birt alþýdu eptir ad tilskipun frá 8da marts f. á. kom út), muni verda tekid af meiri hluta búandi manna á Íslandi, og hvada áhrif þad muni gjöra þar, ad stjórnin hefir stúngid tillögum standanna undir stól, og óskum þeim, sem Íslendíngar hér (þ. e. í Kmh.) hafa samhuga látid

í ljósi", — þá mun það ei géta álitist um skör fram, að eg gjöri hér nokkrar athugasemdir, bæði um áreiðanlegleika þeirrar ályktunar, er dreigin er af ritun bréfsins um það, að menn hér á landi séu óánægðir með alþíngisskipunina, og um ásigkomulag bréfsins sjálfs, og rökfemdaleiðsla þeirra, er það inniheldur.

Þar eg hefi sjálfur hardtnær í 20 ár verið búfastur í einum af hreppum þeim á austfjörðum, hvaðan mannanöfn finnast undir bréfinu, og þekki því flesta þá bændur, hverra nöfn eru rituð undir það, svo er eg nokkurn veginn viss um, að bændur þessir eiga eingan verulegan eður annann þátt í ritun bréfsins, enn þann, að þeir hafa skrifað eða látið aðra skrifa nöfn sín undir það, eptir áeggjun annara, án þess að hafa haft nokkra ljósa hugmynd um innihald bréfsins, nema að svo miklu leiti, sem þeim hefir verið gjört skiljanlegt, að þeir hefðu átt að fá bæði kosníngarrétt og kjörgeingi, en væri ránglega bægt frá hvorutveggja samkvæmt lagafrumvarpi því, er lagt var fram á Hróarskélduþíngi. Bændur þeir, hverra nöfn eru rituð undir bréfið, géta því ekki haft ábyrgðarhluta á innihaldi þess, en í tilliti til þess, sem bréfið heldur ránglega fram, hins ógreinilega skoðunarmáta þess, og hinna ósönnu sakargipta, er í því finnast, verða menn einúngis að halda sér til höfundar bréfsins.

Eins og höfundurinn kvartar um, að hann af óvissri sögusögn að eins þekki, hvernig Christensen hafi flutt það, er hann kallar málefni bændanna, eins líka ber allt bréfið vitni um, að hann hefir annaðhvort ekkért þekkt til málefnis þess alls, er hann ritar um, nema af óvissri sögusögn, eður og, að hann ekki hefir géfið sér tíma til, eður verið því vaxinn, að koma málinu rétt fyrir sig. Höfundurinn hefir þannig ránglega meint, að jarðeigendur þeir, er ekki búa á jörðum sjálfra sín, hvorki væru kosníngarfærir eða kjörgeingir. Þetta má sjá af því, að af þeim mönnum, er hafa skrifað undir bréfið, eru sumir jarðeigendur, og hafa því bæði kosníngarrétt og kjörgeingi,

en búa þó á jørdum, sem adrir eiga. Þessir menn eru, eda voru, þá bréfid var samid, Candidatus theol. Jón Thorarensen, Stúdent G. Vigfússon og Jón Þorsteinsson í Fljótsdalshrepp, einnig Einar Asmundarson í Skriddalshrepp.

Þar sem høfundurinn géfur í skyn, ad þad líti svo út, sem rammar skordur hafi verid reistar vid, ad nokkur madur feingi vitneskju um, „hvad nefndin í Reykjavík hafdi fyrir stafni," þá er þad med øllu ástædulaust. Eptir uppástúngu minni kom nefndinni árid 1839 ásamt um, ad bera þau tilmæli upp vid kanselíid, ad størf hennar mættu birtast á prenti, hvad einnig strax var leyft. Ad tídindin um størf nefndarinnar ei komu úr fyrri, enn vorid 1842, er ei því ad kénna, ad stjórnin hafi reist þar vid nokkrar skordur, heldur einúngis hinu, ad tálmunum þeim, er ollu því, ad tídindin væru samin og fyrr géfin út, ei vard fyrr rudt úr veigi.

Þad er kunnugt af því, er frá minni hendi hefir komid fyrir almenníngs sjónir, ad eg álít kosníngarløg þau, sem eingaungu eru byggd á fasteign og nú gilda á Íslandi, ófullkomin, og ad eg óska þeim verdi breytt fyrir tvøfold kosníngarløg, er byggd væru á rýmri kjørstofni. Eg gét því ad vísu ei verid hofundinum ósamþykkur, ad svo miklu leiti, sem hann yfir høfud ad tala hefir verid óánægdur med kosníngarløg þau, er nú eru gildandi; en þar ed ástædur þær, med hverjum hann hefir viljad sanna, ad þau væru óhentug og kæmu illa vid, eru ad miklu leiti byggdar á misskilníngi og raungum hugmyndum, svo hlýt eg þó ad gjøra þar vid nokkrar athugasemdir. Høfundurinn ber Reykjavíkurnefndinni á brýn, ad hún hafi stúngid upp á, ad byggja kosníngarrétt og kjørgeingi á fasteign, „ekki af sannfæríngu, heldur af hugleysi". Í tilliti til lastmælis þessa, er eg hyklaust neita sem ástædulausu og ósønnu, verd eg ad skýrskota til athugasemda þeirra, er eg héfi gjørt ad framan vid greinina Nr. 4. Þar sem annars høfundur þessi hyggur, ad hann

géti sannad téda ákætu med eigin vidurkénníngu nefndar-manna, og í því tilliti vísar til 2arar deildar Nefndarrít-indanna, bls. 20, þá veit eg í sannleika ekki, á hverju mest er ad furda sig, hvort heldur á ósvífni þeirri, edur einfeldni, sem steypt hefir høfundinum í hina afkáralegustu villu. Til þess, ad binda kjósendurna svo lítid, sem møgulegt væri, og ad rýmka kjørgeingisvædid svo mikid, sem kostur væri á, hafdi nefndin stúngid upp á, ad inn-byrdis kosníngar medal allra kosníngarumdæma landsins gætu farid fram. En þar nefndin sá, ad innbyrdis kosn-íngar þessar mundu verda bundnar tøluverdum erfidleikum, því þar af leiddi, ad kosníngarskrárnar yrdu ad sendast til og frá um allar sýslur á landinu, þá vakti hún einnig athygli manna á, ad hjá þessum talsverdu erfidleikum yrdi komist, annadhvort med því, ad einskorda kjørgeing-ina vid kosníngarumdæmid, edur med því, ad gjøra kjør-geingina øldúngis frjálsa, og þá mundi ei naudsýn ad senda kosníngarskrárnar í fleiri hérød; en þar ed fleiri mikilvægar ástædur mæltu móti hvorutveggju úrrædum þessum, (af hverjum einúngis ófullkomid ágrip vard sett í Nefndartídindin), gjørdi nefndin þá athugasemd, ad hún ei þyrdi ad mæla fram med hvorugri af tédum uppá-stúngum. Þetta er nú mjøg almennt ordatiltæki, med hverju menn géfa til kynna, ad þeir géti ei mælt fram med einhverju, af því adrar gildari ástædur mæla á móti, jafnvel þó hitt, þá þad er skodad á vissa hlid, géti verid nytsamt edur æskilegt. En jafnvel þó þetta liggi svo í augum uppi, ad menn skyldu ei ætla, ad neinn heilvita madur géti misskilid þad, hefir þó høfundur vor verid svo árædisfullur eda hugsunarlaus, ad leida þad út af framantédu ordatiltæki, er prentad er med einkénni-legu letri, ad nefndin hefdi sjálf átt ad vidurkénna, ad hana hefdi brostid hug, og hún hefdi breytt móti betri vitund. Eptir þessari hugsunarfrædi høfundarins hefdu þá líka Íslendíngar í Kaupmannahøfn, er sømdu bænarskrá, dagsetta 25ta febrúar f. á., til konúngs, um nokkrar breyt-

íngar á frumvarpinu til alþíngistilskipunarinnar, átt ad vidurkénna hugleysi þeirra, og ad þeir hefdu breytt móti betri vitund, af því þeir í tédri bænarskrá géfa í skyn, ad þeir þori ei ad bidja um, ad kosníngarrétturinn verdi byggdur á skiptitíundinni, — sjálfsagt af ástædum þeim, er færdar eru til í bænarskránni —, heldur beidast einúngis, ad þessi réttur yrdi rýmkadur svo, ad hann nædi til þeirra, er hafa 10 hundrud í jördu til ábúdar. Annars vil eg hér gjöra þá athugasemd, ad þad útheimtist ekkért hugrekki, til ad stínga upp á edur mæla fram med einhverju, jafnvel þó þad væri ósamkvæmt áliti stjórnarrádanna, þar menn géta verid vissir um, ad slík uppástúnga, þegar hún er borin fram med stillíngu, ei muni olla þeim, er kæmi med hana, minnstu óvildar edur baga. Þar á móti útheimtist verulegt hugrekki til, ad halda einhverju því fram, sem er gagnstætt meiníngum þeirra, er, eins og höfundurinn, láta dynja yfir hina, sem greinir á vid þá, ósvífnustu sakargiptir fyrir hugleysi og óhreinskilni, fyrir breytni gégn eigin sannfæríngu, þrælsótta og adra þess háttar lesti, sem eru hverjum grandvörum manni og ærukærum öldúngis ósambodnir.

Höfundurinn færir nú til í 6 atridum ástædur þær, er ad ætlun hans sýni, ad óhentugt sé, ad binda kosníngarrétt og kjörgeingi vid fasteign.

Þegar á greininni Nr. 1 má sjá, ad hann skodar alþíngid frá öldúngis raungu og rammskökku sjónarmidi. Í stad þess, ad setja sér alþíngid fyrir sjónir eins og eina heild, hvar í hver félagslimur er heill lidur edur grein, eins og þjódfulltrúafund, hvers ýmislegu limir ad vísu eiga ad hafa grundvallada þekkíngu á hinum margvíslegu alþjódlegu edur almennu lögum, en hafa þó ætíd augastad á velferd alls landsins yfir höfud, þá álítur hann þíngid þar á móti sem lauslegt samsafn af sundurlyndum málaflutníngsmönnum, edur sem stóran talsmannaskóla, hvar í hver af alefli á ad flytja mál þess flokksins, er hann heyrir til, edur af hverjum hann er kosinn. Því

bregdur svo opt fyrir hjá höfundinum, ad sá edur sá flokk- urinn, t. a. m. leigulidar, vinnufólk, nidursetníngar, séu „verndarlausir", og ad jardeigendurnir líti á eiginn hag einúngis. Annars er þad ad líkindum einúngis raung ætl- an, ad leigulidar muni verda fulltrúalausir á alþíngi; því auk þess, ad margir leigulidar, er búa á kóngsjördum eru bædi kosníngarfærir og kjörgeingir, eptir þeim kosníngar- lögum, sem nú eru í gildi, er þad líka adgætandi, ad marg- ir jardeigendur, er sem slíkir hafa kosníngarrétt og kjör- geingi, líka eru leigulidar, edur búa á jördum, sem adrir eiga, og er því verulega umhugad um, ad rétti leigulid- anna ei sé tradkad af hlutdrægni. Svona stód á, eins og getid er ad framan, fyrir 4, ef ekki fleirum, af leigulidum þeim, er ritad hafa undir hér áminnst bréf.

Þar sem höfundurinn í greininni Nr. 2 gefur í skyn, ad Reykjavíkurnefndin hafi stúngid upp á, ad adrir prestar skyldu ei kosníngarfærir og kjörgeingir, enn þeir, er eiga jardir, „af hrædslu fyrir því, ad þeir mundu vera of mjög eigingjarnir", þá fer hann öldúngis villt í því. Ástædan fyrir uppástúngu þeirri var þar á móti sú, ad menn voru hræddir um, ad, ef allir prestar undantekníngarlaust væru kjörgeingir, mundi kjósendum, sem flestallir eru bændur, hætta of mjög til ad kjósa prestana, og andlegrar stéttar þíngmenn yrdu svo ad tiltölu of margir, er sumir jafnvel med núverandi kosníngarlögum eru hræddir um, ad verda kunni. Alyktun sú, er höfundurinn þannig hefir byggt á raungum grundvelli, verdur því, sem öldúngis ástædulaus, ógild ad meirast.

Þridja ástæda höfundarins, sú nefnil., ad allir hrepp- ar hafi ei jafnmarga kosníngarfæra jardeigendur, er öldúng- is ómerk, þar einn hreppur er ekki heilt kjörþíng, heldur sýslan öll. Annars er þess ad geta, ad í þeim héródum, sem fæstir jardeigendur eru, eru aptur á hinn bóginn þeim mun fleiri kosníngarfærir festubændur.

Gégn mótmælum höfundarins í 4du grein, „ad fasteign á Íslandi gefi einga vissu fyrir, ad kosníngarrétturinn og

kjörgeingin haldist, þar ed sá, sem átti jörd í fardögum, verdi ad hausti annadhvort daudur, eda búinn ad affala sér jördina", nægir ad minna hann á, ad þad eru ekki jardeigendurnir einir, sem deya, heldur eiga allir þá skuld ad gjalda, og ad þad er sameiginlegt hlutfall fasteignarinnar og allra annara eignakjörkosta, ad vera hverfulleika og breytíngu undirorpnir. Annars ætti sá madur, er þykist vera þess umkominn, ad bregda Reykjavikurnefndinni um hugsunarleysi, ad vara sig á, ad koma med svo fánýtar röksemdir, er votta fullkomid hugsunarleysi.

Í tilliti til 5tu röksemdar höfundarins verd eg ad skýrskota til athugasemda þeirra, er eg hefi gjört ad framan vid greinina Nr. 4, um hluttöku jardeigenda í opinberum álögum og útgjöldum. Þar sem höfundurinn í þessari grein stendur fast á því, ad í Danmörku hvíli allir skattar og skyldur á herdum jardeigendanna, þá veit hver madur, sem þekkir hid minnsta til skattalaganna og útgjaldanna í Danmörku, ad þessi sögusögn er á eingu byggd.

Ástæda höfundarins í 6tu grein verdur ad nokkru leiti sama, sem í 5tu, og verdur henni ad ödru leiti hér ei gaumur géfinn, þar kosníngarlögin hvorki eru, eda eiga hér á landi ad vera, byggd á skattgjaldi, heldur eru byggd á fasteign, og eiga, ad minni hyggju, ad vera byggd á tíundarfé.

Eptir ad höfundurinn er búinn ad mótmæla fasteignarkjörstofninum, med ástædum þeim, er eg nú hefi yfirfarid, kémur hann med breytíngar þær, er hann hyggur lagafrumvarpid um alþíngid eigi ad fá, til ad géta ordid haganlegt. Fyrst talar hann í greininni *A* um skildaga kosníngarréttarins og kjörgeingirnnar. Í tilliti til hins sídar nefnda, edur kjörgeinginnar, óskar hann, ad hún mætti verda öldúngis frjáls og óbundin öllum eignakjörkostum, þar ed margir stúdentar, skrifarar, fulltrúar og barnakénnarar hjá embættismönnum, sem hvorki eiga fasteign né lausafé, „sén allt fyrir þad einka vel fallnir til ad vera alþíngismenn", einneiginn þar í Danmörku finnist „þeir Íslendíng-

ar, er hvorki eiga fasteign né lausafé, en séu þó fremur flestum í landinu sjálfu hæfir til ad vera fulltrúar". Slíkar ástædur eru einmitt kjørnar til ad gjøra þá, er annars, med vissum tryggjandi skildøgum, kynnu ad vera fúsir til ad fallast á øldúngis frjálsa kjørgeingi, hykandi vid ad mæla fram med henni, þá menn sjá, ad þeir, er óska frjálsrar kjørgeingi, gjøra þad í þeim tilgángi, ad greida úngum og óreyndum mønnum, er bædi vantar efni og hafa ekki nád fastri lífsstødu, veg til ad verda þjódfulltrúar. Í tilliti til kosníngarréttarins óskar høfundurinn í byrjun þessarar greinar, ad hann mætti veitast øllum þeim, er borga skatt, þ. e. þeim, sem tíunda 5 hundrud af tíundbærri lausafé, og eiga 1 hundrad fram yfir fólkstølu. Á þessa uppástúngu gét eg med eingu móti fallist. Kosníngarrétturinn ætti ekki ad vera kominn undir þeirri óvissu, hvort hlutadeigandi borgar skatt edur ekki, hvar á móti hann ætti ad byggjast á tíundarhøfudstólnum, án tillits til skyldunnar ad gjalda skatt, eptir skattløgum þeim, er nú gilda og eru næsta ó-fullkomin. Í Árnessýslu eru, sem stendur, 161 búendur, er tíunda 5 til 12 hundrud, en borga þó eigi skatt, af því heimilismenn þeir, er þeir eiga ad framfæra, eru ann-adhvort fleiri edur jafn margir, og tíundarhundrud þeirra, og margir af búendum þessum eru bædi efnadri, og þar ad auki í ødru tilliti betur fallnir til ad vera kjósendur, enn sumir af þeim, er skatt borga, af hverjum nokkrir, t. a. m. þeir, er tíunda 5 hundrud, en eiga einúngis ad sjá fyr-ir 4 mønnum, eru þrávalt bædi fátækir, og þar ad auki lítt hæfir til ad neyta beinlínis kosníngarréttar. En sann-færíng sú, eptir hverri høfundurinn hefir óskad, ad kosníng-arrétturinn yrdi bundinn vid ofantédan skildaga, hefir þó hvorki verid viss edur stødug. Annadhvort hefir hann gleymt edur breytt henni, þá hann skrifadi þær fáu línur, sem eru í grein þessari; því í nidurlagi hennar „óskar hann eins hyklaust, ad einginn húsfadir verdi útilokadur frá kosníng-arrétti". Já, hann tekur hér jafnvel svo djúpt í árinni, ad hann óskar, ad vinnuhjú hafi fulltrúa á alþíngi, nefnil.

med því, ad í alþingistilskipuninni verdi med berum ordum skipad, ad fulltrúarnir eigi einnig ad hyggja ad rétti vinnuhjúanna. En höfundinum hefir hér sést þad yfir, ad úrrædi þetta er annadhvort ónóg frá hans sjónarmidi, er álítur alþíngismennina sem einúngis talsmenn fyrir einstaka menn, stéttir og þeirra hagsmuni, og vill því hafa fulltrúa jafnvel fyrir nidursetnínga, edur menn géta notad þad á yfirgripsmeiri máta, svo ad menn gætu skyldad jardeigendur til ad hyggja ad réttindum leigulidanna, og þá mætti linna öllum harmatölum hans, yfir því ad rétti þeirra sé tradkad.

Þad, sem höfundurinn því næst í greininni Lit. *B* hefir talad um kosníngarmátann, er svo ógreinilegt og lítt íhugad, ad eg skal ekki eyda ad því mörgum ordum. Eg skal ad eins gjöra þá athugasemd, ad mótmæli höfundarins eru sprottin af misskilníngi, ad svo miklu leiti sem hann væníst, ad einfaldar kosníngar væru midur fallnar til ad glæda þjódarandann, heldur enn tvöfaldar. Þad er nefnil. adalástæda sú, sem þeir, er andmæla tvöföldum kosníngum, bera fyrir sig til ad sýna, ad einfaldar kosníngar taki hinum fram, ad þær séu betur fallnar, til ad vekja og vidhalda athygli kjósendanna, og þar med glæda þjódarandann, enn þær tvöföldu. Ad ástæda þessi sé annars í tilliti til Íslands ekki ad því verdi, sem menn svo ad seigja almennt meta hana, má sjá útlistad, og, ad eg vona, sannad í athugasemdum mínum um alþíngismálefnid, er ritadar finnast í „4 Páttum", bls. 19. Þad, sem höfundurinn í nidurlagi þessarar greinar færir til, um yfirburdi einfaldra kosnínga í tilliti til varafulltrúakosnínganna, er einneiginn þýdíngarlaust og byggt á eintómri villu; því þad er kunnugt, ad med tvöföldum kosníngarmáta géta varafulltrúakosníngarnar allt eins farid fram undir eins, og fulltrúakosníngarnar, eins og med einföldum kosníngum, hvort heldur kosníngarnar ské med því móti, ad hver kjósandi géfi eins mörgum mönnum atkvædi sitt, og kjósa skal full-

trúa og varafulltrúa edur med þeim hætti, ad fulltrúar sén kosnir fyrst, og varafulltrúar strax á eptir.

Eg álít naudsynjalaust, ad ransaka þad nákvæmlega, sem høfundurinn í greininni Lit. *C* talar um fulltrúatøluna, sem og med hverjum hætti og af hverjum þeir skuli kosnir vera, þar allt þetta er, ef þad er aunars unnt, enn gagnstædara réttum grundvallarreglum og ruglíngslegra, enn allt hitt annad. Þannig sést þad ekki, hver kjósa skuli þá 2 fulltrúa fyrir andlegu stéttina, (má vera biskupinn eigi ad gjøra þad fyrir hønd konúngsins?), edur hvernig kosníng þessi skuli fara fram. Eins er þad ótiltekid, af hverjum eda hvernig þeir 2 fulltrúar fyrir kaupmannsstéttina skuli kjósast, sem og fulltrúinn fyrir skólann og kénnslustiptunina, edur í hvada sambandi „rád" háskólans og skólanna stjórnarráds eigi ad standa vid kosníngarfrelsi þess eda þeirra, er kjósa skyldu. En ætti ad benda á alla þá endaleysu, er leida mundi af því, er høfundurinn hefir látid í ljósi um þetta efni, mundi því starfi seint lokid.

Atridi høfundarins Lit. *D* sýnir nógsamlega, ad hann einúngis af „lausri" — og eg bæti vid, afbakadri — „søgusøgn" hefir þekkt frumvarp Reykjavíkurnefndarinnar. Nefndin hafdi stúngid upp á, ad dønskum mønnum ad eins, er ei væru íslendskri túngu vagsnir, skyldi vera leyst ad mæla á danska túngu, hvar med nefndin hafdi í huga, ad gjøra konúngi møgulegt, ad kvedja stiptamtmanninn til fulltrúa á alþíngi, ef hann yrdi ei konúngsfulltrúi. Høfundurinn talar þar á móti um, „ad þad sé ávidurkvæmilegt, ad stjórnin leyfi edur bjódi, ad Íslendíngar skuli tala edur halda rædur á þeirri túngu, sem hinn minnsti hluti af øllum þíngheiminum skilur", hvad ed er allt ødru máli ad gégna.

Þad, sem høfundurinn í greininni Lit. *E* hefir talad um, ad þíngid ætti ad haldast í heyranda hljódi, vottar einúngis litla umhugsun. Þeim stendur þad á litlu, innbúunum í Múlasýslunum edur í ødrum fjærlægum hérødum landsins, hvadan einginn mun nokkurn tíma byrja

ferd til Reykjavíkur, til ad hlýda á þíngstørfin, hvort dyrnar eru opnar ellegar ekki, og þíngstørfin mundu eingu ad sídur verda ævarandi leyndardómur fyrir þá, jafnvel þó dyrnar væru opnadar, ef ei væru ønnur hentugri medøl til ad láta téd størf koma fyrir almenníngs sjónir. Þad, sem þar á móti í sannleika rídur á, er ad þíngtídindin komi út á prenti, svo vel af hendi leyst, sem kostur er á, því undir því eru ad miklu leiti komin not þau og framfarir, er landsmønnum verda ad þínginu. Þar sem høfundurinn drepur hér á, ad ætíd sé rædt mest um þad, „er menn viti ekki med neinni vissu", þá er þetta stundum øldúngis satt, og hann hefir reyndar sjálfur med ritgjørd sinni komid med mjøg sennilega ástædu fyrir, ad hann hafi rétt ad mæla; en einmitt þetta sannar, ad ekki er hentugt, ad halda þíngid í heyranda hljódi, þar ed gjøra má rád fyrir, ad tilheyrendur þeir, er optast mundu vera vidstaddir, mundu verda slíkir, er af skorti vits og menntunar, sem og af því, ad þeir gætu ekki støduglega hlýdt á, hvad fram fer, ei mundu skilja einúngis eitt málefni rétt eda til hlítar, og mundu því bera út rángar søgur um þíngstørfin og málalok þau, er þar verda. Þar sem høfundurinn heldur, ad ef þíngid væri haldid í heyranda hljódi, mundi þad géfa innbúum næstu hérada tækifæri til ad benda þínginu á, hvernig menn vildu láta fara med eitt edur annad málefni, þá er hér vid athugandi, bædi ad þíngmennirnir mundu yfir høfud ei fá ad vita slíkar óskir, fyrr enn málefnunum væri ad mestu lokid, og þá svo seint, ad þíngid gæti ekkért tillit haft til þeirra, og ad óskir þær, er skyndilega vøknudu og látnar væru í ljósi, medan á þíngstørfunum stædi, mundu optast verda eins hvikular og lítt íhugadar, og þær, sem høfundurinn lætur leigulidana í austuramtinu bera fram í bréfi þessu, svo ad þíngid ætti ekki ad géfa slíkum óskum neinn gaum.

Reykjavíkurnefndin hafdi stúngid upp á, ad alþíngismennirnir feingi 3 rbd. í daglaun, og greida fyrir ferda-

kostnad eptir sanngjörnum reikníngi, hvad búid er ad samþykkja. Höfundur vor vill þar á móti í athugasemdum þeim, er hann þar um gjört hefir seinast í greininn Lit. *F*, ad þessu væri ödru vísi hagad. Fyrst heldur hann, ad alþíngismenn þeir, er búa í eda nálægt Reykjavík, eigi ekki ad fá eins mikil daglaun, og adrir fulltrúar; þad er ad skilja, ad þeir, eptir áliti höfundarins, fái annadhvort alls eingan, eda þó minni greida, enn adrir fulltrúar, fyrir kost og húsnædi, þar þad lítur svo út, sem höfundurinn vilji, ad endurgjaldid fyrir þad borgist eptir reikníngi, en ad alþíngismennirnir þar á móti fái eingin fast ákvedin daglaun; því næst fer höfundurinn mörgum ordum um, hvernig spara megi ferdakostnadinn fyrir alþíngismenn þá, er búa í 5 næstu sýslum vid Reykjavík, en vill ad ödru leiti, ad ferdakostnadurinn borgist eptir reikníngi; þá vill hann og, ad prestar, stúdentar og bændur fái, svo sem nokkurs konar greida fyrir „vinnutöf" (*lucrum cessans*), 1 rbd. 32 sk. fyrir hvern virkan dag, sem þeir eru frá heimilum sínum; enn fremur eiga, eptir áliti höfundarins, þeir menn, er konúngurinn kýs og embættislaun taka, — þad sést ekki, hvort þeir menn, er taka embættislaun, en þjódin kýs, eiga ad heyra þessum flokki til, edur ekki —, ad fá „tilhlýdilegan greida fyrir kostnad þann, er þeir mundu hafa sparad sér, ef þeir hefdu ekki mætt"; (þad getur ordid vandasamt mjög, ad semja nákvæman reikníng yfir þad); og loksins eiga þeir menn, sem eiga heima í Danmörku, en eru kvaddir eda kosnir til alþíngis, ad fá greida fyrir ferdakostnadinn, sem og fyrir kost og húsnædi, og þar ad auki borgun fyrir vinnu sína á þínginu, eins og adrir fulltrúar; (þetta hefir þó höfundurinn ekki nefnt þar, sem hann talar um greidann, er fulltrúar þessir fái); en hér ad auki eiga fulltrúar þeir, er koma frá Danmörku, „ad fá slíka þokkabót, sem þeir væru vel sæmdir af, ef ad þeir ödrum fremur gagna þínginu og landinu med viturleik þeirra". Þad var illa farid, ad höfundurinn hér vid hefir ei stúngid upp á neinu

um þad, hver skyldi meta starfa þessara fulltrúa, og eptir hvada reglum; hvernig haga skyldi borguninni þarfyrir; uppá hvern máta ákvarda skyldi téda þokkabót, sem og hver dæma skyldi um, hvenær hún géti álitist ad vera verdskuldud, eda til vonar og vara, ef þarum yrdu deildar meiníngar, hver þá skuli skéra úr málum. Þad virdist, sem høfundurinn hafi sérlegar mætur á fulltrúum þeim, er koma úr Danmørku; hann mundi því ei hafa fallist á þad breytíngaratkvædi, er laut ad því, ad einn kjørgeingisskildaginn væri sá, ad hlutadeigandi skyldi vera búinn ad dvelja samfleytt í 2 ár á Íslandi, þá hann kosinn væri. Þó eg verdi ad finna þad ótilhlýdilegt, ad tala med hædni og fyrirlitníngu um skynsamlega og hagkvæma vidleitni, ad setja alþíngid svo á stofn, ad þad verdi ei kostnadarmeira eda þúngbærara fyrir fátæka landsmenn enn naudsýn krefur, þá mundi mér samt ei þykja þad skop eiga illa vid, ad kalla þann smásmuglega og nirfilslega hátt, med hverjum høfundurinn hér vill, ad verkalaun alþíngismannanna séu ákvørdud: ad mæla út frelsid í álna- edur fiska-tali, (sbr. Frétt. frá Hrk. 1842, bls. 204).

Ad lyktum vil eg géta þess, ad Reykjavíkurnefndin hafdi stúngid uppá, ad alþíngiskostnadurinn skyldi borgast med skatti, er ei væri lagdur beinlínis á, nefnil. med því, ad leggja lítinn skatt á kaupfør þau, er kæmu til Íslands, eptir lestatølu. Høfundinum hefir þar á móti ekki þókt þad neitt ísjárverdt, ad leggja þennan skatt á lausafjártíundarhøfudstólinn, er eg þó hygg ad þeir, sem gjalda eiga lausafjártíund, muni varla kunna honum neinar þakkir fyrir, einkum ef, eins og eg vona, vísa mætti á annan vidfeldnari og sannsýnilegri máta, á hvern þeir peníngar feingist gætu, er útheimtast til ad borga alþíngiskostnadinn.

Jafnvel þó ritgjørdinni Nr. 7, er inniheldur svar frá ónefndum Íslendíngi uppá athugasemdir mínar um alþíngismálefnid, sé ad mestu nægilega svarad af dønskum rithøfundi, med ritlíngi þeim, sem útlagdur er í Fjórum þáttum, bladsídu 52—64, vil eg samt, þar eg nú eitt sinn hefi

tekist á hendur að prófa rit þau, sem út eru komin um málefni þetta, ekki láta téða ritgjörð fara leingur um án leiðbeiníngar, það því síður, sem eg þannig bæði fæ nýtt tækifæri til að réttlæta ýtarlegar þær fyrri „athugasemdir" mínar um alþíngismálið, og líka til að leiðrétta og hrekja margt það í ritgjörð þessari, er høfundur hennar hefir á flot f rið og fastlega frammfylgt.

Høfundurinn byrjar með að lýsa yfir því, að hann viti ei, hvort eg heldur hafi ætlað mér: „að færa „konúngsfulltrúanum þakkargjørðar skrá fyrir vøru þá, er „hann veitti í Hróarskéldu aðgjørðum hinnar íslendsku nefnd„ar; eða ætlað á ný að gjøra mitt sárasta til að lypta „Sisyphus-steini þeim, er valt aptur í fáng á herra Leynd„arráðinu, og eflaust mundi hafa molað hið ófimlega laga„frumvarp nefndarinnar í greipum honum, ef øðruvísi hefði „ástaðið." Án efa mælir høfundurinn hér þvert um huga sér, og meinar ekki allt það, er hann seigir. Hann veit án efa vel, að það ei hefur verið tilgángur minn, þá er eg ritaði „athugasemdirnar um alþíngismálið," að færa konúngsfulltrúanum þakklætisskrá; því þótt eg ei sé svo æfður í að semja slíkar „skrár" sem høfundurinn kann að vera, mundu „athugasemdirnar" þó hafa verið øðruvísi lagaðar, ef eg hefði haft í hyggju minni að semja þakklætisskrá. En, þessu þarf nú ei leingi að velta fyrir sér, því það er auðsjáanlega meiníng þeirrar tilvitnuðu greinar, hjá høfundinum að ámæla mér fyrir það, að jeg hefi sømu meiníngu sem konúngsfulltrúinn um ýms þau atriði, sem vikið er á í athugasemdunum, og þessvegna hefi nokkrum sinnum vitnað til ræðu hans í Hróarskéldu, um hverja høfundurinn á øðrum stað í þessari ritgjørð seigir: að svo virðist sem hún hafi fallið mér einka vel í géð. Eg vil eiginlega játa høfundinum, að eg ei einúngis hefi glaðst af því, að konúngsfulltrúinn hefur verið sømu meiníngar sem eg um þau áminnstu atriði, þar það mjøg hefur styrkt sannfæríngu mína um, að álit mitt á málefni þessu hafi rétt verið, að svo frábær stjórnarspekíngur hefur á það fallist, heldur hefur

ræda hans í alþíngismálinu einnig „fallið mér vel í geð“ af því hún var á svo góðum røkum bygð, og leit jafnt á allar síður málefnisins. Má og høfundurinn vera viss um að slíkt hið sama hefur sýnst miklum fjølda hinna skynsømustu manna af øllum stéttum hér á landi, sem mér um ræðu konúngsfulltrúans. Skyldi høfundurinn seinnameir í einhvorri ritgjørð sinni vilja nota játníngu þessa, er nú hefi eg gjørt, til að ámæla mér fyrir þrældómslunderni, „dauðann bókalærdóm“ og aðra þesskonar eiginlegleika, má hann vera viss um, að slíkt ámæli nær ei til mín eins, heldur og til þeirra mørgu, er hafa sama álit á ræðu konúngsfulltrúans, sem eg. Eptirlíkíngin sem høfundurinn dregur af Sisyphussteininum hefur tekist heldur ófimlega. Eptir fornum fræðum Grikkja hegndu undirheimagudirnir Sisyphusi með því að leggja fyrir hann þá þraut, að velta steini nokkrum uppá fjall eitt, en þetta tókst aldrei, af því steinninn var þess eðlis, að hann valt jafnóðum aptur í fáng Sisyphusi, varð honum því aldrei neitt ágeingt, og þýðir því síðan það, að velta steini Sisyphusar, hið sama, sem að vinna fyrir gýg. Þar eg nú ekki gét gjørt ráð fyrir, að høfundurinn vilji líkja sér og félagum sínum við undirheimagudina, er løgðu hegnínguna á Sisyphus, en þar á móti býst við, að høfundurinn enn þá muni viðurkénna, að konúngsfulltrúinn, einn hinn mesti løgspekíngur er nokkru sinni verið hefur á norðurløndum, standi skør hærra á vitskufjallinu, enn hann og þeir, sem í flokki eru með honum, og að hann því eigi að velta steininum upp í móti, eins og Sisyphus heitinn, svo leiðir þar af, að ef að steinn sá, er velt var yfir á konúngsfulltrúann til að sundurmola lagafrumvarp það, er íslendska nefndin hafði samið og stjórnin samþykkt, var „Sisyphussteinn“, eins og høfundurinn seigir, (hvorju eg einganveiginn vil mótmæla), þurfti eg ekki að reyna til, og því síður „gjøra mitt sárasta til“ að lypta honum; því eptir eðli sínu varð hann sjálfur að velta í fáng þeim, er vildu velta honum yfir á frumvarpið. Það vyrðist því sem það séu nokk-

urskonar kímilegar gléttur forlaganna, er þau hafa leikið svo á höfundinn, að hann þegar í byrjun ritgjörðar sinnar, þvert á móti vilja sínum, með þessari eptirlíkingu, hefur brugðið sínum eigin flokki um mikla fásinnu, og minnt hann kröptuglega á, að starfi sá, er flokkur þessi hafði tekist á hendur, væri öldúngis ónýtur og árángurslaus, eða með öðrum orðum: að hann hefði unnið fyrir gýg. Höfundurinn hefur þar á móti ei enn þá megnað að bifa þeim steini, þó hann sé lítilfjörlegur, og ekki neinn „Sisyphussteinn", er eg með „athugasemdunum" hefi velt yfir á braut þá, er hann hefur riðja viljað frumvörpum sínum til endurbótar alþíngistilskipuninni; og þó höfundurinn iðuglega hoppi í kríngum hann, spyrni við honum fæti einstökusinnum, og stundum klóri í hann með nöglunum, hefur hann samt enn þá ei náð réttum tökum á honum, og loksins neyðist hann máské til að láta steinkorn þetta kyrrt liggja.

Eptir að höfundurinn hefur sett sig í dómarasætið og þaðan hátíðlega lýst fordæmíngardómi yfir hinni íslendsku embættismannanefnd, á hvörn dóm eg síðar nokkuð gjör mun minnast, kémur hann framm með ýmsar athugasemdir, teknar af alþíngismálinu, er að hans hyggju sanna eiga ónytjúngskap nefndarmanna, og lélega meðferð hins umgétna málsins. Höfundurinn seigir fyrst, að fleiri af hinum íslendsku nefndarmönnum hafi áður géfið til kynna álit sitt um alþíngismálið, og að allir þeir hafi haft meir enn ársfrest til að kynna sér það; hvörs vegna vænta hefði mátt, að nefndarmenn hefðu til hlítar hugsað málið, og komið því fyrir sig til fullnustu. Hinn áður áminnsti danski rithöfundur hefur sýnt, að sá fyrri hluti af þessari athugagrein höfundarins er ekki rétthermdur, og að hinn seinni hluti hennar sé lítt merkur, hvörsvegna eg gét skírskotað þar til (sbr. „Fjóra þætti", bls. 54—55). Að sönnu hefur höfundurinn í ritgjörð þeirri, er síðar mun verða áminnst, afsakað sig með orðunum: „ef til vill", enn þessi orð eiga einúngis að heimfærast til orðanna: „optar enn einusinni", (4 þ. bls. 30), svo að þessi afbötun hans er

einkismetandi. Høfundurinn seigir enn fremur, ad gildasta ástæda hefdi verid til ad vænta, ad nefndarmenn hefdu safn=ad sér øllum þeim einstøku atridum og skírteinum, er á einhvorn hátt máttu hafa áhrifur á þetta mál, og eink=um á løgum kosníngarlaganna; og ad þeir hefdi hagnýtt allar þær greinir, sem fødurlandsvinir þeir, er af hjarta vildu styrkja gagn landsins, høfdu komid framm med mál=inu til upplýsíngar. Høfundurinn seigir hér nokkurnveig=inn berlega þad, hvorju øll ritgjørd hans þar ad auki lýs=ir, ad hann meinar, ad hinir íslendsku nefndarmenn hafi geingid til starfa sinna, og sérílagi til þess ad semja frum=varpid til alþíngislaganna, án eptirþánka, og án þess ad nota þau áhøld er faung vorn á, til ad komast nidur í málinu, og velta því til fullnustu fyrir sér. En þad er hvorttveggja, ad høfundurinn mun vera því lítt kunnugur, hvad nefndarmenn hafa gjørt eda forsómad í tédu efni, enda hefur hann ei heldur neinn annann kvarda til ad mæla á, og meta gjørdir nefndarmanna, enn sína eigin velþóknun eda misþóknun. En þennann mælikvarda verdum vér ad álíta mjøg svo óáreidanlegann, medan høfundurinn ei hefur sann=ad, ad hann sé hæfur til ad gilda eins og ritníng sú, er ei þurfi annad enn vitna inn í, til ad gjøra enda á allri þrætu.

Þar sem høfundurinn nefnir „greinir málinu til upp=lýsíngar", og ámælir íslendsku nefndinni fyrir ad hafa látid þær ónotadar, þá meinar hann þar med án efa til þeirra ritgjørda, er hér ad framan hafa skodadar verid; en jafnvel þó eg fúslega vilji trúa því, ad høfundur þess=arar ritgjørdar hafi mikla ást á fødurlandinu, og áhuga á øllu því er efla meigi þess hag, og jafnvel þó eg viti ad íslendska nefndin, hefdi hún fylgt þeim bendíngum sem géfn=ar eru í þessum ritgjørdum, mundi hafa áunnid sér lof og samsinníngu høfundarins, í stad þess ad hún nú má þola af honum brígsl og ámæli, vanvyrdu og þykkjuyrdi: tel eg þad þó víst, ad þær athugasemdir, sem hér ad framan eru gjørdar vid áminnstar ritgjørdir, fái þad fullsannad, ad

ritgjørdir þessar eingar slíkar „greinir" hafi inni ad halda, sem notandi hafi verid, og ad nefndin því hefdi breytt ílla og óforsjállega, ef hún hefdi notad þær.

Høfundurinn skírskotar til nokkurra ordatiltækja, sem eg hefi brúkad — hvør þó ad mestu eru rifin út úr því sambandi, sem þau standa í hjá mér — til ad sanna þar med, ad eg hafi játad, ad frumvarp hinnar íslendsku nefndar, ad svo miklu leiti kosníngarløgin snertir, hafi øldúngis mistekist og sé ónotandi. En, ádur enn eg nákvæmar ransaka hvad høfundurinn seigir hér um, verd eg fyrifram ad gjora þá athugasemd, sem eg óska menn nákvæmlega athugi og haldi sér hugfastri, medan þeir lesa ritgjørdirnar med og mót um þetta málefni. Jeg hefi ad sønnu bædi í frumvarpi því, er eg sendi Cancellíinu, og prentad finnst í fréttum frá Hróarskéldu 1842, og í „athugasemdunum" í fjórum Páttum, látid í ljósi, ad mér vyrdtist kosníngarløg þau, er Reykjavíkur nefndin hefdi uppástúngid, vera miklum anmørkum bundin, og ad þau, hvørnig sem þeim væri breytt i hendi sér, aldrei mundu géta ordid vel hentug fyrir Ísland. En þessir anmarkar vid hin umgétnu kosníngarløg eiga sér, eptir minni sannfæríngu, einúngis stad, þá þau eru skodud í samanburdi vid þau kosníngarløg med tvøføldum kosníngum, sem eg hefi uppástúngid, hvorja kosníngaradferd eg álít betri og hentugri fyrir Ísland enn einfaldar kosníngar. Par á móti meina eg, og hefi ætíd meint, ad eigi menn ad halda einføldum kosníngum, sé fasteign sú eini rétti kosníngar- og kjør-stofn, og taki nikid fram uppástúngum þeim, er annadhvort vilja byggja kosníngarrétt á jardarábúd eda á lausafjártíund. Pad var ei án nákvæmrar yfirvegunar ad Reykjavíkurnefndin rédi af ad mæla framm med kosníngarløgum þeim, sem frumvarp hennar inniheldur, af því þau, en þótt tøluverdum vankvædum bundin, þó vóru hin hentugustu, er finna mátti, nær kosníngar skyldu vera einfaldar; enda hefir, hvorki eg, né nokkur annar nefndarmanna, nokkru sinni breytt,

meiníngu sinni um yfirburdi þess kosníngarlaga grundvall-ar, er vér mæltum framm med, yfir hvoru helst annann, er á skyldi byggja einfaldar kosníngar. Höfundurinn hefur því einga ástædu til ad leida af minum ordum um ófullkom-legleika þeirra nú gyldandi kosníngarlaga þá ályktun, ad Reykjavíkurnefndin hafi ei brúkad eptirþánka edur yfirvegun í atgjördum sínum, ellegar ad eg hafi látid í ljósi óstödug-leika í meiníngum minum, edur ad frumvarp nefndarinnar hafi verid ófullkomid í samanburdi vid þá uppástúngu, ed-ur réttara uppástúngur (því höfundurinn reikar án efa í nokkurskonar villu millum fleiri), sem hann mælir framm med, hvorjar eg, eins og ádur er ávikid, álít ei einasta óhentugar heldur og jafnvel ei med öllu hættulausar. Flestir þeirra manna, sem taka hlut í kosníngum, þá fasteign er kosníngarstofn, verda þó medal landsins efnabestu dugnadarmanna, bædi af embættis manna — en einkum af bænda stétt. Þessi kosníngarstofn fullnægir þess vegna því, er menn ætlast til af þeim útvortis kénnimerkjum, er kallast eigna-kjörkostir (reelle *Qvalificationer*); og jafnvel þó eg einganveiginn neiti því, ad tilgánginum ei verdi fullkomlega náð med þessum kjörstofni, er beinir mörgum þar til lítt hæfum veg til kosnínganna, med-an margir allvel hæfir þar frá útilokast, kémur þó kjörstofn þessi, tilgánginum miklu nær, en nokkur þeirra, sem höfundurinn hefur mælt framm med. Jardarábúdar-edur byggíngar-stofninn, er eg svo vil nefna, til ad fara stutt yfir, hefi eg ádur nægilega umtalad í „athuga-semdum" mínum, og þar sýnt, ad hann med öllu er ó-brúkandi. Vid þad, sem eg hefi um tédann stofn rædt, vil eg hér eintíngis bæta því, ad vída á Íslandi eru margir þeir leiguliðar, er búa á 10 hndr. og jafnvel meiru, svo fátækir, ad þeir ei tíunda meira enn 1 hndr. í lausa-fé, og verdur því opt ad leggja þeim af sveit. Ad láta slíka vesalínga taka þátt í kosníngum og um leid svipta jardeigendurnar kosníngarrétti og kjörgeingi, er svo bersýni-lega fjarstædt öllum sanni, ad eg ekki þarf ad eyda fleiri

ordum til ad lýsa því. Pad er því øldúngis ljóst, ad þessi kjørstofn er ei þess verdur, ad honum sé nokkur gaumur géfinn í samanburdi vid fasteignar-kjørstofninn. Lausafjártíundar-kjørstofninn, sérílagi þegar lítil tíundarhæd, t. a. m. 5 hndr., eda minna, útheimtist til ad vera kosníngarfær, hefur ad sønnu ekki þann anmarka til ad bera, ad hann útiloki hæfilega og duglega menn frá kosníngum, enn hann hefur þar á móti annann enn nú verri og hættulegri ókost, ad allt of margir af flokki kosníngarmanna, verda þá einfaldir og fákjænir menn, er ei vita ad láta atkvædi sín koma þar nidur sem best mundi henta. Slíkum kjørstofni gat Reykjavíkurnefndin því ómøgulega mælt framm med, eda tekid hann framm yfir fasteignar kjørstofninn. Pad er því óyggjandi, ad á medan menn ei vilja taka upp tvøfaldar kosníngar, edur af øllum kosníngarfærum, útvelja kjørmenn, er aptur skulu kjósa alþingismennina, verdur einginn betri grundvøllur fundinn kosníngarréttinum hér í landi, en fasteignar kjørstofninn.

Eptirfylgjandi tabla sýnir hvad margir af búandi mønnum í Árness-sýslu mundu verda kosníngarfærir eptir hvorjum helst þeim kosníngarstofni, er ad minni hyggju á eda gétur til umtals komist.

| | Búendur. | Þar af embættismenn. | Kjósendur eptir 10 hndr. fasteign. | Ditto eptir 10 hndr. i lausafé. | Ditto eptir 5 hndr. i lausafé. | Kjörmenn 10 hndr. hvor. | Hreppstjór. Sáttasemjarar. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Villingaholts Hreppur | 50 | 1 | 9 | 14 | 39 | 4 | 2 |
| Hraungérdis —— | 44 | 2 | 8 | 21 | 39 | 4 | 2 |
| Sandvíkur —— | 43 | 1 | 4 | 9 | 22 | 2 | 2 |
| Gaulverjabæar —— | 56 | 1 | 3 | 4 | 30 | 3 | 2 |
| Stokkseyrar —— | 96 | " | 8 | 6 | 22 | 2 | 3 |
| Selvogs —— | 18 | 1 | " | 1 | 6 | 1 | 1 |
| Ölvess —— | 74 | 1 | 11 | 20 | 48 | 5 | 4 |
| Þíngvalla —— | 29 | 2 | 5 | 10 | 26 | 3 | 2 |
| Grímsness —— | 76 | 3 | 18 | 30 | 56 | 6 | 3 |
| Biskupstúngna —— | 78 | 1 | 17 | 50 | 72 | 7 | 5 |
| Hrunamanna —— | 58 | 2 | 11 | 31 | 56 | 6 | 4 |
| Gnúpverja —— | 32 | 1 | 3 | 15 | 30 | 3 | 3 |
| Skeida —— | 39 | 1 | 10 | 20 | 37 | 4 | 2 |
| | 693 | 17 | 107 | 239 | 483 | 50 | 35 |

Við töblu þessa vil eg gjöra eptirfylgjandi athugasemdir.

a) Af þeim 17 embættismönnum, sem 2ar dálkur umgétur, eru 8 ekki kosníngarfærir eptir hinum nú gildandi kosníngarlögum; þar af er þó 1 aptur kosníngarfær í Borgarfjarðarsýslu, og kjörgeingur í suðuramtinu.

b) Af hreppstjórunum og sáttagjörðamönnum í 7da dálki eru 9 ekki kosníngarfærir, og eru þeir þó þar til allvel hæfir sakir vitsmuna og annara kosta. Í þessum dálki eru líka tilfærðir þeir, er þessar sýslanir áður á hendi haft hafa, þó nú hafi þeir sagt af sér.

c) Af þeim 107 mönnum, er kosníngarrétt hafa eptir nú gildandi lögum, eru því 35 embættismenn, hreppstjórar og sáttagjörðamenn, og allir vel hæfir til að vera kjörmenn. Hinir 72 eru bændur, og meir enn helmíngur þeirra hinir skynsömustu og dugnaðarmestu, sem til eru í sýslunni.

d) Ef 10 hndr. í lausafé væri kjörstofn, mundu 50 af þeim mönnum, hvörra gétið er í 2um og 7da dálki verða kosníngarfærir; af hinum öðrum, sem kosníngarfærir eru eptir þessum kjörstofni, mundi ei mikið meir enn $\frac{1}{4}$ hluti vera vel hæfur til að taka þátt í einföldum kosníngum; og þannig mundi meir enn helmíngur af öllum þessum kosníngarmanna flokki vera lítt fær um af eigin greind og án annara leiðslu, að leysa vel af hendi þessa sýslan, sem þó er mjög áríðandi fyrir landsins heill og velferð.

e) Ef 5 hndr. í lausafé væri kosníngarstofn, mundi öll þörf á að vinsa þannig úr öllum kosníngar manna flokkinum, með því að velja úr honum beztu mennina fyrir kjörmenn, að $\frac{4}{5}$ partar hans tæki ei beinlínis þátt í alþíngis manna kosníngu.

Þareð líkt mun standa á víðast á Íslandi eins og hér í Árnessýslu, mun flestum lesendum af þeim hér að ofan tilgreindu atriðum verða ljóst, hvorsvegna eg hefi þá sannfæríngu, að þeim núgildandi kosníngarlögum ekki eigi að breyta, nema því að eins stjórnin leifi og þjóðin

æski, ad tvøfaldar kosníngar, eins og eg hefi uppástúngid, verdi innleiddar í þeirra stad.

Høfundurinn mun varla mótmæla mér, ad svo miklu leiti eg hefi látid í ljósi, ad kosníngar alþíngismanna væru mjøg árídandi, og ad kjósendurnir, eigi þær vel ad takast, verdi ad vera vel ad sér, hygguir og vel viti bornir; en vera má hann mótmæli mér, ad svo miklu leiti eg hefi látid á mér heyra, ad meiri hluti bænda hér á landi ei hefdu til ad bera þá eiginlegleika, ad þeir allir til samans, án þess vinsad væri úr þeim, væru nógu greindir, mentadir og sjálffærir kjósendur; já, ef høfundurinn fer ad, eins og híngad til, er ei ørvænt, ad hann bregdi mér um, ad eg án orsaka hafi gjørt minna úr vitsmunum og þekkingu landa minna, en vera ber. Þad leidir af edli þessa málefnis ad þegar þad er þannig vaxid, gétur hvorugur, hvorki eg né høfundurinn, fært fullgyldar sønnur á sitt mál. En auk þess, ad mín sannfæríng er bygd á lángri reynslu og nákvæmri þekkíngu á líkamlegu og andlegu ástandi hins íslendska almúga, samt á samsinníngu margra reyndra og hygginna manna, vil eg bidja hvorn óhlutdrægann mann ad hyggja ad, hvort þad sé møgulegt, ad allur þorri almúgans á Íslandi, þar sem Almúgaskóla vantar med øllu, géti verid mjøg vel mentadur edur vel ad sér, og hvort þad ei miklu fremur sæti øllum líkindum, ad þad einúngis séu nokkrir støkum gáfum gæddir almúgamenn, sem med ástundun og námfýsi hafa nád þeirri mentun og þekkíngu, er þeir eiga hafa til ad bera, sem vel eru hæfir til, og bera gott skyn á ad velja rétt þjódar fulltrúa. Þar ed nú kosníngarnar þannig eru mjøg mikils verdar og áridandi, þared hjá kjósendum útheimtist meiri þekkíng og mentun, enn meiri hluti hins íslendska almúga eptir ástandi landsins gétur haft til ad bera, og þar ei gétur á mis vid þad farid, ad høfundurinn óski þess, ad skynsemi og hyggindi, þekkíng og mentan rádi mestu um vid kosníngarnar, svo er þad óskiljanlegt, med hvílíkri vangá og kjæruleysi hann vill ofurselja kosníngarnar í hendur

vankunnandi alþýdu, edur láta þær vera komnar undir því hvada verkun einber tilviljan edur leidsla þeirra manna, er æsa vilja almúgann eptir sérþótta sínum, hafa kann á lýdsins ályktanir, og hvada þykkju hann lætur í ljósi vid þá menn, er med frumvørpum sínum hafa viljad koma í veg fyrir ad þjódinni yrdi steypt í slík vandrædi. Høfundinum er þó án efa fullkunnugt, ad þad vald í borgaralegum efnum, hvort þad er mikid eda lítid, sem fulltrúa-stjórnarformid gefur einni þjód, ad sídsetrinu lendir hjá kjósendunum, og sérílagi hjá meiri hluta þeirra, er ráda med atkvædafjølda. Þess vegna lyktadi einn vídfrægur enskur stjórnarvitríngur eitt sinn rædu sína med því ad seigja: ad hann ei svo mjøg hefdi snúid rædu sinni til þeirra nálægu þjódarfulltrúa í málstofunni — þar hann vissi ad þeir mundu lítid skipast vid tølu hans — sem til næsta árs kjósenda. Þess hefur verid getid, ad þar ed høfdíngjar og ríkismenn einir ráda kosníngum í Frakklandi, sé þjódfulltrúa samkoman, sem af slíkum mønnum valinn er, lítt fús á ad efla almúgans upplýsíngu, (sbr. Otto Müller om Valgret og Valgbarhed p. 29). Eg vil bidja høfundinn og þá er med honum mæla, ad yfirvega, hvort þad ei ad sínu leiti eins gæti skéd, ef þess medþyrfti ad leggja almennann skatt á landid, til ad standa þann kostnad er endurbót skólans útheimta kynni, ad flestir af þeim midur mentudu bændum á Íslandi, er ei fá rétt metid slíkrar endurbótar naudsyn og nytsemi, helst mundu kjósa þá fulltrúa er þeir vissu ad móti mundu mæla slíkum skatti. Hinn nýnefndi skarpvitri og frjálslundadi rithøfundur, er tølu vert vill rýmka um kosníngarréttinn í Danmørku, tekur þessvegna optlega framm í hinu ofannefnda riti sínu (t. d. p. 12—13, 15 og fl.), ad hann vilji ei svo rýmka kosníngar, ad „almúginn" — „hinn mikli múgi alþýdunnar" — „skríllinn", nái ad taka þátt í þeim, af því hann er ei til þess hæfur, heldur „medalstéttin" „hin upplýsta og efnada medalstétt". Hid nefnda rit sýnir einnig, ad eins og á Frakklandi offrelsismennirnir

(Ultraliberale) og Karlsmennirnir, (er unna þjóðkúgun) mætast í því, að hvorutveggju vilja láta kosníngarréttinn ná til allra — í von um að géta leidt múgann eptir vild sinni — þannig hafa þeir kjænu ensku stórhøfdíngjar vidhaldið tækifærinu til að hafa þau fornu áhrif á kosníngarnar, með því að fá kosníngarréttinn þannig rýmkaðann, að hann nædi til þeirra svonefndu „freemen", og „tenants at will" það er leiguliða, er seigja má upp nær er vill, því þessara atkvædi géta høfdíngjarnir jafnan keypt með peníngum. Mjøg mikil rýmkan kosníngarréttarins er þess vegna ei ætíð vel fallinn til að efla hið sanna frelsi.

Eptir þennann útúrdúr, kém eg nú aptur til ritgjørðar høfundarins, og skal eg, í athugasemdum mínum við hana, leitast við að fordast þær þráklifanir, er svo tíðum hittast hjá høfundinum, þegar hann kémur framm með beiskyrdi sín við íslendsku nefndina, eins og þegar hann t. a. m. seigir (4. þættir, bls. 31), að þess hefdi verið að vænta að nefndin „hefdi að minnsta kosti tekið fyrirheit Hans Hátignar konúngsins skynsamlega, samkvæmt konúngsins skýlausum vilja, og á þann hátt, er helst mátti verða landinu til sannrar nytsemdar" og síðan strax á eptir í sømu ritgjørð, (bls. 35—36), aptur ítrekar: „að þess hefdi verið að vænta, að nefndin hefdi ekki misskilið skýlaus orð konúngs í allrahærstum úrskurði 20. Maím. 1840, heldur þýdt þau á þann hátt, er edlilegur var, og landinu til sannrar nytsemdar", án þess það sé uppá nokkurn máta bendt til, að slíkt þrástagl sé skéð með vilja og vitund.

Í þeirri að framan umgétnu grein hjá mér, er eg en nú að øllu leiti kannast við, að það kosníngarløgmál, er Reykjavíkurnefndin stakk uppá „aldrei géti orðið hagkvæmt landinu, hvernig sem reynt væri að laga það í hendi sér", hefur høfundurinn, eg veit ei gjørla af hverri orsøk, tvisvarsinnum (nl. 4 þ. bls. 31 og 42), audkénnt orðið, „hvernig" með því að láta prenta það með skélfilega stóru og feitu letri. Jeg skal nú gjøra nákvæmar

grein fyrir, hvað eg hefi meint með orðum þessum, svo að þau ei framar verði rángþýdd. Jeg hefi þóktst fullviss um, og sú er enn þá mín sannfæring, að á meðan menn halda einføldum kosníngum, munu eingar smábreytíngar í hendi sér (Modificationer) géta gjørt það kosnínga løgmál, er íslendska nefndin stakk upp á, hentugra eður betur fallið enn það er, hvar á móti þær „breytingar í hendi sér", á því sem høfundurinn og aðrir hafa komið upp með, munu gjøra það enn nú óhentugra og verr tilfallið, heldur enn það nú er. Þar á móti hefi eg ávalt meint, og meina enn þá, að fullkomin umsteypíng kosníngaraðferðarinnar — sem er allt annað enn „breytíng í hendi sér" — eður upptekníng tvøfaldra kosnínga, í stað einfaldra, í þessu efni einúngis muni leiða menn til hins rétta takmarks. Í 4. þáttum, bls. 31, seigir høfundurinn, að eg hafi kallað grundvøll þann, með øllu óhæfan, hvernig sem með er farið". Þetta er øldúngis ósatt; því þessi, eður eins þýðandi orða tiltæki, hefi eg aldrei brúkað; og bls. 42, kémst høfundurinn svo að orði, sem eg hefði talið „kjørstofn nefndarinnar vera hinn óskynsamlegasta og óhaganlegasta sem verið géti", og vitnar til Berlínga tíðinda Nr. 152, og 4. þátta, bls. 31 Hér eru orð mín øldúngis rángfærð. Í því tilvitnaða Nr. af B. T. hefi eg þar á móti einúngis sagt, að tilgángur seinna frumvarps míns hafi einnig verið: „að finna haganlegri og yfirgrips meiri[16] kjørstofn enn þann, er nefndin hafði byggt á kosníngarløg sín". Sérhvorjum, er rétt vill álíta, mun hér vera í augum uppi, sá mikli mismunur, sem er á milli meininganna í mínum orðum og høfundarins. Þar eð høfundurinn er landsmaður minn, þykir mér það illa farið, að hann skuli hafa gétað feingið það af sér, að rángfæra þannig orð mín.

---

[16]) Í frumriti mínu á dønsku stóð: „mindre eensidig"; þetta útleggur høfundurinn 4. þ. bls. 20, með orðinu „skynsamlegri". En þetta er hér rángt, því orðið: „yfirgripsmeiri" bendir einmidt til þess, er eg með þeim áminstu dønsku orðum miðaði til.

Höfundurinn gétur þess á einum stað í hinni dönsku ritgjörð sinni (í íslendsku útleggíngunni í 4. þ. er orðunum öðruvísi fyrir komið), að eg „nú" nefnilega, í „athugasemdunum" móti hverjum ritgjörð hans er stílud, hafi lýst því, að eg væri „aðalhöfundur" til frumvarps nefndarinnar. Jeg veit ei, hvað höfundurinn hefur viljað láta vera fólgið í þessari athugasemd. En ljóst má það vera hverjum einum, að ekkért rétt tilfundið tilefni var til þess að gjöra hana; þar það af tídindunum frá nefndarfundunum í Reykjavík var alþýðu kunnugt, að mér hafði verið falið á hendur að semja frumvarpið til alþíngislaganna. Jeg hefi þegar hér að framan svarað því, er höfundurinn þar eptir kémur með, að nefndin í Reykjavík hafi forsómað að búa til kosnínga-yfirlit, og að kosníngalög nefndarinnar séu „tekin eins og að handa hófi", (4. þ. bls. 32). Þessar átölur, sem hverki eru eða verða sannaðar, vitna einúngis um þá litlu varúð, með hvorri höfundurinn stundum heldur því fram, er hann hvörki hefur eða gétur haft nokkra fullkomna vitneskju um. Jeg gét sagt höfundinum það með sanni, að öll þau atriði, sem eg hér að framan hefi bendt til, í tilliti til Árnessýslu, vóru mér eins kunnug árið 1841, sem þau eru nú.

Höfundurinn seigir enn fremur: „með dæmi þessu" — nl. að á öllu austurlandi sé einginn leiguliði, er búi á 20 hndr., og í hinum hlutum landsins fáir, er svo mörg hundruð hafi til ábúðar — „ætlar kammerráðið nú að hrinda breytingar uppástúngu Gríms amtmanns Jónssonar og Finns etatsráðs Magnússonar í Hróarskéldu, en gjætir þess ekki, að það kollvarpar um leið miklu framar hinu fyrra frumvarpi nefndarinnar. Og hvaðan er nú ástæða þessi tekin? einmidt úr bréfi hinna úngu Íslendínga til þeirra Balthazar Kristensens og hinna íslendsku fulltrúa í Hróarskéldu, því áður enn þeir bendtu til þessa, hafði eingin hinna virðulegu embættismanna gjætt þess, hvorsu gagnkunnugir sem þeir eru um hag manna á sérhvorjum stað á landinu, að því er Herra kammerráðið hefur fullvissað

um, og má þó svo að orði kveða, að fasteignar kjörstofninn standi og falli með þessu". Í þessum fáu orðum hefur höfundinum tekist að hauga saman miklum ósannindum. Það „dæmi" er eg hafði komið með, kollvarpaði að sönnu öldúngis breytíngar uppástúngu hinna íslendsku fulltrúa í Hróarskeldu; en það er með öllu ránghermt, að það kollvarpi frumvarpi nefndarinnar; og enn þá fjarstæðara er það, að það kollvarpi því „miklu framar", enn breytíngaruppástúngunni. Uppástúnga þessi miðaði til, eptir þeirri í sjálfri sér mjög sennilegu útskíríngu, sem þar yfir var gjörð af höfundi hennar, að svipta jarðeigendurnar kosníngarréttinum, en veita hann aptur jarðar ábúendunum. Eptir því mundi nú meigin- og aðal-hluti kosníngarréttarins hafa lendt hjá ábúendunum, enda eigandanna kosníngarréttur hefði orðið nokkurskonar hendíngar og vara-réttindi, og þá svo var ástadt, var dæmi það, er eg hafði tiltekið, nóg til að kollvarpa breytíngar uppástúngunni. Eptir nefndarinnar frumvarpi var meigin- og aðal-réttur til kosnínga veittur jarðeigendunum, hvar á móti kosníngarréttur festubænda var af henni álitin minna umvarðandi, þar vart eru til aðrir festubændur á Íslandi, enn á konúngsjörðum, og af þessum aptur ei allfáir, lítt hæfir til að eiga þátt í einföldum kosníngum [17]. Það er því öldúngis ránghermt, að það af mér tiltekna „dæmi" kollvarpi

[17]) Hvað fáir lífsfestubændur taki þátt í kosníngum sýna kosníngarskrár þær, sem nú er búið að semja fyrir suðuramtið. Í Árness- og Borgarfjarðar-sýslu eru eingir lífsfestu bændur. Í Rángárvallasýslu er 1 lífsfestubóndi, sem á kosníngarrétt, og þar eru vart fleiri þess konar bændur. Í Gullbríngu- og Kjósar-sýslum, eru 4 lífsfestubændur kosníngarfærir, og þar er 1 sem á 2 jarðir, og er því, sem jarðeigandi, bæði kjörgeingur og kosníngarfær, er sýnir hvað opt það ber við á Íslandi, að þeir, sem sjálfir eiga jarðir, samt eru annara leiguliðar. Í Skaptafellssýslum, hvar konúngur á jarðir margar, eru þar á mót 6 til 8 lífsfestubændur kosníngarfærir, af hverjum þó einn á 16 hundruð í jörð.

nefndarinnar frumvarpi; og enn þá fjarstædara er það, að „fasteignarkjörstofninn", eins og höfundurinn seigir, í minnsta máta kollvarpist af því. Það kémur þvert á móti þessum kjörstofni ekkért við. Þar á móti mætti heldur seigja, að jarðarábúðar-stofnin, eður kosníngarréttur festubændanna, að nokkru leiti kollvarpaðist þar við; en slíkt er einmidt það sem eg hefi tilbendt, og þar að auki er það, eins og áður er ávikið, minna umvarðandi. Eins ósönn er sú söguságn höfundarins, að eg hafi tekið þessa röksemd úr bréfunum til Kristensens, málaflutníngsmanns, og til hinna íslendsku fulltrúa í Hróarskéldu. Bréfið til hinna síðar nefndu þekkti eg ekki, þegar eg skrifaði „athugasemdir" mínar, og í bréfið til Kristensens þurfti eg ekki að sækja hana; því eg vissi hvað jarðardýrleika leið á austurlandi fyrir meir enn 30 árum, og það áður enn eg varð þar sýslumaður. Eg hefi einnig fyrir laungu í embættisbréfum bendt til þess hvað jarðir væru lágt metnar til hundraðatals í Múlasýslunum, og þar á meðal í einu, um skattgjaldið á Íslandi, rituðu árið 1832, og í öðru, rituðu nokkum árum fyrri, um innbyrðis skyldur og réttindi landsdrottna og leigulida á Íslandi Í öðru þessara bréfa hafði eg líka bendt til þess, að þetta hið lága mat jarðanna fyrir austan, hlyti að nokkru leiti að vera tilkomið á seinni tímum; því í opinberum skjölum og áreiðanlegum, sem ei eru meir enn 170 ára gömul, eru ýmsar jarðir eystra, sem nú eru 12 hndr., tilgreindar með 20 hndr. dýrleika, og nokkrar, sem nú eru 6 hndr. taldar 10 hndr. til tíundar og afgjalds. En nú vil eg géta þess, að í því fyrsta frumvarpi, er eg las upp í Reykjavíkurnefndinni, hafði eg stúngið upp á því, að kjörstofnin skyldi vera hinn sami fyrir festubændur og jarðeigendur, nl. 10 hndr.; en þessu var breytt, þá einn af nefndar mönnum gjörði þá athugasemd, á hvorja fleiri þegar féllust, að þá mundu allt of margir fátækir og fákunnaði leigulidar verða kosníngarfærir og kjörgeingir; og þar eg bæði varð að viðurkénna að í þessu væri mikið hæft, og líka vissi, að einúngis fáeinir —

varla fleiri enn 4 eda 5 — af festubændunum á Skridu klausturs jørdunum eystra, mundu vid breytínguna missa kosníngarréttinn, fann eg eingan veigin hlýda, ad standa fast á, eda mæla leingi framm med þessari minni fyrstu uppástúngu.

Eg vil hér aptur fúslega játa høfundinum, (ádur hefi eg gjørt þad í „4 þáttum"), ad kosníngarløg þau, er Reykjavíkurnefndin stakk upp á, ei eru løgud fyrir Vestmannaeyar. En í almennilegu lagafrumvarpi, er gylda átti fyrir allt landid, vard ei haft tillit til nefndra eya, sem med mørgu móti eru frá brugdnar øllum ødrum hérudum landsins. Þad mun því án efa, hvornig sem fer, verda naudsýnlegt ad semja sérstakar reglur og ákvardanir um kosníngarnar í eyum þessum. Eg meina líka ad ef Ísland nokkru sinni, eptir minni uppástúngu, skyldi fá tvøfaldar kosníngar, mættu kosníngarnar þó vel vera einfaldar í svo litlum kjørþíngum sem Vestmannaeyum og Reykjavík, þar sem kosníngarmenn eru fáir, og hvar þeir þar ad auki, hvad Reykjavík snertir, ad líkindum eru betur ad sér, enn kosníngarmenn yfir høfud í landsins stærri kjørþíngum.

Høfundurinn hefur øldúngis misskilid og rángfært þad sem eg hefi drepid á um heilsufar mitt á Reykjavíkurfundinum 1842. Eg hefi einganveigin gétid þess í því skyni, ad afsaka þar med hvornig geingid var frá alþíngismálinu (því eg hefi aldrei verid óánægdur med frágánginn á þessu máli í því snidi, sem mønnum kom ásamt um ad velja því); en eg hefi minnst á þetta atvik — ásamt ødrum fleirum — til ad gjøra þad skiljanlegt, vegna hvørs eg ekki, medan á fundinum stód, reyndi til ad semja kosníngarlaga frumvarp, byggt á tvøføldum kosníngum, þar ed eg þegar, medan á fundinum stód, en þótt fyrst undir lok hans, þegar frumvarp nefndarinnar var nærri fullsamid, var ordinn sannfærdur um, ad þessi kosníngarmáti mundi verda hentugri fyrir Ísland, en sá, sem nefndin hafdi upp á stúngid. Annars hefur medferd alþíngismálsins hjá þeim réttu dómendum, er vit hafa á ad meta þad, feingid svo gódan

vitnisburd (sbr. rædur kouúngsfulltrúans í Hróarskéldu fréttum 1842), ad eg þess vegna ekki þurfti ad grípa til þeirra úrræda, sem høfundurinn seigir, ad úngir menn, er med litilli heppni nýlega hafa afloкid lærdómsprófi, hafi ord á sér fyrir ad nota, þad nl., ad kénna heilsubresti um vanheppni sína. Høfundurinn þarf ei heldur ad minna mig á, ad eg hafi haft níu embættisbrædur í nefndinni; því eins og nefndarmenn yfirhøfud studdu hvør annan í størfum sínum, þannig vidurkénni eg sérílagi med þakklæti þá adstod, er hinir nefndarmennirnir veittu mér, medan eg starfadi ad þeim málefnum, er mér vóru á hendur falin.

Þad gétur leigid mér í léttu rúmi, hvort høfundurinn álítur endirskodun Jónsbókarlaga hafa vardad mig nokkru, edur ekki, þar eg ekki veit hve ríkt hann vill eptir því sé geingid, ad af hendi séu leyst þau skyldu verk, er menn hafa undirgeingist; en þar eg þegar árid 1839 hafdi tekist starf þetta á hendur, gat eg ekki látid mig þad eingu varda, án þess ad vanrækja skyldu mína. Þar ed høfundurinn hefur fundid, ad eg á einum stad hafi sagt: ad ástandid í Danmørku sé „í mørgu tilliti frábrugdid", (grundforskjellige er ordid, sem eg hafdi brúkad í danska frumritinu) frá því sem er á Íslandi, svo leidir hann þar út af, med tilhjálp sinnar makalausu hugsunarfrædi, opinbera játníngu um, ad Reykjavíkurnefndinni hafi mistekist, ad undirstada („Grundvolden" er þad ord sem høfundurinnbrúkar í danska frumriti sínu) undir frumvarpi hennar, sé skøkk, og samsvari ekki høgum Íslands. Eg veit í sannleika ekki, eptir hvada ályktunarreglu høfundurinn hér gétur leidt þá svo nefndu „játníngu" út af ordum þeim, sem eg hefi brúkad. Eg held þad sé einúngis þad, ad bókstafirnir eru þeir sømu í fyrsta hluta ordanna: „grundforskjellige", sem eg hefi brúkad í frumriti minu, og „Grundvold", sem høfundurinn brúkar í sínu frumriti, er hann hér stydur sig vid. Því þad leidir ei naudsýnlega af því, ad tvø lønd eru „í mørgu tilliti" mismunandi hvort frá ødru, ad undirstadan undir þjódfulltrúa stiptun í hvorju þeirra fyrir sig, þurfi ad vera hvor annari ólík, og þó yrdi

þetta ad vera ef höfundarins álуktunarmáti ætti ad géta verid réttur; því menn géta einúngis réttilega álуktad frá því sem nauðsýnlega hlýtur ad vera, til þess, sem virkilega er (*a necesse-esse ad esse*) —; hvar á móti þad bædi gétur verid og virkilega opt er svo, ad lönd, sem „í mörgu tilliti" eru ólík hvört ödru, hafa bуggt stiptanir þær, er minda þeirra stjórnarform, á sama grundvelli. Ísland og Danmörk eru, eins og eg sagt hefi, „í mörgu tilliti, mjög frábrugdin hvort ödru, og þó gétur þad vel verid, ad t. d. fasteignar kjörstofnin í bádum þessum löndum sé þad áreidanlegasta útvortis kénnimerki, er ýfirhöfud fundid verdur, til þess ad kalla þar eptir þá menn til kosnínga, er trúandi sé fyrir einföldum kosníngum svo ad med öllu sé hættulaust. Í tilliti til Íslands held og jafnvel, eins og ad framan er ávikid, ad þetta virkilega sé svo. Eg fæ því ei skilid, ad höfundurinn hafi hér betra álуktunarform ad stydjast vid, en þad frá *posse ad esse*, eda frá því, sem gétur verid, til þess sem er; enn þad er þá líka sjálfsagt, ad þessi álуktunarmáti er höfundinum nógu áreidanlegur til þess, ad hann meini sér hlýda. ad veita hinum íslendsku nefndarmönnum, hædnis- og fyrirlitníngar-ord, eins og þá hann t. d. seigir, ad málaflutníngsmadur Kristensen, sem aldrei hefur í Íslandi verid, „þekki máské ekki eins marga hluti þar ad nafninu til" eins og nefndarmennirnir, samt til þess, ad fordæma nefndarinnar adgjördir, sem rammskakkar og allskonar litum hladnar. Annars hefi eg brúkad þau ord, er höfundurinn tilgreinir eptir mér, í öllu ödru sambandi, enn hjá honum. Eg hafdi gétid þess (sjá „4 þætti" bls. 18), ad í Danmörku hefdu fleiri merkir rithöfundar mælt á móti tvöföldum kosníngum. Eg þóktist hafa gilda ástædu til, ad svo miklu leiti Ísland snertir, ad mótmæla þeim röksemdum, er þeir höfdu borid fyrir sig, en eg gat þess um leid, ad eg ei findi tilhlýdilegt, ad mótmæla nefndum rithöfundum, ad svo miklu leiti Danmörku áhrærdi, af því eg ekki þóktist nógu kunnugr ástandinu þar, sem „í mörgu tilliti er frábrugdid" („grundforskjelligt") frá því, sem er á

Íslandi. Þar med meinti eg sér í lagi hvad Ísland er strjálbyggt og fólkfátt, í samanburdi vid hvad þad er stórt um sig, hvort atridi er mjøg athugaverdt, þá spurt er um, hvort kosníngar vera eigi tvøfaldar eda einfaldar.

Þegar høfundurinn seigir, ad eingum hafi komid til hugar ad ásaka Reykjavíkurnefndina fyrir, ad hún „hafi tradkad bodi hátignarinnar med sjálfrædi og þvermódsku", þá er þad ad vísu satt, ad einginn þeirra rithøfunda, til hvorra eg meinti, hefur brúkad þau sømu ord, sem høfundurinn tilgreinir eptir mér. En þar sem nefndin hefur verid ásøkud fyrir ad hafa geingid framm hjá og misskilid konúngsins ljósu og skýlausu ord, og þýdt úrskurd hans, ekki sem vera átti, heldur svo sem nefndinni var gédfeldast, m. m., þá ætla eg mig hafa haft gilda orsøk til ad kveda svo ad ordi, sem eg hefi gjørt.

Þad er eins og nokkurskonar adaltexti, sem høfundurinn ýmislega þráklifast á, veltir fyrir sér á alla bóga og leggur út af, ad nefndin hafi verid óhlýdin konúnginum, jafnvel þó hann bæti því vid, ad þetta sé skéd, af þrælsótta, edur ofmikilli hlýdni vid stjórnarrádin. Ad høfundurinn hér aptur kémur med sitt: „bogin og bjøgud" frá Kaupmannahafnarpóstinum, hlýt eg ad telja illa farid, þó ekki nefndarinnar heldur høfundarins sjálfs vegna; því þó einn rithøfundur í eitt skipti kunni ad brúka slík ótilhlýdileg hædnisord tilefnislaust, þá má slíkt máské opt afsaka, annadhvort med únggjædis hroka eda brádrædi því, sem kémur af hastarlega uppæstum gédshræríngum, en þegar slík, adra meidandi hædnisord, án nokkurs tilefnis, aptur ítrekast, og þad þannig, ad audséd er, ad høfundurinn þykist þá gódu bættur, þá er slíkt annadhvort ljós vottur um undarlega sýsn til ad erta adra upp og nidra þeim, sem er vanvyrduleg, eda þad ber vitni um þann skort á réttri tilfinníngu fyrir því er vel sæmir, er ekki hæfir mentudum vísinda ydkurum, og ætíd má telja mikid óhapp.

Því, sem høfundurinn talar um, ad hin íslendska embættismanna nefnd hefdi átt ad taka sér leingri umhugs-

unartíma, hefur hinn danski rithöfundur nægilega svarad í 3ju ritgjørdinni í „4 Þáttum"; en þegar høfundurinn þar eptir seigir, ad einginn muni géta neitad því, „ad adgjørdir nefndarinnar hafi verid því til hnekkis, ad þíngid, er ætlad var Íslandi, yrdi skipad haganlega", þá er þetta ofhermt. Konúngurinn og stjórnarrád hans, hafa nú fyrst og fremst neitad þessu, med því ad fallast ad mestu á frumvarp nefndarinnar, og þetta mundi ei hafa skéd, ef konúngurinn og stjórnarrádin hefdu ei haft þá sannfæríngu, ad þíngid, þannig lagad, sem nefndin hafdi uppástúngid, ad minnsta kosti fyrst um sinn, mundi géta nád tilgánginum. Sømu sannfæríngu sem ríkisstjórnin, hafa í þessu tilliti margir reyndir og hyggnir menn á Íslandi. Þar sem høfundurinn enn fremur seigir, ad eg muni géta fundid, „ad fulltrúi konúngs í Hróarskéldu hafi sjálfur optar enn einusinni látid sér um munn fara, slík ord, sem sanni þetta, (nl; ad nefndarinnar adgjørdir, hafi verid gódri skipun þíngisins til hindrunar) því opt var þad, þá er hardna tók um ástædur, ad hann kénndi um ásigkomulagi frumvarpsins og hinni íslendsku nefnd, og lýsti yfir því, ad ef frumvarpid hefdi verid odruvísi lagad (og þad einmidt eins og þjódin æskti) mundi stjórnin hafa verid fús á ad veita því framgáng" (4 Þættir bls. 37) þá gét eg, hvad seiginn sem eg vildi, ekki „fundid" neitt af øllu því, sem høfundurinn hefur upptalid. Eg gét þannig ei fundid ad nokkur ordatiltæki konúngsfulltrúans lúti ad því, ad adgjørdir íslendsku nefndarinnar hafi verid til hnekkis hentuglegri skipun alþíngisins. Ekki heldur fæ eg séd, ad konúngsfulltrúan hafi vantad ástædur til ad bera á móti uppástúngum þeim sem gjørdar vóru til ad breyta frumvarpinu til alþíngislaganna; þvert á móti hefur hann med gildustu røkum sýnt, hve óhentugar þessar uppástúngur vóru. Þetta hlaut líka ad vera audveldt fyrir hvorn óvalinn mann, þó minna hefdi verid frammúrskarandi ad gáfum og lærdómi, enn konúngsfulltrúinn; því breytíngar-uppástúngurnar vóru þannig lagadar, — eins og konúngsfull-

trúinu sagdi — ad takast mátti ad meta þær, þó madur væri ekki nákunnugur landinu" (sbr. Fréttir frá Hróarsk. 1842 bls. 146). Loksins gét eg ei fundid, ad „þjódin", nefnilega hin íslendska þjód, hafi óskad, ad alþíngid yrdi þannig lagad, sem høfundurinn vill, eins og hann ekki heldur hefur nákvæmlega skýrt frá, hvad hann hér skilur fyrir „þjódina". Skilji hann fyrir „þjódina" þann hluta hennar, sem á ad eiga þátt í stjórn landsins, nl. kjarna þjódarinnar, þann hluta hennar, sem svo er vel ad sér, ad hann er sjálfsær, ad dæma um, hvad best hentar, þá er þad víst, ad mikill fjøldi þessa hluta þjódarinnar ei óskar ad kosníngarløgunum verdi breytt á þann hátt, sem høfundurinn hefur bendt til. Skilji hann þar á móti fyrir „þjódina" allann lydinn, af hvorjum mikill fjøldi bædi þekkir lítid til alþjódlegra málefna og hyrdir lítid um þau, þá hefur þessi meiginhluti lýdsins, einga stødnga, á ljósum hugmyndum bygda, meiníngu eda ósk um, hvornig kosníngarløgin skyldu løgud vera. Skilji høfundurinn loksins fyrir „þjódina" þá fáu menn af sínum eiginn flokki, er látid hafa í ljósi meiníngu sína um, hvornig alþíng ætti ad vera lagad, þá eru óskir þeirra ærid mjøg reikular, og þar ad auki þannig á sig komnar, ad hann vart gétur med sanni sagt, ad stjórnin hafi sýnt í nokkru, ad hún hafi verid fús á ad veita því framgáng". Þessir menn hafa bædi látid í ljósi, ad kosníngarrétturinn ætti ad ná til allra búandi manna í landinu, og kjørgeingi vera øldúngis óbundin og frjáls, þeir hafa líka óskad, ad réttur til einfaldra kosnínga mætti veitast øllum þeim, sem eru í skiptitíund, og kjørgeingi þá einnig látin vera frjáls; og loksins hafa þeir bedid um, ad kosníngarrétturinn yrdi bundinn vid ábúd á 10 hndr. í jørdu, og kjørgeingi géfin frjáls og óbundin øllum eignarkostum. Þad vyrdist því, sem þessir menn séu ei enn búnir ad fá fasta eda óhvikula sannfæríngu um, hvornig best mundi ad skipa kosníngarløgunum, og þeir géta því ei heldur krafist þess, ad þessi hvikula sannfæring, þetta reyk millum fleiri meiníngu,

sem hvor er annari harla frábrugdin, séu mikils metin, edur ad nokkrum álitum gjørd.

Af því. sem nú er rædt, mun mønnum líklega géta skilist, ad hvad miklu leiti þeir, er stúngid hafa uppá breytíngum á alþíngis løgunum", hafa med lofsverdu stødugly ndi leitast vid ad koma því framm, er mest rídur á", eda ad hve miklu leiti eg hafi verid „hvikull" í þessu máli (sbr. „4 Þætti bls. 38). Meiníng mín um þetta málefni er føst og óhvikul, eins og eg hér ad framan hefi ljóslega sýnt. Eg æski eingrar breytíngar á alþíngisløgunum, utan þeirrar, sem gétid er í frumvarpi mínu til tvøfaldra kosnínga.

Høfundurinn er mér ákaflega gramur útaf því, er eg hefi sagt um þá 27 Íslendínga, er undir hafa skrifad bréfid til málsfærslumanns Kristensens, já, hann krefst þess jafnvel af mér, ad eg gjøri grein fyrir" hve leingi hvor á ad hafa verid stúdent, til þess hann meigi seigja meiníngu sína augljóslega, án þess honum sé hnjódad". Þessi krafa er ekki sanngjarnleg. Eg hefi aldrei „hnjódad", edur haft í hyggju ad hnjóda landsmønnum mínum. Eg hefi einúngis sagt þad, sem er ómótmælanlegur sannleiki, og vel mátti seigja, án þess nokkur þyrfti ad reidast því, ad þeir flestu af þeim væru úngir og óreyndir menn, sem hafa „eigi átt færi á ad kynna sér vel eda ýtarlega stjórnarhagi Íslands„ (4 Þættir bls. 17, í danska frumritinu hafdi eg sagt: „ei have havt Leilighed til at erhverve nogen grundig eller omfattende praktisk Kundskab til de Islandske Forhold). Eg hygg ad margir af mínum ýngri mentaydkandi landsmønnum séu svo hógværir, ad þeir ei tileinki sér mjøg mikid af þeirri þekkíngu, er af reynslunni einni fæst („praktisk Kundskab"), og eg hefi umtalad, já, máské þeir duglegustu, gáfumestu og ydnustu vísindaydkarar medal þeirra séu einna fúsastir til ad gjøra slíka játníngu. Eg veit vel ad medal þeirra, er undirskrifad hafa áminnst bréf, vóru nokkrir roskir og rádnir menn, er til høfdu ad bera mikla þekkíngu og reynslu; en þeir

hafa þó ei haft tækifæri til að ná þeirri „þekkíngu af reynslunni" um Íslands málefni, sem einúngis fæst með því að starfa leingi að umvarðandi málum og eiga lánga dvøl í landinu sjálfu. En þekkíngu þá, sem fæst af rennslu og æfíngu, meiga menn þó einganveiginn lítils meta, þá skipa skal málefnum þeim, er ei verður hagað eptir føstum, við eintómar hugmyndir bundnum, reglum, heldur verða að semjast eptir því, sem nákvæm skoðan þeirra margbreytta náttúrlega ed-lis leiðir til. Høfundurinn veit án efa, að mér aldrei hefur dottið í hug að einskorða nokkurs manns rétt til þess að láta í ljósi meiníngu sína við nokkurn tiltekinn aldur eða áratølu; en þar á móti vil eg ei neita því, að eg held það mundi skarta einkar vel á sérhvorjum úngum rithøfundi, ef hann ritaði með minni þótta og fyrirlitníngu um sína eldri landsmenn, enn høfundurinn hefur gjørt.

Eg skal ei leingi dvelja við það sem høfundurinn seigir um, að ritgjørð mín sé „fædd með talsverðum lítum", um það, eg „hafi með øllu skakka og ránga hugmynd, um eðli og tilgáng þíngsins", og um „dauðann bókalærdóm". Það gétur gjarnan verið, að hann sé gæddur svo mikilli stjórnfræðis speki, (þó rit hans, enn sem komið er, lýsi því ekki), að hann, frá sínum háfa sjónarhól, meini sér hæfa að líta með fyrirlitníngu niður til mín, sem ekki heimta, að meiníngar mínar, øðlist meira gildi, enn það, sem þær sjálfar géta aflað sér, með því hvað nálægt þær fara sannleika og réttum røksemdum. En þar á móti vil eg hér leifa mér að benda høfundinum til þess, að hann, með þeim óvæga dómi, sem hann hefur lagt á mig fyrir það eg held framm tvøføldum kosníngum, einnig hefur feldan fordæmíngardóm, ei einúngis yfir rithøfundum þeim, er mælt hafa framm með téðum kosníngum, heldur og yfir þeim mørgu stjórnarfræðíngum, er átt hafa þátt í innleiðslu þessa kosníngarmáta í mørgum ríkjum Norðurálfunnar, og þar á meðal yfir frumkvøðli hinnar Norsku frístjórnarskrár, vorum nú ríkjandi konúngi. Høf-

undurinn hefur rétt ad mæla, þar sem hann seigir, ad eg þykist sjá „einskonar stjórnfrædishapt, þar sem kosníngarløg: in eru". Eptir minni hyggju á kosníngarløgunum ad vera þannig háttad, ad þau skjóti loku fyrir svo mikid sem verdur, ad heimska og eigingyrni rydji sér veg til kosníngaanna, og þadan inní þíngstofuna. Og hygg eg þá ad tvøfaldar kosníngar séu best lagadar af øllu, til ad koma í veg fyrir ad svo illa tiltakist. Þar á móti er þad ei satt, sem høfundurinn seigir, ad eg ætli, „eignir muni vera hin besta ábyrgd fyrir því, ad kosníngarnefndir verdi áreidanlegar". Mín meiníng er þvert á móti, eins og eg hefi opt í ljósi látid, ad „áreidanlegar kosníngarnefndir" ekki fáist í Íslandi, med því ad byggja á eignakjørkostum, en ad slíkt géti einúngis skéd med því ad kjósa kjørmenn.

Høfundurinn ætlar þad sé án orsaka, ad jeg óttast fyrir því, ad kosníngarnar, ef kosid er í hvorjum hrepp eda smáum kjørþíngum, muni verda svo á sundrúngu, ad sá kynni ad verda alþíngismadur, er mesti hluti kosníngarmanna vildi ad ókosinn væri. Margir hyggnir og reyndir menn hér í landi eru þó, væri þannig tilháttad, eins og eg hræddir um, ad svo mundi máské fara, og slíkur ótti er vissulega ei án tilefnis. Þar ed bændurnir, sem mestur er þorri kjósenda, yfir høfud ekki til hlýtar, þekkja adra enn sveitúnga sína, mundi kosníngin, ef velja ætti í hvorjum hrepp fyrir sig, optastnær koma nidur á einhvorjum innan: hreppsmanni, er nokkud adkvedur, og hreppur sá, er flesta kjósenda hefur, þannig ráda kosníngum í øllu kjørþínginu; en þá má líka nærri géta (ef nokkud þykir til þíngisins koma á annad bord) hve mikilli óánægju slík kosníng mundi valda hjá kjósendum í øllum hinum hreppum sýslunnar, hvorra atkvædi, þegar þannig væri ástadt, yrdu ad eingu, og med øllu þýdíngarlaus.

Eg vil gánga framm hjá því, sem høfundurinn hefur framkomid med, móti því er eg hefi sagt um, „ábúdarstofninn", er eg svo vil nefna, edur uppástúngu þá, ad

gjöra ábúd á jördu, ad undirstödu undir kosníngarrétti og kjörgeingi. Eg ætla ad óhæfilegleiki slíkrar undirstödu sé þegar svo nægilega sannadur, ad einginn framar muni mæla framm med henni, svo ad rædan frammveigis einúngis muni verda um, hvort fasteign eda tíundarfé vera eigi kjörstofn hér á landi.

Eg hefi ádur bls. nægilega rædt um þad, er höfundurinn (4 Þáttum bls. 34 og 82) hefur frammkomid med, móti „athugasemdum" mínum og síns, ad ord mín eru af honum rángfærd og rifin út úr því sambandi, í hvorju þau fyrirkoma í ritgjörd minni. Hér vil eg einúngis géta þess: ad ord þau, sem höfundurinn tilgreinir eptir mér, og sem hann vyrdist vilja gylda láta, ad svo miklu leiti þau eiga ad hrinda einföldu kosníngunum í frumvarpi íslendsku nefndarinnar, enn þá meir ná til kosníngarlaga þeirra, er hann hefur mælt framm med og bygd eru á einföldum kosníngum; og ad eg hefi kallad hvorn þann kosníngarmannaflokk, sem safnast hefur saman af handa hófi eptir útvortis eigna kjörkostum, óskipulegann (uorganisk) gagnstædt kjörmannanefnd þeirri, er kosin er, og því hefur sinn uppruna af skynsamlegri yfirvegun, en ekki af hendíngu einni. Eg hefi hvorgi sagt, ad tvöfaldar kosníngar, „hvornig sem ástædi", ættu ad takast framm yfir einfaldar; hvar á móti eg med berum ordum hefi gétid þess, ad í tilliti til Danmerkur, hvar eg ei nákmæmlega þekkti ásigkomulagid, ekki þyrdi ad fullyrda neitt þar um. En ad ödru leiti vil eg ei vera því mótfallinn, þó höfundurinn af röksemdaleidslu minni dragi þá ályktun, ad tvöfaldar kosníngar séu á Íslandi hentugri enn einfaldar „hvornig sem ástendur". Höfundurinn lætur í ljósi kynlega óánægju yfir því, ad eg med þeirri vyrdingu, er hæfdi, minntist þeirra manna, er fallist hafa á tvöfaldar kosníngar, og kallar þad „einstreingíngskap". Eg gét ei skilid þad sé nokkur „einstreingíngsskapur", þó menn, til styrktar meiníngu sinni, skýrskoti til viturra manna, sem verid hafa henni medmæltir, sér í lagi þegar menn med því, ei eins og hlaupa í

felur, eda skjóta sér undan því, ad koma sjálfir med ástæd-ur fyrir meiníngu sinni. Ekki sæ eg heldur séd, hvers vegna høfundurinn hefur hefur ýmigust á þeim meinlausu lýsíngarordum, er eg hefi brúkad um þessa menn, því eg gjøri einganveigin rád fyrir hann sé svo skapi farinn, ad hann ei géti unnt þeim sannmælis, edur litid þá réttu auga, sem eru á annari meiníngu enn hann; líka hefi eg gétid þeirra manna, á hvørra meiníngu eg ei hefi gétad fallist, med þeirri virdíngu, er vera ber, og þar ad auk vidurkénnt um þá menn, hvørra uppástúngu eg fann mér skyldt ad mótmæla skorinordt, ad þeir hefdu til ad bera „mikla atgjørfi og afbragds dugnad". Einnig hefi eg vid-urkénnt, ad høfundur ritgjørdarinnar í Kaupmannahafnar-póstinum hafi til ad bera hyggindi og þekkíngu (og litur svo út sem høfundurinn taki mér þad illa upp; kann vera hann álíti mig ei verdugann þess, ad hrósa manni þessum), þó ei svo mjøg vegna áminnstrar ritgjørdar, sem af því, eg þóktist meiga gánga ad því vísu, sem almennt leikur ord á hér í landi, ad høfundur þessi hafi samid fleiri rit-gjørdir Íslandi vidvíkjandi, t. d. um alþíngi, skólan og verdslunina, hvar þad margt kémur fyrir, er vott ber um hygginn mann, og vel ad sér, enn þótt líka margt hvad, sem eg med eingu móti fæ fallist á med øllu. Eg hefi ad vísu tekid eptir því, ad Kristensen málaflutníngsmadur, hef-ur látid sér þau ord um munn fara, ad tvøfaldar kosníng-ar mundu vera hentugastur fyrir Ísland; en eg hefi haldid ad hann í þessu efni ei hefdi neina stødugа sannfæríngu. Því annars vyrdist mér ad hann, sem þjódarfulltrúi, hefdi átt ad framkoma med breytíngar atkvædi, er ad því midadi. Ástædur fyrir því, ad hann ei gjørdi þad, sem hann fyrir sig bar, ad þíngmennirnir ei mundu fallast á slíkt breytíng-ar atkvædi, sýnist mér med øllu ógild, og þessi ástæda aptr-adi honum ei heldur frá því ad framkoma med breytíng-aratkvædi í ødru málefni, (nl. um standanefndirnar) þó hann, eptir því sem hann sjálfur sagdi, fyrirfram væri

sannfærdur um, ad þíngmanna samkoman ei mundi á það fallast.

Því, sem höfundurinn hefur sagt (4 Þ. bls. 43—45) um frumvarp mitt, hvörnig það sé í samanburdi við upp ástúngu Íslendínga erlendis, og um sundurdeilíngu kjörþínganna í smærri kosníngar umdæmi, er nægilega svarad hér ad framan, og sömuleidis af þeim ádurnefnda danska rithöfundi í fjórum þáttum. Tédur rithöfundur hefur einnig til hlýtar svarad því, sem höfundurinn hefur gjört ráð fyrir, ad kjósendurnir: ysirhöfud mundu láta þá leida sig sem vitrari eru og betur mentadir. Eg vil einúngis bæta því vid, ad þegar það einusinni er vidurkénnt, ad meiri hluti kjósenda sé ei sjálfsær, og muni láta sig leida af annara hvötum, þá er hitt einnig vidurkénnt, ad slíkir kjósendur eins audveldlega géti leidst af misjofnum eins og af góðum innblæstri annara. Slíka kjósendur vyrdist mér strax eiga ad s t,a á þann stad, hvar þeir, ad minni hyggju, med réttu eiga heima, en það er í þeim fyrstu kosnínga samkomum, hvar kjörmenn eru valdir. Pad er einganveiginn rétt, edur sannad med reynslunni, ad ætíd sé hægra fyrir einstöku menn ad hafa áhrifur á fámenna enn fjölmenna kosningarmanna samkomu. Allt er í þessu tilliti undir því komid, hvornig kosníngarmönnunum er háttad. Sá madur, sem þar til hefur gáfur og lag, á miklu hægra med ad leida mikinn fjölda af einföldum og ósjálfsærum mönnum eptir sínum vilja, heldur enn fáeina mentada sjálfsæra og hyggna menn, er einúngis fara eptir gildum og sannfærandi ástædum. Ad því leiti sem það aptur hér er ítrekad, ad einfaldar kosníngar, betur lífgi þjódar andan, og áhuga á kosníngunum, enn þær tvöföldu, vil eg vísa til þess er eg ádur hefi þar um sagt í „athugasemdum" mínum (4. Þættir, bls. 19—20), og bæta því hér vid, er Otto Müller seigir frá í bók þeirri sem hér ad framan er tilgreind, „um kosníngarrétt og kjörgeingi" bls. 48. „Ad í Noreigi og ýmsum ríkjum sunnarlega í Þýdskalandi") hvar kosníngar eru tvöfaldar, og sumstadar þrefaldar, og hvar

kosníngarrétturinn þess vegna nær til mjøg margra), finnum vér krøptugan þjóðaranda, og støðuga innbyrðis samverkun og samband milli fólksins og fulltrúa þess"[18] meðan støðug óánægja drottnar í þeim løndum, hvar kosníngarrétturinn er takmarkaður mjøg, þó kosníngarnar séu einfaldar, eins og á Frakklandi.

Høfundur þriðju ritgjørðarinnar í „4. þáttum" hefur rétt að mæla, þar sem hann seigir, að eg ei muni hafa gjørt mikið úr þeirri mótbáru gégn tvøføldum kosníngum, að rígur mundi vakna milli kjørmanna og þeirra, er þá hafa kosið. Eg held að þesskonar ríg sé einganvegínn að óttast á Íslandi, eptir því sem hér er ástatt. Slíkur rígur mun helst koma upp þar, sem þjóðin skiptist í aðgreinda flokka með gagnstæðum meiníngum um flestøll áríðandi stjórnarmálefni, og hvar hagsmunir slíkra þjóðflokka, eru mjøg í stríði hvorjir við aðra; og líka þar, sem fulltrúarnir eiga þátt í løggjafarvaldinu, og hvar þeir, að minnsta kosti, eptir því sem almennt er álitið, eru skyldugir til að halda framm hag og meiníngum þeirra, er þá hafa kosið. Hér á landi þar á móti, hvar eingir slíkir skarplega aðgreindir þjóðfulltrúar, með gagnstæðum meiníngum um alþjóðleg efni, eru til; hvar hagsmunir ýmsra stétta í fæstu tilliti eru mjøg gagnstæðir; hvar fulltrúarnir einúngis eru kjørnir til ráðaneytis, en ráða ei hvørnig málefnin lykta, og hvar þeir þar að auki eptir alþíngisløgunum, ei meiga láta kjósendur sína leggja høpt á sig með boðorðum, en eiga að fara eptir sannfæríngu þeirri, er samvitska þeirra kénnir þeim: þar er eingin ástæða til að láta kjørmennina standa í ábyrgð fyrir hvaða meiníngu fulltrúinn hafi um sérhvort málefni, heldur einúngis fyrir því, að hann sé duglegur maður og ráðvandur, og í því

[18]) Dæmi þetta, er ei mun verða rekið, vyrðist annars vera mótrøksemd gégn því, er nefndur rithøfundur tilfærir í riti sínu bls. 31, að þjóðin, nær kosníngar eru tvøfaldar, verði fráhverf fulltrúum sínum, og missi allan athuga á þjóðarþínginu.

tilliti mun aldrei ad óttast fyrir, ad kjörmennirnir muni velja svo óheppilega, ad kjósendur hafi gildar orsakir til ad veita þeim átölur.

Í tilliti til alþíngismannatölunnar, hefi eg í „athugasemdum" mínum látid þá sannfæríngu mína í ljósi, „ad eingin rödd á Íslandi, sú er merk sé eda mikils metandi" muni óska alþíngismönnum svo fjölgad, ad þeir yrdu 48. Þetta finnur höfundurinn skélfilega dyrskkufullt, og vill því vita, hvort jeg, þegar allir eru búnir ad fallast á töluna 48, halti „ad rödd mín ein yrdi ad nokkru merk eda metandi á Íslandi". Eg vil einlæglega játa höfundinum, ad eg hefi treyst því, ad lukkan mundi skipta svo, ad ekki mundi ad þessu reka. Til eru ad minnsta kosti „2 raddir", sem höfundurinn ei mun neita, ad séu í mesta lagi „merkar og mikils metandi", er eg vona aldrei fallist á töluna 48. Sú eina er höfundur þeirrar, hér ad framan áminnstu ritgjördar í „nýum félagsritum, sem hefur stúngid uppá ad hinir þjódkjörnu alþíngismenn væru 30 — 32; og hin önnur höfundar brésins frá Austfjördum, sem óskad hefur, ad allir alþíngismennirnir yrdu 48 [19] ad tölu. Þar eg nú treysti því, ad höfundar þessir hafi vissa og óbifanlega sannfæríngu um, ad uppástúnga þeirra sé rétt med öllu, óttast eg ei ad þeir breyti henni, eda mæla nokkru sinni framm med því, ad þíngmenn verdi 48. Skyldi þad annars adbera, ad eg í þessu tilliti stædi einn uppi, og yrdi yfirgéfinn af öllum, og ad allir vildu hafa 48 alþíngismenn„ þá vil eg med allri hógværd draga mig í hlé og játa, ad eg hafi farid villur vega. Höfundurinn seigir, ad „einginn" hafi stúngid uppá færri enn 32 alþíngisismönnum. Þetta er ei alsendis rétt. Hinn ofan á minnsti rithöfundur hefur stúngid uppá, ad þeir væru frá 30 til 32. Höfundurinn seigir enn fremur, ad leigulidarnir á

---

19) Höfundurinn vildi láta sér þóknast ad hyggja ad því, hvorsu nægjusamur og sjálfum mér samkvæmur eg óska ad vera, þar sem eg ekki heldur hér tel mér í hag atkvædi allra austfirdsku bændanna.

Austfjørdum, hafi ei nema einusinni gjørt svo lítid úr sér, ad nefna kostnadinn. Aptur er þetta, ad því leiti órétt, sem høfundur Austfjarda bréfsins, hefur uppá ædi smásmugslegann og nirfilsiegann hátt — eins og ádur er ávikid — viljad draga af sumum alþíngismønnum, bædi daglaun og ferdakostnad, jafnvel þó þessi sparnadur ad nokkru vinnist upp aptur, ef greidi sá, sem bréfs høfundurinn vill láta þá alþíngismenn fá, er kalladir verda híngad frá Kaupmannahøfn, verdur tøluverdur. Høfundurinn bendir á sjód þann, hvadan taka meigi nokkud af alþíngiskostnadinum med ad vísa til hins gamla þíngfararkaups, edur helmíngs af skatti þeim er nú géldst. Þad gæti þó verid, ad þetta væri ei svo vel tilfundid. Høfundurinn er því máské ei med øllu mótfallinn, þó einn eda annar af þeim gømlu sýslumønnum feingi dálitla rádníngu; en med uppástúngu þessari mundi hann þó naumast hæfa þar, er hann midadi til. Þeir gømlu sýslumenn mundu án efa, eptir reglum þeim sem híngad til hefur fylgt verid, fá endurgjald fyrir þad, er frá þeim væri numid af tekjum þeirra og lagt til alþíngiskostnadar. En þar á móti mætti svo tilbera, ad afleidíngarnar af uppástúngu høfundarins kjæmu nidur á hinum úngu íslendíngum, er seinna meir koma í stad hinna gømlu sýslumanna, og þad væri þó ílla farid, sérílagi af því þeir, sem þeir er taka laun af opinberum sjódi, eptir Austfjardabréfinu, ekki eiga von á ad fá nokkra daglaunapenínga, þó þeir yrdu til alþíngismanna kosnir.

Høfundurinn hefur uppá undarlegan hátt, annadhvort misskilid eda rángfært þad, sem eg í „athugasemdum" mínum hafdi komid med til ad hrinda þeirri ástædu fyrir því, ad hinir nýu alþíngismenn ættu ad vera 48 ad tølu, sem tekin var þar af, ad hinir gømlu løgréttumenn einmidt hefdu verid svo margir. Eg hafdi þar sagt, ad „tala hinna eldstu alþíngislima, sem kosnir vóru og rádgéfandi, ei hefdi verid 48 heldur 96. Ordin kosnir og rádgéfandi, sem bædi vóru prentud med audkénndu letri, vóru valin til ad géfa til kynna, ad eg ei þar undir vildi hafa skilid þá løg-

géfandi limi løgréttunnar, er sátu á midpøllum, vid hvørja eg ei fann hæfa ad jafna hinum nýu alþíngismønnum, er einúngis hafa rádgéfandi, enn eingan løggéfandi myndugleika (þ. e. eru einúngis kjørnir til rádaneytis, en hafa ekkért løggjafar-vald, edur meiga ei ráda lofum og løgum). Ordid „kosnir" hafdi eg brúkad til ad sýna, ad eg ei þar med meinti þá løggéfandi limi hinnar gømlu løgréttu, sem án þess ad vera kjørnir, áttu sæti á midpøllum hennar, einasta vegna stødu sinnar og stands, edur af því þeir fóru med „forn og full" edur „óklofin godord"; en af því nokkrir, nefnilega 9 af þeim løgréttumønnum, er løggjafarvald høfdu, vóru kjørnir til løgréttu, bætti eg vid ordinu: „rádgéfandi", til ad fyrirbyggja allann møgulegan misskilníng. Eptir ad hafa skýrt frá því, er eg aldrei hefi neytad, heldur med berum ordum tekid framm, ad hinir „reglulegu" løgréttumenn (eg vil heldur kalla þá løgréttumenn med løggjafarvaldi) hafi verid 48, seigir høfundurinn þar eptir, ad mér hafi „viljad svo undarlega til, ad eg hafi gleymt helmíngnum af rádgjøfum þessum (4 Þættir bls. 48). En þar ed þad af ordum mínum mátti vera hvørjum heilvita manni í augum uppi, ad eg ei hafdi meint til þeirra 48 løgréttumanna, er løggjafarvaldid høfdu, edur reiknad þá med, og høfundurinn sjálfur rétt á eptir réttilega gétur þess, ad sérhvør af þessum 48 løggéfandi løgréttumønnum, hafi valid 2 menn, sér til rádaneytis, og þess vegna, þar ed 2 sinnum 48 eru 96, einmidt eins marga og eg hefi sagt, hvørnig gétur hann þá sagt, ad eg „hafi gleymt helmíngnum af rádgjøfum þessum", án þess ad bera á móti skýlausum sannleika? eda hvørnig gétur hann í annari seinni ritgjørd (4 Þáttum bls. 81) farid því á flot: ad eg hafi nefnt „ránga tølu", og ætlad mér „ad kollvarpa med því berum sannleika", án þess annadhvort ad tala á móti betri sannfæríngu, eda sýna staklegt eptirtektar-og adgjætsluleysi? Eg vissi gjørla, ad þeir, sem høfdu skýrskotad til þess, ad hinir gømlu løgréttumenn hefdi verid 48, ekki høfdu

talid þá med, er til rádaneytis vóru kjörnir; en þar ed þessir 48 menn, er á midpöllunum sátu, höfdu löggjafarvaldið, þeir nú alþíngismenn þar á móti einúngis atkvæðisrétt til rádaneytis, svo leitst mér samlíkingin millum þeirra vera „rammskökk og eingu nýt“. Þar sem höfundurinn stendur á því, ad eg hafi talid þá rádgéfandi lögréttumenn med þeim löggéfandi, þá er þetta eins og nú má vera ljóst ordid af því sem eg hefi hér sagt, öldúngis tilhæfulaust. Eg hafdi talid alla þá rádgéfandi, en ekki þá löggéfandi lögréttumenn. Þau ord mín, er eg hafdi audkénnt: „kosnir“ og „rádgéfandi“, (hvor höfundinum líka hefur audkénnt, þar sem hann til þeirra vitnar, hefdu átt ad géta vardveitt hann frá svo hraparlegum misskilníngi, og aptrad honum frá ad byggja þar á öldúngis ósanna sakargipt.

Ekki heldur hefur höfundinum sérlega vel tekist med þá tilskipun Hákonar konúngs Magnússonar, er hann vitnar til, og seigir ad einskordad hafi tölu lögréttumanna vid 48. Fyrst seigir Erichsen, er gétur þessarar tilskipunar í Arnesens Íslandske Rettergang, bls. 450, „ad altel hafi verid eptir henni lifad“; og þar næst telur tilskipanin sjálf, einúngir 42 lögréttumenn. Erichsen heldur nú ad sönnu, ad hér vid eigi ad bæta 6 lögréttumönnum frá „Vadlaþíngi“, er gleymt sé; en þessi tilgáta hans er ekki sennileg, heldur strídir þvert á móti reglum þeim, er ádur gyldtu um nefníngu lögréttumanna, eptir hvorjum fleyri vóru nefndir frá sýslum þeim, er láu næst alþíngi, en þeim er fjær láu. Þannig vóru eptir Hákonar bók, 20 lögréttumenn nefndir frá Árnessýslu, en 10 frá Húnavatnssýslu, og 12 frá Vadlasýslu. Eptir Jónsbók vóru frá Árnessýslu nefndir 12, frá Húnavatnssýslu 6 og frá Vadlasýslu líka 6 lögréttumenn. En eptir þeirri nefndu tilskipun ætti tiltalan ad verda öll önnur, ad Erichsens tilgátu, eptir hvorri lögréttumannatalan ætti ad verda jöfn, nefnilega 6, frá hvorri af þeim 3ur nefndu sýslum. Mér vyrdist því líklegra og samkvæmara réttri reglu, ad

géta þess til, ad med þeirri umgétnu tilskipan hafi tala lögréttumannanna verid nidursett um helming, edur frá 84 til 42, og ad frá Húnavatnssýslu séu órétilega taldir 6 í stad 3ja lögréttumanna, og ad gleymdir séu 3 lögréttumenn, er nefna átti frá Vadlasýslu. Annars gét eg þessa, ad eg ei þekki tilskipun þessa, nema af þeim tilvitnada stad, hjá Arnesen; en eg efa ekki, ad hinn nákvæmi og áreidanleigi Erichsen hafi rétt sagt frá innihaldi hennar.

Af því, ad eg hefi sagt, ad sumir væru of mjög hneigdir ad því, sem gamalt er og úreldt, kémst höfundurinn svo ad ordi: „vér hljótum ad neita honum, ad öllu um, ad hann eigi rétt á ad bera slíka sök á neinn mann", þar ed lýsing íslendsku nefndarinnar á hinu gamla alþingi [20] og mínar „athugasemdir", votti þad, ad eg „og

[20]) Þad er athugaverdt, ad „nokkrir Íslendingar", sem árid 1842 létu prenta íslendska útleggingu af adgjördum Eydana á Hróarskéldu þingi nefnt ár, vid hin íslendsku málefni, og þar á medal vid alþingismálid, hafa á þessari útleggingu sleppt þeirri lýsingu alþingis hins forna, er Reykjavíkurnefndin samid hafdi samkvæmt fornritunum, og lesa er i Roeskilde Stænderlidende for Aaret 1842, P. 246-7, og i Nye Collegial-Tidende for Aaret 1843 Nr. 13, p. 2151-6, og í stad hennar einúngis tilfært þessi ord: „þá lýsir nefndin alþingi á ýmsum tímum", (Fréttir frá Hróarskéldu 1842 bls. 63). Hvort þad er nú af gleitum i gódri meiningu (*pia fraus*), ad útleggendurnir hafa sleppt úr þessari lýsingu, svo þeir gjætu feingid tilefni til, ad setja nedanmáls í „Fréttunum" á þeim nýnefnda stad, þær athugasemdir, i hvorjum nefndinni er géfid ad sök, ad hún hafi þagad um þau atridi i skipulagi hins forna alþingis, sem breyta hefdi mátt eptir í lögum hins nýa þingis, eda hvort lýsingunni hefir verid sleppt í ödrum tilgángi, vil eg ekkért um seigja; en audséd er þad, ad betur hefdi þad sæmt mentudum vísindamönnum, ad benda á hvad órétt var i lýsingu hins forna alþingis, og þau atridi i skipun þess, eptir hvorjum laga hefdi mátt hid nýa, heldur enn, med því ad sleppa lýsingunni, ad greida sér veg, til ad koma framm med litt grundada dóma um adgjördir nefndarinnar henni til nidrunar. Eda

meiri hluti nefndarinnar, ad því er ráda má, er eintrjáníngslega hneigtur ad øllu því, sem útlendt er, og er ekki

hefir útgéfendunum máské mislíkad þad, ad nefndin ei hefir gétid þess, ad alþing hid forna, eins og adrar þjódsamkomur á nordurløndum í fornøld, var haldid undir berum himni? Lýsíngu nefndarinnar á alþingi hinu forna, vil eg setja hér, og hljódar hún þannig: „á fríveldistímunum áttu, eptir því sem Grágás fráskýrir, auk „løgmanns og biskupa, 144 menn løgréttusetu, ad hvorjum godar „þeir, 39 ad tølu, er áttu forn og full godord, ekki vóru valdir, „heldur fylgdi réttur til løgréttusetu godordum þeirra; og þar ed god„ordin geingu í erfdir, mátti álita þessa menn sem nokkurs konar „erfda-adal. En þar í nordlendíngafjórdúngi vóru 12, en í hvorj„um hinna 3ja fjórdúnganna einúngis 9 godord, áttu godarnir í „þessum 3ur fjórdúngum þar ad auki ad hafa med sér 9 menn „edur 3 frá hvorjum fjórdúngi. Þessir 48 menn, ásamt med løg„søgumanni og biskupum, áttu hid eiginlega løggjafarvald. Sér„hvor af þessum 48 mønnum átti ad sønnu enn nú hvorr ad skipa „2 mønnum med sér í løgréttu, en þessir menn vóru einúngis „kvaddir med til rádaneytis. Hér af er þad ljóst, ad hid forna al„þing ei var nokkur alþjódleg, heldur nokkurs konar fyrirmannleg „(aristokratisk) stiptan, hvorrar fyrirmanna veldi einúngis mildadist „vid rádaneyti þeirra manna af þjódinni, er kvaddir vóru til ein„úngis af godunum. Á þessu tímabili hafdi alþingid líka dóms„vald, en godarnir einir til nefndu þá menn, er dæma skyldu. Þá „var alþingid líka samkomustadur fyrir mikinn fjølda af landsins „innbúum, því þar mættu ei einúngis dómendur þeir, er gjøra áttu „út um mál manna, heldur og einnig málspartar, vottar, búar, „kvidir og medsærismenn (*consacramentales*); og þar bændurnir „nú líka vóru skyldir til, ad fylgja godum þeim, hvorra þingmenn „þeir vóru, til alþingis, og godarnir stundum, þá þeir áttu í deil„um vid adra høfdingja, fjølmenntu sem best þeir máttu, gaf þetta „tilefni til, ad alþingid vard mjøg fjølsótt. Þegar Ísland á 13du „øld, kom undir Noregs konúng, misti løgréttan ad mestu løggjafar„vald sitt, og Jónsbókarløg fækkudu løgréttumønnum, svo ad þeir „sídan urdu ei fleiri enn 84. Þau áhrif, er þingid, sem rádslag„andi þjódsamkoma, á því eptir fylgjandi tímabili, þángad til ein-

einnsinni fær um ad lýsa svo hinni aldafornu þjódstiptun, sem ávalt er hvorjum Íslendíngi hjartakjær, hvorsu sem missmídi hennar voru (í frumritinu stód: „med alle dens Ufuldkommenheder), ad á lýsíngunni verdi séd, ad honum hafi verid alþing kjært, eda ad minnsta kosti ad hann minntist þess med vyrdíngu þeirri, sem þad á skilid". Þad er audsjed af grein þessari, ad høfundurinn hefur verid ordinn reidur, þegar hann setti sig í dómarasætid, og því er líka dómurinn ad því skapi. Hann er hvorki velgrundadur, edur samin *sine ira et studiso*, án þykkju og hlutdrægni. Þó þad væri satt, ad eg væri „einstrjáníngslega hneigdur ad øllu því sem útlendt er", fæ eg þó ekki séd, hvornig þad getur veitt høfundinum rétt til ad meina mér ad láta í ljósi þá meiníngu, „ad sumir séu ofmjøg hneigdir ad því, sem er gamalt og úreldt. Slíkt væri hid sama, sem ad vilja leggja hapt á túngu mína; og þvílík kúgun sæmir ei svo frjálslyndum manni, sem høfundurinn án efa þykist vera. Allt væri undir því komid, ad hvad miklu leiti, meiníng sú, er eg hefdi í ljósi látid, væri rétt eda ekki; og þá væri sérhvorjum líka innanhandar, ad mótmæla henni, svo mikid sem hann vildi, og svo skørnglega sem hann gjæti. Annars þykir mér líklegt, ad flestum muni vyrdast sem ritgjørdin Nr. 1, sem á er minnst hér ad framan, hafi medal annars, gefid mér nokkurnveiginn gildt tilefni til ad komast þannig ad ordi, sem

---

„valdsstjórnin var innleidd, hafdi á alþjódleg málefni, vóru mjøg „lítils verd, og hvorki ákvørdud eda reglubundin med løgum. Eptir ad einvaldsstjórnin var komin á, var alþíngid lítid meira, enn „illa lagadur yfirdómur, er haldinn var einnsinni á ári, og var þá „løgréttumønnum smámsaman fækkad allt ad 8. Þá hættu og adrir „ad sækja þíngid enn þeir, er áttu þar málum ad gégna. Af þessari lýsíngu á skipulagi hins forna alþíngis og størfum þeim, er „þad átti ad gégna, vyrdist nefndinni þad augljóst, ad þad ekki er „møgulegt, ad løgum hins nýa alþíngis í minnsta máta líkist skipulagi hins forna".

eg hefi gjørt. Hvad áhrærir það ámæli fyrir „eintrjáníngslegar" mætur á því sem útlendt er, sem höfundurinn hiklaust hefur veitt mér, enn meiri-hluta nefndarinnar med nokkurri efasemd, skil eg ekki hvad hefur komid honum, sem, ad því leiti nefndina snertir, byggir ásøkun sína á lýsíngu hins gamla alþíngis, til ad ámæla einúngis meiri-hluta nefndarinnar, þar allir nefndar menn vóru á einu máli, hvad lýsíngu þessa snertir. Annars held eg ad höfundurinn, ef nokkur á ad fallast í þessu efni á mál hans, verdi ad koma med gildari ástædur fyrir sakargipt sinni, enn hann híngad til hefur gjørt. Pad er ad vísu satt, ad hvorki eg, eda hinir nefndar menn óska, ad Ísland annadhvort gángi aptrábak, aptur inní fornøldina, eda taki sig svo út úr frá ødrum þjódum, ad þad verdi ad nokkurskonar dálitlu China-korni (*China en miniature*), hvar á móti vér óskum, ad þad med greind og hyggni noti og tileinki sér þad úr løggjøf og tilskipunum hinnar dønsku þjódar, sem oss er náskilin og teingd, er betrad fær þess hag, hæfir þess ástandi, og átt getur vid þess eigid edli og náttúrlegar framfarir. En þetta er allt annad, enn ad hafa „eintrjáníngslegar" mætur á øllu því, sem útlendt er. En allra fráleitust er sakargipt høfundarins, þar sem hann ámælir oss fyrir þad, oss skorti „kjærleika" til hins gamla alþíngis, og „tilhlýdilega vyrdíngu" fyrir því. Auk þess sem þad um slíka eldgamla stiptun, sem alþíngid gamla, er nú heyrir fornaldar søgunni til, valla verdur sagt, ad mønnum í tilliti til þess, liggi ønnur skylda á herdum, enn ad leita sannleikans med þeirri alvørugéfni og hreinskilni, ad menn fái gjørt sér rétta og ljósa hugmynd um skipulag þess; og ad þad þess vegna einúngis er í óeiginlegum skilníngi, ad menn géta talad um skort á „kjærleika" edur tilhlýdilegri vyrdíngu", hvorjar tilfinníngar þar á móti, sé þeim ei af skynsemi stjórnad, audveldlega géta leidt til „einstreingíngsskapar": — vil eg enn nú géta þess, ad nefndarmennirnir hafa lýst alþíngi, einmidt eins og — og ekki lakar, enn høfundurinn. Vér høfum lýst því sem æruverd-

ugrl fornri skiptun „er starfadi margt til þarfa og ágæti í heidarlega køllun sinni"; sem ad sønnu, eins og sérhvor ønnur manna verk, hafdi sína bresti. en hvorja vér þó ei fundum tilefni til ad taka svo skýrt framm sem høfundurinn, er talar um alla þess ófullkomlegleika". Þar oss fannst galli sá, er Ísland fordum beid mest tjón af, ekki svo mjøg vera missmídi nokkurt vid skipulag alþíngis, er þvert á móti, eptir þá verandi ásigkomulagi, vyrdtist oss lagad og skipad med miklu hyggjuviti, sem þad, ad landid vantadi eina adal-þjódstjórn, útbúna med nægilegu frammkvæmdar valdi. Annad mál er þad, ad oss ei fannst skipulag hins gamla alþíngis í nokkru tilliti hentugt fyrir hid nýa, edur ad þessu skipulagi væri frjálslega tilhagad, eptir hugmindum manna nú á tídum, í tilliti til hins mest áríðandi atridis, edur kosnínganna, hvorjum godarnir einir rédu, án þess alþýdan ætti nokkurn þátt í þeim.

Vid þad, sem høfundurinn þar eptir (4 Þáttum bls. 49 — 50), seigir um þá óheill, er Íslandi øllu, landsstjórn þess og frammfør, standi af því, ad stjórnin sé óþjódleg, og ókunnug øllu ásigkomulagi og háttum lands og lýds, vil eg hér ekki dvelja, þar ed eg ádur hefi nægilega rædt um þad. Þessi framsaga sakarinnar, án allrar undantekníngar og nákvæmari ákvørdunar, er øldúngis ramskokk og einúngis hæfileg til ad vekja rángar hugmindir og útbreida hatur og óánægju, og gésur til kynna svo gremjufullt sinnislag hjá høfundinum, ad honum, medan hann geymir þad, naumlega mun takast ad afreka mikid til heilla fyrir fødurland sitt; og gét eg fyrir mitt leiti, ei annad enn talid slíkt mikla óheppni.

Í tilliti til þess, er høfundurinn hefur sagt um málid, vil eg einúngis géta þess, ad medan høfundurinn ei gétur hugsad uppá ad losa Ísland eda alþíngid, ad øllu leiti undan hinni dønsku ríkisstjórn, mun þad verda naudsýnlegt, ad konúngsfulltrúinn sé sá madur, sem frædt géti þíngmennina um þær grundvallarreglur, er stjórnin fylgir í adgjørdum sínum og lagasetníngum. Ad hvad miklu

leiti hinir íslendsku alþíngismenn verda færir um ad gégna til hlítar sinni mikilvægu köllun, og ad hvad miklu leiti þeir, ad minnsta kosti í einstöku málefnum, þurfa kynnu med leidbeiníngar af dönskum embættismanni, er væri vel ad sér, og kunnugur stjórnar málefnum, edur verid slíkrar leidbeiníngar án, mun tídin best sanna. Ad eg um þetta hafi ödruvísi meiníngu enn höfundurinn, mun sérhvörjum þeim vel skiljast, er lesid hefur med nokkurri gjætni þad sem ritad hefur verid bædi um alþíngid og önnur Íslands málefni nú á seinni árum. Þetta kémur máské af því, ad eg, sem veit hvörsu ófullkomin mín þekkíng er, og hvad audveldlega mér gétur yfirséſt, ekki treysti mér eins vel og höfundurinn, er stundum vyrdist halda, ad sér ei muni géta skjátlast, og þess vegna atyrdir þá, er ekki undir eins fallast á meiníngar hans edur halda, ad lands og lýda heill sé undir því komin, ad uppástúngum hans sé fylgt í öllu.

Eg vidurkénni fullkomlega ad uppspretta sú, hvadan sérhvör þjódfulltrúa samkoma fær líf og fjör, er alþjódleg auglýsing adgjörda hennar. Eg hefi því óskad, ad adgjördir alþíngis yrdu allar auglýstar á prenti, hvad eptir ásigkomulagi lands þessa, er sá einasti máti til þess þær géti ordid þjódkunnar. Eg hefi ádur látid þá meiníngu í ljósi, og enn þá ekki fundid tilefni til ad breyta henni, „ad adgjördir þíngmanna géti ekki ordid í minnsta máta kunnugri um allt land (eg hefi audkénnt þessi ord í „athugasemdum" mínum, en höfundurinn þar á mót hefur látid prenta ordin „í minnsta máta" med ógnarlega stóru letri) fyrir þad, þó þíngstofan, sé látin öllum opin". Um þetta atridi hafa allir hyggnir og mentadir menn hér á landi, er eg hefi átt tal vid, verid á einu máli, og þad framar enn um önnur atridi alþíngis skipunarinnar, er verid hefur ágreiníngur um. Ad þíngstofan sé öllum opin, er einúngis töluverdt umvardandi í þeim löndum, hvar dagblöd eru útgéfin; en á Íslandi, er eins og menn vita, nú sem stendur, ei einusinni nokkurt tímarit útgéfid. Þeir tilheyrendur, er ad stadaldri verda nálægir í þíngstofunni, mundu

ei verda adrir enn þeir, er eg ádur hefi tilgétid í „athugasemdum" mínum, og slíkir eru ei færir um ad skilja rétt eda til hlítar, eitt einasta af þeim málefnum, sem med er farid, heldur breida út um þau margar ósannar og afbakadar frásagnir. Høfundurinn gétur ad skilja, ad þad, sem eg vilji veita í stadinn fyrir opnar dyr, sé „stutt og ófullkomid ágrip af skírslu um þad sem framm fer", (4 Þ. bls. 51). Eg þar á móti hefi álitid þad umvardandi, „ad adgjørdir þíngmanna sé birtar svo fullkomlega, sem unnt er, og verdi kunnar um allt land" (4 Þ. bls. 28). Hvort sú rángfærsla orda minna, sem í þessu liggur, er gjørd med ásetníngi edur ekki, má høfundurinn eiga vid sjálfann sig.

Um ályktunarord høfundarins, í hverjum hann bendir til, ad eg máské muni verja því litla pundi sem mér er veitt, alþíngi, og þá líka þjódinni, til óheilla, vil eg ekki ræda; því eg þykist hér ad framan hafa komid med nægar ástædur fyrir þá, er rétt vilja dæma um þetta mál, til ad meta þau eins og verdugt er.

Ritgjørdin Nr. 8., sem er hin seinasta í fjórum Þáttum, byrjar á illa tilfundnum og ótilhlýdlegum, persónulegum biturydnum, er koma málinu ekkért vid, og lýsir þarmed þeim anda, er í henni býr. Høfundurinn leitast vid, ad verja „ákjærur" þær, er hann „kýngir yfir" íslendsku nefndina, med því, ad eg hafi hafid „umrædu um málid á ný". Þessi vørn er allt eins ástædu gód og því nær allt hitt annad hjá høfundinum. Eg gét þessa, søkum lítils kynlegs atviks, er þar í kémur fyrir. Hann seigir nefnil. „vér høfum einganveiginn hafid þessa umrædu um málid á ný, heldur Melsted kammerád sjálfur, því hann hefir ekki einúngis leitast vid ad verja þau atridi í alþíngistilskipuninni, sem líklegt er, ad allflestum Íslendíngum komi ekki saman um vid nefndina, ad minnsta kosti þeim, sem utannefndar eru; heldur hefir hann einnig reynt til ad gjøra lítid úr hinum ýngri løndum sínum fyrir adferd þeirra, og høfdu þeir þó ekki fundid med einu ordi ad størfum nefndarinnar opinberlega". Þad er nú audséd, ad hér fyrst hefir

höfundinum dottið í hug ritgjörð sú í Kaupmannahafnarpóstin-um, er eg hefi að framan sagt álit mitt um, undir hvorja rit-uð er sama einkunn, sem ritgjörð þessa, og, að almenn-íngs rómi, af sama höfundi, og hefir því séð, að ekki tjáði að enda málsgrein þessa þannig, þar eð ritgjörð þessi kom út laungu á undan athugasemdum mínum. Hann bæt-ir þess vegna við: „fyrr enn þau — nefnilega störf nefnd-arinnar — vóru orðin þjóðkunnug"; hvor viðurauki hefir, eins og liggur í augum uppi, því nær einga skynsama þýð-íngu; því það er auðsært og þarf ei orðum að því að eyða, að menn gátu ekki sagt álit sitt um störf nefndarinn-ar fyrr enn þau vóru þjóðkunnug orðin. Og þar eð nú ritgjörðin í Kaupmannahafnarpóstinum inniheldur einmitt vestu „ákjærur" gégn nefndinni, svo er auðséð], að þeim verður eingin bót mæld með því, að eg hafi hafið „umræðu um alþíngismálefuld að-nýu", þá maður nokkur danskur — höfundur ritgjörðarinnar í Berlínga-tíðindum 1843, Nr. 192—4 og 196, sem útlögð er í „Fjórum Páttum" bls. 52—64. — hafði hafið raustina, þó með mikilli stillíngu og hógværð, gégn fyrirdæmíngardómi þeim, er höfundur vor hafði hátíðlega kveðið upp yfir íslendskunefndinni í rit-gjörð þeirri, er um var rætt næst á undan), nokkrir af löndum höfundarins, er annars eiga einganu hlut að þessu máli, og það einmitt almúgamenn, hafa verið miklu ber-orðari um bleinn í ritgjörð höfundarins), svo lítst honum þó að koma með ástæðurnar fyrir „stóradóm" þessum á ept-ir, jafnvel þó hann gjöri gis að vörn þeirri, er haldið var uppi fyrir nefndina. Eg ætla að svo komnu, fyrst um sinn að gánga framhjá þessum ástæðum, og skoða fyrst hitt annað, er þessi ritgjörð inniheldur.

Höfundur vor heldur, að höfundurinn að ritgjörðinni í B. T. sé sér samdóma í ritdeilu hans gégn mér útaf því, á hvaða túngu skyldi mælt vera á þínginu, og hvort þíng-stofan skyldi vera opin. Eg veit ekki hvað þessi höfundur hugsar um atriði þessi, en þar á móti er eg viss um, að svo skynsamur og vitur maður sem hann, gétur ekki

verid samþykkur øfgum þeim, „einstreingíngshætti og afbøk-unum er høfundurinn hefur hrúgad saman í þræturit sitt. Høfundurinn hefir brugdid mótstødumanni sínum um, „ad hann hafi viljad leggja þad svo út, ad hid gamla alþíng hafi verid sjølskipadra (af þíngmønnum, mun meint vera), sem hafi þad verid til ad ótta med mannabla, því þá hafi ofurebli rádid rétti (*jus fortioris*), og ad þad sé á hon-um ad heyra, ad slíkt hafi átt sér framar stad a Is-landi enn í ødrum løndum í þann tíma, ad hann tali um alþíngid svo, sem bædi løggjafarvaldid og hid ædsta dómsvald hafi verid í þess høndum", hvad høfundurinn kallar, eins og honum er tamt, „fullkomid þekk-íngarleysi um hina eldri skipun alþíngis", og þad sýni, „hvorsu allt sé hér í þoku fyrir honum"; þegar hann er búinn ad halda dálitla rædu um skipun hins forna alþíng-is, tekur hann svo til máls aptur: „ad ofurebli hafi rádid meira enn réttur í fornøld á Íslandi, framar enn annar-stadar, er sú ætlun", (hér er ofangreindum ordum: „sé á hon-um ad heyra", laumad undan og sett í stadinn: er sú ætl-un, „er en Paastand", seigir høfundurinn í danska frumrit-inu); „sem lýsir einmitt því, ad høfundurinn veit ekki hót um, hvornig ástatt hefir verid á Íslandi né í ødrum lønd-um á fyrri øldum". Hér vid verd eg nú fyrst ad gjøra þá athugasemd, ad hinn danski høfundur hefir ekki talad nálægt því, því sídur haldid því fastlega framm, ad ofur-ebli hafi í fornøld rádid framar á Íslandi enn í ødrum løndum; þessi høfundur hefir einúngis sagt", ad ofureblid myndadi eitt verulegt høfudatridi í stjórninni", sem er ó-brygdull sannleikur, sem hvort bladid í Íslands gømlu søgu í ítrasta máta stadfestir. Eda er høfundurinn þá búinn ad gleyma hinum mørgu stødum í søgunum, hvar talad er um „at fjølmenna til þings, „at gánga fjølmennur til dóma, „at fara í lidsbón" bædi heima og á þínginu sjálfu? Eda þeim stødum, hvar talad er um „at hleypa upp dóminum", og þar sem menn gátu hamlad því einúngis med því, ad mótstødumadurinn hefdi líka talsverdann lidsabla vopnadann

í fylgd með sér? Og myndaði þá ofureblíð ekki verulegt höfuðatriði í stjórninni, er menn urðu að hafa tillit til? Þetta var eitt af því, er í fornöld átti sér stað í öllum löndum, og er því þar fyrir einganveiginn neitað og síst af höfundinum að ritgjörðinni í B. T., að forfeður vorir hafi á 11tu og 12tu öldinni borið af öðrum að mentun og kurteysi. Og af því ríthöfundurinn í B T. ræður það enn fremur af gjörvöllu ástandi fornaldarinnar og af því, hvað henni var gjarnt til að skjóta málum til ofurefli sins, að tala hinna gömlu alþíngismanna var svo mikil, þá ræður að líkindum, að lík hugmynd hafi staðið höfundi vorum fyrir hugskotssjónum, þar sem hann í „4 Þáttum" bls. 48, kveður svo að orði: „og vart mun því neitað verða, að 144 manna þíng muni ávinna sér vírðíngu og lotníngu þjóðarinnar nokkurnveiginn öðruvísi enn 20—26 manna þíng". Að svo miklu leiti, sem hinn danski höfundur talar um alþíngið, „eins og nefnd, er hefði löggjafarvaldið og hið æðsta dómsvald í höndum", þá hefir hann fyrir sér algeing orðatiltæki, er brúkuð hafa verið bæði á fyrri tímum og seinni. Af þeim ótölulega dæmafjölda, sem eg í þessu tilliti hefi um að velja, vil eg einúngis koma með tvö, sem höfundurinn mun víst ekki gjöra ræk. Grágás í Þíngskapaþætti 53ja kap. seigir: „Ef alþíngisdómur dæmir rángt, þá scal stefna dóminum til rofs oc sokia í fimtardóm". Hér er auðséð að orðið, alþíngisdómur, þýðir fjórðúngsdóma[21]. Höfundurinn að ritgjörðinni Nr.

---

[21]) Menn skilja almennt orðatiltæki í Grágásar Þíngskapaþætti 1ta kapítula, að fjórðúngsdómarnir á alþíngi hafi hvor haft 9 dómendur, t. d. Erichsen i Arneſens islandske Rettergang p. 315, Baldvin Einarsson i juridisk Tidsskrift 22. B. p. 37., og Thómas Sæmundsson 3 ritgjörðir bls. 86. En þessi meiníng getur varla rétt verið því þessar ástæður mæla móti henni.

*a*) sýnir Grágásar Þíngskapaþ. 37ða kap., að í heraðsdómunum skyldu vera 36 dómendur; og þar fjórðúngsdómarnir á alþíngi í einstöku tilfellum jafnvel vóru yfirskipaðir héraðsdómana,

2, er um var rætt ad framan, kémst þannig ad ordi (Ný Félagsrit 1841 bls. 191). „Hid nýa alþíng vantar ad

---

vyrdist þad næsta ólíklegt og óreglulegt ad hinir skyldu hafa færri dómendur enn þessir

*b*) vyrdist þad verid hafa føst grundvallar regla í hinum gømlu íslendsku løgum, er því nær sem aldrei var frávikid, ad 36 dómendur skyldu dæma þær sakir, er mikils vóru umvardandi, ad minnsta kosti á þeim venjulegu þíngum; því í tilliti til fimtardómsins, í hvorjum vóru sáeinar tylftir manna, hafdi ei einúngis hvor málspartanna rétt til ad nema úr dóminum 6 menn, án þess ad tilgreina orsakir, heldur var þad einnig skylda sóknarans, ef verjandi notadi ei þennann rétt sinn, aptur ad nefna adra 6 menn úr dóminum, því dómurinn var ómerkur, ef hann var dæmdur af fleiri enn 36 dómendum.

*c*) sýnir Grágásar þíngskapaþ. 23. kap., sem talar um fjórdúngsdómana, ad færri enn 6 dómendur høfdu ei rétt til ad gánga til vefángs, edur kveda upp meiníngu gagnstæda meiri-hlutans, er dóminn dæmdi. Þessi ákvørdun sýnir, ad dómendurnir í fjórdúngsdóminum hafa naudsýnlega hlotid ad vera fleiri enn 9, eins og almennt hefur verid haldid. Sá 38. kap. í sama þætti sýnir líka, ad sama regla hafi verid gildandi um héradsdómana eda vorþíngin, í hvorjum vóru 36 dómendur, eins og ádur er sagt.

*d*) Loksins getur Njála þess útþrykkilega í 98. kap., ad tala dómendanna í fjórdúngsdómunum hafi verid: „þrennar tylftir úr fjórdúngi hvorjum". Erichsen í Arnesens isl. Rettergang, p. 818, les þennan stad nokkud ødruvísi enn hann er prentadur í Kmh. útgáfunni, en meiníngin verdur þó hin sama. Þar á móti er danska útleggíngin hjá honum (l. c. p. 320) ekki nákvæm, og audsjáanlega snidin eptir því, sem hann hefur haldid vera Grágásar réttu meiníngu.

Eptir minni hyggju verda því eingin ønnur rád, til ad koma saman þessum atridum, er sýnast vera hvort á móti ødru, enn ad fallast á þá meiníngu, ad 9 godar frá hvorjum landsfjórdúngi, hafi nefnt hvor 1 dómanda í sérhvorn af fjórdúngsdómunum, í stad þess menn hingad til hafa haldid ad dóm nefnan til sérhvors fjórd-

øllu dómsvald þad, sem hitt, (nl. hid forna) hafdi". Hér vid bætir høfundurinn enn fremur, ad þad sem steypt hafi hinn forna alþíngi, muni ad nokkruleiti hafa verid, ad dómsvaldid og løggjafarvaldid var hvorttveggja í høndum þess. Þad mundi og vera sannkøllud fordild, og tilgjørdarfull smámunasemi, gagnstæd øllum vidteknum rædumáta, ef menn væru allt af ad klifa á løgréttunni, løgberginu, fimtardóminum og fjórdúngsdómunum, í stadinn fyrir „alþíngid". þegar einúngis væri ad ræda um løggjafarvald og dómsvald alþíngisins yfir høfud; slík nákvæmleg adgreiníng á sér einúngis stad, þegar tilgángur rædunnar útheimtir þad. Eg verd nú ad spurja: hvort nokkud hafi verid med røkum, ad setja útá ordatiltæki hins danska høfundar? hvort háttur sá, med hvorjum høfundurinn útleikur mótstødumann sinn, sé ei ósambodin vísinda manni? Hvort hann lýsi ei jafnframt ofmetnadi, og hugsunarleysi? einkum þar høfundurinn kémur med strags á eptir þad, sem sýnir litla nákvæmni, og sem hann mundi án efa hafa tekid hart á hjá mótstødumanni sínum. Hann seigir nefnilega, ad Íslandi hafi í fornøld verid skipt „í 48 løgfull godord". Þetta er samt rángt. Því var, eins og Grágás í Løgréttuþætti seigir med berum ordum, einúngis skipt í 39 løgfull godord (forn og full edur óklofin godord).

Þar sem høfundurinn seigir, ad „þjódin" hafi aldrei rofid þíngfridinn, heldur „høfdíngjarnir" sjálfir, þá veit eg ekki ad hvada midi hann hefur stefnt med þessari athugasemd. Vera má hann hafi viljad jafna saman „høfdíngjunum" vid „embættismannanefndina" og „þjódinni" vid alþýduna nú á døgum, um hvorja hann opt tala gagnstætt

---

úngsdóms einúngis hafi skéd af godunum frá þeim eina lands fjórdúngi, sem dómurinn var vidkénndur. Í Grágás er, ad minni hyggju, ekkért, sem stridir móti þessari útleggingu, er vel gétur stadist med ordunum í þíngskapaþáttar 1ta kap.; en fylgi menn þeirri eldri útleggingu, lendir madur í þeirri flækju, sem ei verdur úr greidt.

nefndinni. En embættismannanefndin hefir þó verid med öllu fridsöm; og jafnvel þó þad sé raunar satt, ad sögurnar tali einkum um deilur „höfdíngjanna", er samt adgætandi, ad „þjódin" lagdist trúlega á eitt med þeim þar í, og eg sé ekki hvada þýdíngu sú adgreiníng hefir, eda hvad höfundurinn hefir áorkad med því ad gjöra hana.

Med því ad ræda um Íslands fán og óbrotnu landshagi, og þad, hvorsu sjaldan hagsmunir manna lenda þar í bága hvor vid annan, hefir höfundurinn ad ritgjördinni í B. T., eins og vid mátti búast, ekki leitt huga ad hagsmunum einstöku manna, edur hérada, og ei heldur hefir hann talad um fulltrúanefnd til ad fylgja framm hagsmunum sérhvorrar stéttar sérílagi (*balancerende Interesse-Repræsentation*), edur mælt framm med slíkri fulltrúaskipun. Höfundur vor hefir því ekki í ritgjörd þeirri, er hann finnur ad, haft neitt sérlegt tilefni til ad kveda svo ad ordi „ad slíkur skodunarmáti muni án efa allsstadar sprottinn af því, ad menn hugsi framar um hag einstakra stétta, en allra í einu, og hann hefji því ekki hugann nógu hátt, eda jafnt yfir alla þjódina, þegar menn tali um hinn eiginlega kjarna edur adalmid fulltrúaþínga" (sbr. F. P. bls. 82. En merkilegast er þad, ad höfundurinn skömmu sídar, þegar hann minnist á stjórnfrædisþorsk sinn („Politiske Stokfisk") Austfjarda bréfid, er látid hefur í ljósi ógreinilegar hugmyndir og „eintrjáníngslegar" um fulltrúaskipunina, seigir, ad þar sé „sagt fyrir, hvorsu haga ætti, ef fara skyldi eptir hag stéttanna í fulltrúaskipun, med miklu meiri nærfærni og umhyggjusemi um allra gagn, enn höfundurinn gjörir. Hér má sjá hvorsu mikid vinátta og stallbrædralag má sér á stundum.

Þar sem höfundurinn gefur í skyn: ad íslendska þjódin hafi „eitt sinn verid flett öllum verjum med ofbeldi danskra fógeta og mannhunda þeirra, er þeim veittu", þá skyldu menn, af því er hann bætir vid beinlínis á eptir: „þvert ofan í vilja og ósk konúngs" (í danska frumritinu stendur: Kongens) ætla, ad

høfundurinn væri ad tala um vora tíma; en þar høfund-urinn hefir hér án efa augastad á tímanum, sem fyrir laungu er lidinn — því annars mun því ei verda neitad, ad ordatiltæki hans séu ódidurkvæmileg mjøg og ofhermd — svo verda menn ad álíta, ad ordin: þvert ofan í vilja og óſk konúngs, séu ordin ad nokkurskonar máltæki hjá høfundinum, sem hann brúkar vid øll tækifæri og ber fyrir sig, hvornig sem á stendur. Af því høfundurinn ſkírskotar svo þrávalt til vilja og óskar konúngsins í þessu málefni, ætla eg hér eitt sinn fyrir øll ad gjøra þá athugasemd; ad sú háttsemi vyrdist mér ei ad eins ódidurkvæmileg, heldur jafnvel í þessu málefni hneigslanleg og velsæmi gagnstæd, sífelt ad blanda nafni konúngsins inn í ritdeilurnar; því tilskipun frá 8. marts 1843 inniheldur jafnvel skýlausa ályktun konúngs, er leida átti málefni þetta til lykta, eptir nákvæm-ustu ransókn, þar sem úrskurdurinn frá 20. maii 1840, í því tilliti, sem hér er skírskotad til hans, inniheldur ein-úngis nokkurskonar tilkynníngu fyrirframm um vilja konúngs í þessu efni. Eg ætla ekki ad hagnýta mér efni þad til fleiri athugasemda, er adferd þessi géfur tilefni til, heldur ein-úngis géta þess, ad ef mótstødumenn høfundarins hefdu farid eins ad rádi sínu, mundi þad, ad því sem ráda má af ritdeilumáta hans, hafa géfid honum tilefni til ad koma med ýmsar, ef til vill nokkud ískyggilegar gétgátur.

Høfundurinn heldur, ad sá, sem metur sakamálapen-íngana til jafns vid alþingis kostnadinn, hljóti „ad líta á peníngahædina eina", (høfundurinn hefir sjálfur audkénnt þetta ord). Þetta eru hinar mestu øfgar, og votta litla umhugsun. Rádgjafaþing mundu lítid gagna, ef løg þau, er refsa glæpum og illgjørdum, væru burtutekinn ásamt stift-unum þeim, er annast skulu um hlýdni vid þau, eda med ødrum ordum: ef øll réttar- og laga-skipun væri óнýtt og afmád.

Høfundurinn stendur fast á því, ad „mannfjøldinn í hrepp-unum allstadar" á Íslandi sé „nokkurnveigin jafnmikill", til ad hnekkja þeirri athugasemd, ad fjølmennustu hrepparn-

ir mundu ráða kosníngunum, ef kosið væri í hvorjum hrepp fyrir sig. Sé rennt auga yfir töblunna bls. 73 að framan, yfir tölu búenda og kjósenda í hvorjum einstökum hrepp í Árnessýslu, mun hún best géta sannfært lesendurna um, hvorsu réttilega höfundurinn heldur þessu framm. Líkur mismunur á bændatölu í hreppunum, eins og tablan sýnir að er í Árnessýslu, finnst í öllum þeim sýslum, sem eg þekki til á Íslandi.

Höfundurinn hefir með miklum sanni gjört ráð fyrir, að á Íslandi, eins og annars hvervetna, kunni að hittast einstakir „eigingjarnir menn og hégómleigir, er einúngis þætti undir því komið að trana sér framm í röð alþíngismanna, þótt ekki hefðu þeir neinn annann tilgáng æðri eður háleitari fyrir augum sér". Það er einmitt til að bægja slíkum mönnum frá þínginu, að eg óska eptir einsærum kosníngarmönnum og skynsömum, er ei láti fánga sig í því neti, sem hinir leggja fyrir þá, til að troða sér framm í fulltrúanefndina.

Af því sem áður er sagt, munu menn hafa tekið eptir því, að eg í „athugasemdum" mínum hafði kallað nokkra af löndum mínum í Kaupmannahöfn „únga". Næst því sí og æ, í framan umræddum ritgjörðum, að tjá mér óánægju sína útaf þessu, hafði höfundurinn tekið þessu, svo kallaða brígslyrði með þeirri athugasemd, að þeir ýngstu af téðum löndum mínum, gætu í Kansellíinu feingið aldurs leyfi (*veniam ætatis*) til að vígjast til presta á Íslandi. Þessi athugasemd, er meðal annars er svo kátleg, að hún einmitt játar það að vera rétt og satt, sem hún ætlar sér að niðurbrjóta — því þeir, sem ekki eru úngir, þurfa ekki aldursleyfi — gaf höfundinum í B. T. tilefni til þess spaugsyrðis, er í fleiru tilliti átti mjög vel við, að menn mættu ætla, að höfundurinn, er skráð hefur ritgjörðina á móti athugasemdum mínum, væri einn af þeim ýngstu, sem gætu sókt um aldursleyfi, og að „menn kynnu leiðast í þá freistni, að óska" að honum geingi ekki svo greitt að fá það. Ut af þessu hefir

nú höfundurinn tekid sér tilefni til ad atyrda mótstödu-mann sinn á svo óvidurkvæmilegann hátt fyrir „andlegt rádleysi og ónytjúngsskap“, ad þad er audsætt, ad höfund-urinn hefir af tómri gremju, ekki rádid vid sjálfann sig (*impotens sui*).

Af athugasemdum þeim, sem þegar er búid ad gjöra vid þessa og næst á undan ummrædda ritgjörd, munu menn kannast vid, ad höfundurinn hefir í sídarnefndri rit-gjörd kvedid upp fyrirdæmíngardóminn yfir hinni íslendsku embættismannanefnd í Reykjavík. Dómur þessi er svolát-andi: „ad nefndin einganveiginn hafi gétad gjört sér ljósa og fasta hugmynd um stödu landsins og ásigkomulag, þegar á allt skyldi líta, né sett sérhvort mál á þann stad, sem þad átti med réttu. Nefndin hefir annadhvort ekki þekkt landsins sönnu naudsynjar, eda ekki gefid þeim gaum, eda ekki þorad ad bera þær framm. Fyrir þessa sök eru einmitt allra mikilvægustu málefnin lakast leyst af hendi, t. a. m. skólamálid, spítalamálid og alþíngismálid“. Og þennan úrskurd seigir höfundurinn, „er sérhvor skynsamur madur, sá er þekkir til ásigkomulags á Íslandi, fyrir laungu búinn ad fella“, og ad „gyldustu rök meigi leida til þess dóms“.

Vid þennan kynlega dóm ætla eg nú fyrst ad gjöra þá athugasemd, ad hann stydst vid rángann hugsunarmáta, edur ad minsta kosti er sú hulda og ónákvæmni yfir hon-um, sem er sífeldur anmarki á mörgu því, sem höfundur-inn skrifar. Menn verda ad álíta, ad sá, er ei gétur gjört sér ljósa og fasta adalhugmind um stödu landsins og ásigkomulag, þekki ekki heldur verulega þörf landsins. En nú er hid fyrra sagt hiklaust og skilyrdislaust um nefndina, en hid sídara þar á móti bundid vissu skilyrdi, sem sýnir, ad hugsanin er ekki nákvæm. Þad er þó ekki ad eins hin nefnda ónákvæmni í hugsunum höfundarins, heldur léttúd sú, hvar med hann hvarflar frá ad sakfella nefndarmennina fyrir þekkíngar- og dugnadarleysi, til ad bregda þeim um hugleysi og óhreinskilni, og hvar med hann því hefir aidrad sidferdislegum þeinkíngarhætti þeirra

og breytni sem hér verdskuldar, ad hardlega sé ad fundid. Því næst verd eg ad seigja, ad þad eru kunnug og veruleg ósannindi, þegar høfundurinn fer því framm, ad framanrédur dómur sé fyrir laungu feldur „af øllum skynsømum mønnum, er þekki til ásigkomulags á Íslandi, uns høfundurinn færir sønnur á mál sitt, med þeirri ástædu, sem eptir edli málsins, er hér sú eina gyldandi, nefnilega med því, ad allir þeßir menn felli hér um atkvædi.

Eptir þeßar athugasemdir ætla eg nú ad prófa þær svo kølludu „gyldustu ástædur" fyrir fyrirdæmíngardómi þeim, sem høfundurinn fellir yfir Reykjavíkur nefndina. Høfundurinn tiltekur 3 málefni, er nefndinni vóru feingin til medferdar, nefnilega: skólamálid, spítalamálid og alþíngismálid, svo sem til sannindamerkis, annadhvort um dugnadarleysi og vankunnáttu, edur óhreinskilni nefndarinnar. Í tilliti til skólamálsins gjørir hann þá athugasemd, ad nefndin hafi haft þad verkefni á hendi, bædi ad athuga, ad hvad miklu leiti endurbót skólans, er menn hugdu til, skyldi gjørd verda á Beßastødum, edur í Reykjavík, og líka, ad hvad miklu leiti Ísland sjálft gæti stadist þann kostnad, er leiddi af endurbót skólans. Í tilliti til fyrra atridisins, ber hann nefndinni á brýn, bædi ad hún hafi med ofmiklu kappi og málaleingíngu þráttad um stadinn, hvar skólinn skyldi endurbætast, og ad hún hafi þó ekki rædt þetta málefni til fullnustu, þar nefndin hafi ei gefid uppskátt hvar skólinn skyldi standa í Reykjavík sjálfri, og hafi því þetta á eptir ordid ad laungu umtalsefni, sem høfundurinn aptur á mót sýnist ad leggja nefndinni til lýta, er hann leggur undir dóm lesendanna, hvort þad sé ad gánga til grunns í málinu, „ad søkkva sér nidur í þeßkonar smásmuglega keppni um húsastædi". Í tilliti til sídara atridisins telur hann þad nefndinni til yfirsjónar, ad hún hafi ekki fært sér gefid tækifæri í nyt, til ad rannsaka fjárhag skólans; ad hún hafi einskordad sig vid, ad fullvißa menn um, ad ómøgulegt væri ad útvega skólanum annann styrk hér á landi, enn sjód þann er

hann eigi þá; ad allir — høfundurinn einkennir sjálfur þetta litla ord — nefndarmenn hafi gjørt ráð fyrir, ad skólinn ætti ad eins 52,135 ríkisdali til ad kljúfa framm- úr 6-7,000 ríkisdala árlegum útgjøldum, í stad þess, ad høfundurinn reiknar høfudstól skólans meir enn þrefalt meira enn þessa upphæd; og ad hún hafi ei med krapti rekid á eptir endurbót skólans. Hér af dregur hann nú þá ályktun, ad nefndarmenn hafi ekki gætt hagsmuna lands- ins, ekki verndad réttindi þess, og ekki þekkt, gefid gaum ad eda borid framm, naudsynjar þess.

Fyrra atridid, vidvíkjandi stadnum, hvar skólinn skyldi endurbætast, hvort þad nefnilega skyldi vera á Bessa- stødum, þar sem skólinn er nú, edur hvort hann skyldi flytjast í Reykjavík, áleit nefndin med réttu, ad vera einkar mikilvægt, eins og sjá mátti fyrir, ad ályktun sú, er í þessu tilliti gjørd yrdi, mundi hafa mjøg mikilvægar af- leidíngar. Þad var því øldúngis tilhlýdilegt ad þetta atridi væri ítarlega rædt. Adalatridi þau, er í þessu tilliti, á ad gefa gaum ad, eru meir komin undir því, hvornig hagar til bædi í Reykjavík og á Bessastødum, enn hin ønnur, er vid endurbót skólans verdur ad hafa tillit til, og þess vegna var þad naudsýnlegt, ad þessi adalatridi væru rædd nákvæmlega á alla vegu, svo hlutadeigandi stjórnarráð gætu í þessu tilliti feldt ástædugódann úr- skurd. Brígslid, sem høfundurinn bregdur nefndinni fyr- ir, ónaudsýnlega málaleingíng í þessu tilliti, er þessvegna øldúngis ástædulaust. Þetta brígsl virdist ei heldur ad vera meint í alvøru; því strags á eptir bregdur hann nefndinni um, ad umræda hennar í þessu tilliti sé ad því leiti ófull- komin, sem hún ei hafi talad um stadinn í Reykjavík sjálfri. hvar skólahúsid skyldi standa. En þetta þykkju- yrdi sýnist ekki heldur ad hafa verid alvara høfundarins, þar hann kallar umræduna smásmuglega keppni um húsa- stædi. Þad er því audsætt, ad nefndin mundi ei hafa ordid høfundinum til hæfis, hvort heldur sem hún hefdi lagt úti þá umrædu, er hann æskir, eda leidt hana hjá

sér; eins og það líka er abgætandi, að það var ekki nefndin er hefir képpt smásmuglega um húsastæði, eins og høfundurinn að orði kveður. Hvað útásetníng sú, sem løgud er eptir þvílíkum mælikvarda hefir að þýða, að því þarf eingum ordum að eyda. Hún vyrdist ei géta haft annann tilgáng, en að nidra þeim og meida, sem hún vill koma á knén. Í tilliti til sídara atridisins eda rannsóknar þeirrar á fjárhag skólans, er høfundinum þykir vanta, ætla eg einúngis að gjøra þá athugasemd, að slík rannsókn mundi hafa ordið bædi gagnslaus og ótímabær. Gagnslaus, af því nefndina vantadi því nær øll skírteini, er vóru naudsýnleg til að géta náð nákvæmri og áreidanlegri nidurstødu; og ótímabær, af því það sýndi sig af skjølum þeim, er løgð vóru fyrir nefndina, að stjórnarrádin vóru ei búin að ræda málið til fullnustu, og að rannsókn sú, er þau í því gjørt høfðu, ei var til lykta leidd. Að nefndinni hafi sést yfir í því, að hún ei geymdi skólanum rétt sinn, er sú meiníng, á hvorri traudlega neinn kunnugur madur og óhlutdrægur mun verða með høfundinum. Slík réttargeymsla (Reservatio) mundi ei að eins hafa verið øldúngis ónaudsýnleg, þar eð skólinn mundi øldúngis ekki missa rétt sinn að heldur; heldur mundi það þar að auki hafa verið mjøg ótilhlýðilegt, þar eð það, er stjórnarrádin létu í ljósi, vitnadi um, að þeim væri mjøg ant um endurbót skólans, og nefndin hafði jafnvel orsøk til að álíta, að eptir skodunarmáta stjórnarrádanna. skyldi ei horfa í peníngana til að endurbæta skólann til fullnustu. Að koma með tilgángslausa réttargeymslu, þegar svo stóð á, hefði sýnt vantraust á stjórninni, sem hvorki samsvaradi tilfinningum edur skodunarmáta nefndarinnar, og til hvors ei heldur var neitt sennilegt tilefni. Það hefir líka sídan að nokkru leiti sýnt sig, að slíkt mundi hafa verið ónaudsýnlegt, þar Rentukammerið hefir boðið að hækka Skálholts góts jafngyldið (Schalholtske Æqvivalent), sem að søgusøgn høfundarins hleypur frá 62,500 rbd. til 70,000 rbd.

Ad nefndin, eins og málinu var þá komid, þóktist þess ei umkomin, ad stínga uppá skatti vid stjórnina, til ad kljúfa med frammúr kostnadi þeim, er hlyti ad rísa af endurbót skólans, mun víst hvør madur, nema høfundurinn ef til vill, finna á gódum røkum byggt. Auk þess sem fleiri íssjárverd atridi øptrudu nefndarmønnum frá slíku fyrirtæki, hlaut þad med øllu ad aptra þeim frá slíkri uppástúngu, ad tími var ei þar til kominn, medan ei var búid ad sýna þad til fullnustu, hvørnig fjárhagur skólans stædi, og ei var búid ad leisa úr þeirri spurníngu, hvørt ríkissjódur Dana vildi ei láta meira af hendi rakna til skólans, heldur enn jafnadarreikníngur yfir útgjøld og inngjøld hans ad nafninu til (*nominel* Opgjørelse) eda eptir tølustøfunum, leiddi til.

Þar sem høfundurinn segir, ad allir nefndarmenn hafi álitid, ad skólinn ætti ad eins lítid meir enn 52,000 ríkisdala, þá fer høfundurinn þessu eins ránglega framm, sem mørgu ødru. Fjórir af nefndarmønnum, er rédu til ad flytja skólann til Reykjavíkur, hafa aldrei látid neitt þvílíkt í ljósi, hvad ed mun sjást med því ad bera nefndartídindin f. 1839 bls. 90, saman vid bls. 74 og 93[22]. Annars sést þad af tédum tídindum, ad þetta ordatiltæki er tekid úr bréfi háskólastjórnarrádsins frá 10. april 1838, og er med þessari tiltekinu upphæd, líklega meint til høfudstóls skólans, er hann hafdi til umráda, og til vard tekid, þar hid svo kallada Skálholts góts jafngyldi er, eptir því sem Rentukammerid hefir ad ordi kvedid, ad álita sem fasta innstædu, af hvørri verja skal ávøxtunum til árlegra útgjalda skólans.

Ad svo miklu leiti høfundurinn loks hefir brugdid

---

[22]) Lík ónákvæmni kémur einnig fyrir hjá høfundinum „4 Þættir“ bls. 71) hvar hann gjørir gis ad minni-hluta nefndarinnar, fyrir þad hann hafi brúkad ordin: „fødurleg umhyggja“ þad er øll nefndin, er hefur gjørt sig seka í þessari yfirsjón; og eg vona, hún fái borid þann ábyrgdarhluta, er þar af rís.

nefndinni um, ad hún hafi ekki kröptuglega rekid á eptir endurbót skólans, þá er brigslyrdi þetta einnig öldúngis ó-réttvíst. Í nidurlagi álitsskjals síns (sbr. nefnd. tídindi bls. 109), hefir öll nefndin mælt svofeldum ordum: „vér viljum ad lyktum — bera framm þá sameiginlegu ósk vora, ad endurbót skólans sem nú er fyrir höndum, og í mörgu tilliti er einnig harla naudsýnleg, fari framm sem allra fyrst henni gétur ordid á komid, hvort heldur hún verdur á Bessastödum edur í Reykjavík". Jafnvel þó þessi ósk sé ei svo kröptuglega, eda réttara ad seigja, svo áfergjulega frammborin, sem höfundurinn mundi hafa óskad, munu þó flestir kalla hana næga, og eiga ekki illa vid.

Af því, er nú hefir verid sagt, mun audsætt, ad þad sem höfundurinn setur útá atgjördir nefndarinnar í skóla-málinu, er sumpart rángt og ástædulaust, og sumpart þýd-íngarlaust, og ad þess vegna dómur sá er höfundurinn hefir viljad byggja þar á, verdur ad álítast öldúngis ómerkur.

Í tilliti til atgjördanna í spítalamálinu hefir höfund-urinn tilgreint þad svo sem adalumkvörtun, ad nefndin hafi ei stúngid uppá, ad allir 4 spítalarnir á Íslandi yrdu sam-einadir og gjördur úr þeim einúngis einn adal-spítali, og fyrirliggjandi eignum þeirra varid sumpart til ad byggja sjúklíngahús, og sumpart til ad launa spítalalæknunum, í stad þess ad nefndin hafi stúngid uppá, ad til reynslu skyldi fyrst gjörast endurbót á spítalanum á Kaldadarnesi, og haga henni þannig, ad fyrst um sinn væri ei tekid á fyrirliggj-andi eignum spítalans. Umkvörtun þessi er samt öldúng-is ástædulaus Hid verulega mid, sem menn eiga stödugt ad hafa fyrir augum sér, vid endurbót hinna íslendsku spí-tala, er ad gjöra úr þeim lækníngahús, í stad framfærslu-stiptana, hvar af þá leidir aptur, ad hvör spítali á ad setj-ast undir umsjón og stjórn læknis. Þetta hefir nú hin ís-lendska nefnd séd gjörla, og þar á eru uppástúngur henn-ar í tilliti til spítalans í Kaldadarnesi, bygdar. Þad sem því höfundurinn telur til um óhentuga skipun hinna ís-lendsku spítala nú, kémur því þar framm, sem þad á ekki

vid, þar þetta er í ítrasta máta vidurkénnt, og sagt af Reykjavíkurnefndinni. Þessari nefnd hefir aldrei komid til hugar ad mæla framm med, edur studla til, ad spítølunum væri haldid vid lídi í því ásigkomulagi sem þeir eru nú, heldur miklu framar mælt framm med naudsýnlegri endurbót þeirra. Þó nefndin hafi ekki mælt framm med, ad spítalarnir væru lagdir nidur, og sameinadir í einúngis eina stiptun, er þad fyrir hvørjum kunnugum manni og sem ei á hlut ad máli, svo bersýnilega rétt, ad til þess útheimtist ei allítil léttúd og hugsunarleysi ad fara framm því gagnstæda. Høfudstóll spítalanna nú, er ordinn til af árlegum tilløgum frá innbúum þeirra sveita, sem í þessu tilliti liggja til hvørs spítala. Innbúar þessara sveita, eiga því med retti og sanngyrni tilkall til, ad þeir menn, sem þar eru holdsveikir, njóti adstodar, og líka adhjúkrunar og grædslu á spítølunum, þá búid er ad endurbæta þá. Þetta réttvísa tilkall mundi nú, søkum tálmana þeirra, er landslagid á Íslandi leggur í veginn fyrir flutníng hinna holdsveiku yfir lánga og torsókta fjallvegu, verda øldúngis ad eingu, ad svo miklu leiti vestur- nordur- og austur-land snertir, ef allir spítalarnir væru lagdir nidur og gjørdir ad einúngis einum spítala, annadhvort á Kaldadarnesi edur í Reykjavík. Afleidíngarnar þar af mundu verda þær, ad einúngis innbúarnir í 4 eda 6 næstu sýslunum mundu hafa gott af hinum nýja spítala. Slík málalok eru svo gagnstæd øllum rétti og sanngyrni, ad nefndinni gat aldrei dottid í hug ad mæla framm med þar ad lútandi uppástúngu, og høfundurinn mun víst, ef hann vildi koma med áþekka uppástúngu á alþíngi, reka sig á svo samtaka mótspyrnu, ekki ad eins hjá yfirvøldum og innbúum vestur- nordur- og austur-amtanna, heldur einnig hjá øllum sanngjørnum mønnum í sudur-amtinu sjálfu, ad uppástúnga hans mundi ræk verda. Med því ad sameina spítalana med þeim hætti, sem høfundurinn hefir stúngid upp á, mundu menn líka fara á mis vid annad mjøg mikils vert hagrædi, sem nefndin med uppástúngu sinni hefir sífelt haft fyrir augum sér,

og leitast vid ad ná, þad nefnilega, ad fjølga læknum á Íslandi, med því ad setja einn læknir yfir hvorn spítala, og þannig talsvert ad nálgast takmarkid, sem vert er ad kepp= ast ad, nl. ad einn læknir yrdi tilskipadur í hvorri sýslu á Íslandi. Ad vísu óskadi nefndin, ad *Dr.* Hjaltalín, er einkum hafdi lagt stund á hørundskvillafrædi (Hudpatholo= gie), yrdi settur spítalalæknir vid spítalann á Kaldadarnesi, en eins og menn, þá er nýtt skipulag og ný endurbót er gjørd á slíkum stiptunum, eiga ad leggja almennings álit, en ekki krøfur einstakra manna, edur sérlegar óskir til grund= vallar, eins hugdu menn ekki, þá stúngid var upp á hvor laun og hlunnindi spítalalæknirinn skyldi hafa, ætti ad hafa tillit til þeirrar sérlegu krøfu, sem *Dr.* Hjaltalín, samkvæmt stødu sinni, mátti álíta sig hafa rétt til ad gjøra, heldur létu menn sér nægja ad stýnga upp á þeim launum, er jafn= vel eru nokkud hærri enn þau, sem nú eru áskilin hér= adslæknum á Íslandi; og þar bædi danskir og íslendskir *Candidati Chirurgiæ* hafa híngad til sókt um læknisem= bætti þessi, svo gátu menn med rétti gjørt rád fyrir, ad med tímanum mundu duglegir og fullfærir Candidatar sækja um spítalalæknisembættin, þegar þau væru ordin eins ard= søm og héradslæknisembættin. Høfundurinn hallmælir nefnd= inni fyrir þad, ad hún stakk upp á, ad spítalalæknirinn skyldi taka vid spítalalimunum sem nú eru, til adhjúkrun= ar med sømu kjørum, sem híngad til; en hvor madur, sem lætur sér segjast betur enn høfundurinn, mun finna, ad nefndin hafi haft rétt í ad vilja ei hrekja þá 3 gømlu og hrumu limi, (af hvorjum 2 eru sídan dánir), burt frá spítalanum, hvar þeir høfdu feingid fullkominn rétt (*jus quæsitum*), til frammfæris og adhjúkrunar, og ad þessum rétti væri fullnægt, máttu hlutadeigandi sveitir samkvæmt løggjøfinni, einnig álítast ad géta krafist, fyrir hønd tédra lima af spítalanum; hvar vid bætist enn nú, ad endurgjald= id fyrir spítalalimina er svo ríflegt, ad framfæri þeirra, yfir høfud ad tala, álítst ekki ad vera nein byrdi fyrir spítala= haldarann. Einnig mun þad fá medhald hjá øllum óhlut=

drægum mønnum, ad nefndin hefir ei stúngid upp á, ad fyrirliggjandi eignum spítalans, undir hvorra vardveitslu þad er sídar meir ad nokkru leiti komid, hvad gott spítalinn afrekar, skyldi vera eydt til ardlausra fyrirtækja, svo sem t. ad m. til ad byggja kostnadarsamt og skrautlegt íbúdarhús handa spítalalækninum, er ei sídur enn adrir læknar og embættismenn á Íslandi, gjøra má rád fyrir géti sjálfur séd sér fyrir naudsýnlegu húsnædi. Þar á móti er stúngid upp á ad tilhlýdilegt húsnædi edur íbúdarhús handa sjúklíngum þeim, er kjæmust inn á spítalann til grædslu, yrdi byggt á kostnad spítalans. Annars sýnist høfundurinn ei hafa haft neina einhlýta meiníngu um málefni þetta, heldur einúngis hafa studst vid þad, er *Dr.* Hjaltalín seigir um þad í riti sínu „om Leproserne", hvad hann vyrdist ad hafa álitid eins og óyggjandi sannindi. Hér á þad ad vísu ekki vid ad gjørskoda innhald téds rits, en eg ætla samt ad drepa á nokkud af því er stendur í nánasta sambandi vid málefni þad, er hér er um rædt. Í ritinu „om Leproserne" hefir *Dr.* Hjaltalín stúngid upp á ad almennur spítali fyrir Ísland allt, væri settur á stofn á Kaldadarnesi; í ritgjørd nokkurri, er inniheldur uppástúngu um læknaskipun á Íslandi, prentadri í „Nýum Félagsritum" 1844, hefir hann þar á móti stúngid upp á, ad þessi spítali edur sjúklíngahús væri stofnad í Reykjavík. Eg ætla nú ekki ad takast hér á hendur ad sýna hvor af þessum 2ur uppástúngum á skilid ad vera í fyrirrúmi; en víst er þad vel farid, ad stjórnin ei fellst á kostnadarsamar endurbótatilraunir eptir því líkum uppástúngum, sem frumkvødlar þeirra gjøra, med miklu sjálfstrausti þetta árid — til ad taka þær aptur hitt árid, og koma aptur med adrar hinum øldúngis frábrugdnar. Í tédri ritgjørd hefir *Dr.* Hjaltalín einnig farid því framm, ad Nordmenn séu nú ordnir sannfærdir um, ad holdsveiki sé læknanleg, og hafi því von um, innan skamms ad géta útrýmt henni med øllu. Til ad sýna hvad áreidanleg þessi søgusøgn er, ætla eg ad leyfa mér ad vísa á skýrslu, til hinnar norsku ríkisstjórnar frá H. Steffens

varalækni, sem prentud er í „norsk Magazin for Læge-videnskab 6. B. 3ie H." fyrir maí og júní 1843, þar seigir svo bls. 260--261.

„Hin óheppilegu afdrif, sem allar lækninga tilraunir „þær, er um lángann tíma gjørdar hafa verid á Reknes-„spítala og Þrándheimsamts sjúklíngahúsum, hafa haft, géfa „því midur, einga góda von um, ad sýki þessi sé læknanleg, „þar ed varla til þessa hefir neinn árángur ordid á neinum „ødrum stad í landinu, hvar feingist hefir verid vid holds-„veiki, og þar ed reynt hefir verid ad brúka þau medøl, sem „annars eru hin krøptugustu vid ødrum illkynjudum hør-„undskvillum.

„Af reynsluuni, sem til þessa er kunn ordin, hygg eg „nefnilega, ad menn ei med vissu géti álitid ad holdsveiki „sé læknanleg; því einstøku skírslur frá útløndum um „heppilega grædslu, sanna ad ætlun minni ekkért, medan „þær ei géfa nákæmustu lýsíngar um heilsufar hinna græddu „sídar meir. Ad tekist géti ad eyda útvortis einkénnum „sjúkleikans um tíma, þad hefir reynslan í landinu líka kénnt, „en þar ed hann hættir aldrei ad taka sig upp aptur ad nýu, „er þad edlilegt, ad menn líti med tortryggnum augum á „alla þá grædslu, sem þeir ei vita med vissu hvad láng-„vinn verid hefir edur ekki, og þeirrar tegundar eru øll „þau sjúkdómstilfelli, sem af ritum eru mér kunn ordin. „Ef nú reynslan, er menn til þessa hafa haft, géfur má-„ské einga átillu fyrir ad sjúkdómurinn verdi læknadur, má „víst álíta þad mjøg tvísýnt, hvort og hvonær takast muni „ad lækna holdsveiki frá rótum; má ské menn verdi „svo heppnir á fáum árum, má ské á 100 árum, má ské „aldrei."

*Dr.* Hjaltalín reiknar skada þann, er 200 holdsveikir menn vinna Íslandi á vid 16,200 rbd. missi á ári; framm-færi þeirra metur hann nefnilega, 8,200 rbd. og vinnumissi þann, er sjúkdómur þeirra veldur, 8000 rbd. Þad er nú audsætt, ad þessi reikníngur er øldúngis rángur og sam-inn af handa hófi. Þad er nefnilega seinasta talan ad

eins, er hér ætti ad koma til skodunar, edur reiknast med; því adrir menn, edur þeir sem ekki eru holdsveikir, þurfa eins føt og fædi og þeir sem holdsveikir eru, og høfundurinn mun varla fara því framm, ad ágódinn af vinnu hvors verkfærs manns á Íslandi hlaupi, ad kostnadinum frádreiknudum, til jafnadar 40 rbd.; því ef svo væri, hlyti Ísland innan fárra ára, ad verda ad tiltølu eitthvort hid ríkasta land í heimi. En øll hin ofan téda upphæd á ei einusinni ad metast sem vinnumissi; því margir af þeim, er reiknast í tølu holdsveikra, eru enn nú verkfærir, og vinna því félaginu gagn. Þetta á ekki einúngis heima hjá þeim, sem skamma stund hafa verid veikir, heldur einnig hjá mørgum þeim, sem leingur hafa verid veikir, þegar þess háttar menn, svo sem húsbændur og húsmædur, géta enn nú veitt búi sinn forstødu, og pégna ad mestu skyldum køllunar sinnar. Loks eru ei allfáir holdsveikir, er søkum elliburda og vanmáttar mundu vera ófærir til vinnu, jafnvel þótt eigi væru þeir holdsveikir. Þegar øll þessi atridi eru vandlega skodud, mun ofantéd upphæd 8,000 rbd. géta ordid talsvert minni. Jafnvel þó nú reikníngur *Dr.* Hjaltalíns sé mjøg skakkur, hefir þó høfundur vor verid svo andtrúa, ad skýrskota til hans, svo sem væri hann „óbrygdullt sannindamerki", eins og hann líka hefir talid þad víst, ad lækna megi holdsveiki og innan skamms útrýma henni.

Þad sem nú hefi eg sagt, væntir mig ad nóg sé til ad sýna, hvort þad, er høfundurinn hefir fundid ad medferdinni á spitalamálinu, sé á svo gódum røkum bygt, eda hvort álit hans á þessu málefni hafi verid svo rétt, og álit nefndarinnar svo skakkt, ad hann því géti verid þess umkominn, ad hallmæla nefndinni fyrir vanþekkingu og óhreinskilni.

Þær ítarlegu athugasemdir um alþíngismálid, sem nefndar eru hér ad framan, munu einnig til fullnustu sýnt hafa og sannad, hvorsu høfundurinn hefir øldúngis ekki verid þess umkominn ad byggja á medferd þessa málefnis

þann vanvirdulega dóm um nefndina, sem hann hefir leyst sér ad kveda upp.

Enn nú ætla eg ad lyktum, ad drepa á eitt sem höfundurinn seigir, er lýsir nokkuruveiginn blænum í ritdeilu hans. Hann fer því nefnilega framm, ad tilgreina meigi önnur málefni, er midur hafi verid af hendi leyst — enn skólamálid, spítalamálid og alþínglsmálid — t. a. m. hefdarmálid, og ef menn vilja vegabótamálid.

Þegar stjórnin árid 1839, eptir uppástúngu amtmannsins í vesturumdæminu, hafdi beidst álits nefndarinnar um þá spurníngu, hvort hin dönsku hefdarlög, hvorjum réttargángs venjan hér á landi hafdi þokast nær og nær, ætti ad gjörast gyldandi á Íslandi edur ekki, þá sá nefndin, ad málefni þetta vard eigi rædt til fullnustu á fundi þeim, er haldinn var þad ár, bædi af því ad efni þad, er hefdarlögin eiga ad skipa um, er eitthvört hid vandhæfasta og smágjörfasta, og, eigi vel med þad ad fara, útheimtir ad nákvæmlega sé litid yfir eigna ásigkomulag og hefdarhaldsmáta þann, sem gyldir hjá þjódinni, og hid sanna edli og þýdíng þeirra lagahugmynda sem þar ad lúta, séu rétt skilin, og af því. ad medan á málinu stód, kom framm uppástúnga, laung og skarpviturlega samin af Thorarensen heitnum amtmanni, til ad skipa um málefni þetta med öldúngis nýum ákvördunum fyrir Ísland sérílagi, hvor uppástúnga útheimti ástædugóda og nákvæma rannsókn, ádur enn rádid var til, annadhvort ad fallast á hana, edur hafna henni; svo og af því, ad málefni þetta sýnist eptir edli sínu, eiga skyldt vid adgjördir þeirrar nefndar, er sett var til ad endurskoda Jónsbókina, og sem á næsta fundi 1841, átti ad leggja framm rannsóknargjörd sína, og ad sídustu af því ad þeir af nefndarmönnunum, er best vóru ad sér í lögspeki, vóru önnum kafnir í ödrum málefnum, er sídur máttu bída. Nefndin mæltist því til, ad nákvæmari rannsókn á málefni þessu væri tédri Jónsbókarnefnd á hendur falin, hvad Kansellíid einnig samþykti. Fyrir hönd nefndar þessarar samdi eg álitsskjal um málid, er flestir af nefndarmönnunum

á fundinum 1841 mæltu framm med í høfud atridun- um, hvar eptir málid var loksins útkljád og sendt hlut- adeigandi stjórnarrádi med álitsskjali nefndarinnar, sømdu af Justitiarius P. Sveinbjarnarsyni Og þar ed nú hid konúnglega danska Kansellí med bréfi til háyfirvaldanna á Islandi, dagsettu 18. maí 1843, hefir tilkynnt, ad laga- frumvarp úm hefd og fyrnindi réttinda, samkvæmt frum- varpi nefndarinnar, mundi verda lagt fyrir alþíngid, þá er þad fyrst kémur saman, svo gétur þetta atvik verid til merkis um, ad þetta málefni hefir ei verid svo illa eda lak- lega af hendi leyst, sem høfundurinn vill géfa í skyn.

Þar ed nefndin ei útkljádi vegabótamálid af orsøkum þeim, er eg þori ad seigja vóru vandlega skodadar og full- gyldar, þá er þad gagnstætt allri vidtekinni sidvenju, og á hvorgi heima, ad seigja ad mál þetta hafi verid illa eda laklega af hendi leyst. Hefdi høfundurinn í tilliti til þessa málefnis átalid nefndina fyrir hlédrægni edur adgjørdaleysi, þá mundi þad ad forminu til, ekki hafa verid ógylt, en allt mundi þá hafa verid komid undir ástædunum sem høfundurinn hefdi fært fyrir átølum sínum ad efninu til. Nú þar hann hvorki hefir komid med slíkar átølur, né heldur fært røk til þeirra, svo hlýtur allt þad er hann hefir sagt um þetta málefni, ad álítast, sem ástædulaust í øllu tilliti.

Eptir ad eg hefi rannsakad hinar svo kølludu „gyldustu dómsástædur" hofundarins og sýnt, ad þær eru ógyldar ad øllu, vil eg nú bidja hyggna lesendur og óhlutdræga ad dæma um adferd høfundarins, og vil eg bidja sjálfan hann ad leggja undir dóm samvitsku sinnar, hvort velsæmi, sann- gyrni og réttvísi hefdi eigi krafist, ad hann med meiri varúd og minni einhæfni hefdi íhugad og vyrt fyrir sér „dómsástædurnar", ádur enn hann leyfdi sér svo berlega og freklega ad fella nidrunar-dóm, yfir heidvyrda landa sína, sem eptir bestu þekkíngu hafa grandvarlega rannsakad málefni þau, er fyrir þá vóru løgd, og leitast vid ad vinna gagn ættjørdu sinni; sýnir þad sig og, bædi af því sem med berum ordum hefir verid í ljósi látid, og líka af því, hvada

afdrif málefni þau hafa feingið, er fyrir nefndarmenn vóru løgð, að stjórnarráðin, er bæði vóru því vagsinn og þess umkomin, hafa dæmt allt øðruvísi, um størf þeirra, í samanburði við hvorra dóm, einhæfur og ástæðulaus vitnisburður høfundarins ei gétur haft minnsta gyldi.

---

Eptir að mestur hluti þessarar ritgjørðar var saminn, útkom enn þá ritlíngur „um alþíngi í tímaritinu „Fjølnir", sem „útgéfið" er í Kaupmannahøfn 1844. Í ritgjørð þessari hvetur hinn ónefndi høfundur landsmenn sína inni-lega til að senda hinu fyrsta alþíngi bænarskrár þess efn-is, að þíngið beiðist þeirra breytínga á alþíngisløgunum, er høfundinum þykja nauðsynlegastar og mest umvarðandi, nefnil. þessara:

1) Að kosníngarréttur verði ei bundinn við annað enn fjárforráð og óflékta mannvirðíng — eða að minnsta kosti ekki við meiri fjáreign enn 5 hundraða.

2) Að kjørgeíngi verði með øllu óbundin við fjáreign.

3) Að kosníngar verði látnar vera einfaldar.

4) Að þjóðin meigi kjósa sér 42 fulltrúa, en kjósa ann-aðhvort einga varafulltrúa, eða kjósa þá sérílagi.

5) Að alþíngi verði átt á Þíngvelli.

6) Að allt verði mælt á þínginu á íslendsku — og

7) í heyranda hljóði, eður: að þíngstofan verði øll-um opin.

Hin 4 fyrsttøldu atriðin, sem høfundurinn vill láta biðja um, hefur hann leitast við að styrkja með ástæðum og gjøra þjóðinni ljóst, að øll þørf væri á, að þeim

væri þannig skipad, sem hann telur best henta; en í þessu tilliti hefur høfundurinn lítid annad gjørt, en ítrek: ad þær ástædur, sem ádur eru taldar í ritgjørdum þeim, er eg hefi rædt um hér ad framan. Eg vil því ei leingja ritkorn þetta, med því ad skoda þessar ástædur ýtarlega, edur benda á alla þá villustigu, sem høfundurinn hefur farid. Eg skal einúngis med fám ordum drepa á fáein smá atridi, er koma fyrir einúngis í þessum ritlíngi.

Þar sem høfundurinn lýsir konúngsfulltrúanum, Kammerherra Bardenfleth, í byrjun ritgjørdarinnar, einúngis med því, ad hann kunni ekki íslendsku, þá mun flestum þeim, er þekkja konúngsfulltrúann frá því hann var stiptamtmadur á Íslandi, þykja lýsing þessi ærid ómerkileg, ef ei hatursleg, og betur hafa setid á høfundinum, ad henni hefdi verid sleppt med øllu.

Þar sem høfundurinn seigir ad eg kunni dønsku, furdar mig á slíkum vitnisburdi. Árid 1835 bls. 93 sagdi „Fjølnir" ad sýslumenn ritudu hvorki dønsku né íslendsku. Þetta hefi eg skilid svo, sem þeir kynnu hvorugt málid, en ekki, ad þeir af hrekkjum gjørdu verr enn þeir vissu. Mér fyrir mitt leiti, hefur nú ekki komid til hugar ad vefeingja þennan dóm; en þar eg med meiri vissu veit, ad mér hefur ekki neitt til muna farid framm í dønsku sídan 1835, en høfundurinn gétur borid á móti því, veit eg ekki hvornig á þessum vitnisburdi stendur, enda álít eg ei heldur ómaksins verdt ad grennslast eptir því.

Af því sem høfundurinn seigir bls. 113., er ad ráda,

ad honum þyki sem nefndarmenn þeir, er saman komu í Reykjavík, hafi ei verid færir um „ad semja bætur á løgum, og landstjórn". En ef þessir menn, af hvorjum meiri hlutinn hafdi leingi þjónad mikilvægum embættum, er ýdnglega géfa tilefni til ad hugsa um hvornig best meigi verda skipun á løgum og landstjórn, og um hvorja høfundurinn sjálfur játar, ad þeir hafi vel stadid í embættum sínum, ekkért vit hafa á, hvornig bæta eigi løgin og landstjórnina, en øll þau rád, er þeir þar til leggja, eru, eins og høfundurinn nokkurnveiginn berlega seigir, eintóm vitleysa og rángindi, hvadan mun þá bændum vorum, er lítid sem ekkért þekkja í løgum eda lagafrædi, koma sú vitska, ad þeir allt í einn strags fái séd hvad best er og réttast í slíkum vandamálum?

Høfundinum hefur ordid þad, sem opt hendir þá, er fara med yfirdrepskap og mæla annad enn þeir meina, ad hann mótmælir sjálfum sér. Hann seigir á bls. 114, ad hann bregdi ei Reykjavíkurnefndarmønnum um viljaleysi, og tjáir misskilníng hafa valdid því, er mistókst í adgjørdum þeirra; en strags í sømu andránni seigir hann þeir hafi látid landsins gagn sitja á hakanum til ad þóknast Kansellíinu, og af djørfúngarleysi. Þá kann eg betur vid høfundinn í Kaupmannahafnar póstinum, er seigir skírt og berlega hvad honum býr í brjósti, enn vid slíka hálfvelgju.

Á bls. 115. seigir høfundurinn, ad undirstada sú, er Reykjavíkurnefndin hefur lagt til alþíngis, sé einhvor hin merkilegasta (þad vill hér seigja: heimskulegasta) „sem skynsemi gjæddar sképnur nokkurntíma hafa byggt á úrlausn nokkurs vandamáls". Þetta eru mikil ord og gífurleg,

því ekki má því neita að margt hefur verið heimskulega stofnað í veröldinni, síðan menn hafa sögur af, og sé „alþingis-undirstaðan“ það heimskulegasta af því öllusaman, þá er ei að undra þó vandlætíngar andi hafi gagntekið höfundinn. En hvað kémur hann nú með, til að sanna þessi stóryrði sín? Ekkért nema nokkrar ályktanir, er hann hefur sjálfur myndað, og að eingu eru nýtar til að sanna það, er hér einúngis reið á að sanna, nl. að hvað miklu leiti lögun alþíngis átti að vera lík eða frábrugðin skipun hinna dönsku fulltrúa þínga.

Sé hið fornkveðna satt: að dæmi sanni ei málefnið, heldur gjöri það einúngis ljósara (*exempla non probant sed illustrant*), svo eru dæmi þau, er höfundurinn kémur með, bls. 129 og 135, að eingu nýt, til að sanna mál hans. Síðara dæmið, (sem líklega er dreigið af því, sem fyrirkémur í Orla Lehmanns Recension over Stangs „Norges constitutionelle Ret“, i Maanedsskrift for Litteratur 12 B. p. 322) er þar að auki með öllu fráleitt og nær eingri átt. Ef Höskuldur er næstur Njáli að atgjörfi og mannkostum, þá er það óedlilegt, að þeir 10 kjósendur, sem ei velja Njál, ekki skuli kjósa Höskuld, heldur Mörð, sem einga kosti hefur. En þar að auki hefur höfundurinn hlaupið á sig, og fylgt of nákvæmlega fyrirmynd þeirri, er hann líklega hafði fyrir augum, en ekki gjætt þess, að á Íslandi hefur hvorr kjósandi rétt til tveggja atkvæða, edur til að kjósa 2 menn fyrir hvorn alþíngismann, er velja skal — og þá er auðséð, að það er næstum ómögulegt, að Höskuldur ei skyldi fá fleiri atkvæði enn Mörður — í stað þess, að í Noreigi hefur hvor

kjørmadur ei nema eitt atkvædi fyrir hvorn stórþíngismann er velja á.

Þad er hardla „merkilegt", ad høfundurinn ásýsir landsmenn sína til ad bidja um, ad kosníngar verdi látnar vera einfaldar, þar ed konúngurinn, eins og alkunnugt er, hefur veitt þetta og fyrirskipad í alþínglstilskipuninni. Híngad til hafa menn látid sér nægja, ad bidja um þad, sem þeir enn þá ekki hafa feingid, en nú eiga þeir, eptir því sem høfundurinn rædur til, ad þjóta upp til handa og fóta og bidja um þad, sem þeim er veitt fyrir laungu. Hefdi høfundurinn rádid til ad bidja um, ad þeirri kosníngaradferd, sem nú er fyrirskipud, ekki yrdi breytt, þá hefdi slík bón ad vísu ekki verid med øllu fráleit, en óþørf og ótilhlýdileg hefdi hún verid, medan ei bólar á neinum merkjum til breytínga í þessu efni, fremur enn enn þá er komid. Þad er hvorttveggja, ad høfundurinn á einum stad, bls. 129, talar um, ad afhøfda ástædu mótstødumanns síns, hvad eg kalla ókurteyslega til orda tekid — sumir landsmenn høfundarins hafa sagt: „ad þetta væri bødulslega ad ordi kvedid" —, enda hefur honum hér ordid þad, ad eitt af atridum þeim, er hann vill menn bidji um, er sannkallad skrímsli (*monstrum*).

Um 3 seinasttøldu atridin, er høfundurinn vill láta bidja um, hefur hann lítid sem ekkért rædt. En þar ed töluverdur ágreiníngur hefur verid um þessi atridi, einkum þad fyrsta af þeim, edur um alþíngisstadinn, og høfundurinn þess vegna má gánga ad því vísu, ad allir muni ei verda á eitt mál sáttir um þau um sinn, sýnist þad undarlegt, ad hann eingar ástædur hefur tiltýnt máli sínu til

styrkíngar. Höfundurinn getur þó varla ætlast til, ad þjódin yfirhöfud, edur alþíngismennirnir sérílagi, muni hlaupa eptir ástædulausum hvötum hans edur bodum; og þad sýn-ist sem hann fylgi ei vel því málefni, sem audséd er ad honum þykir miklu varda. Um þessi atridi sjálf get eg verid stuttordur, því eg hefi minnst á þau til hlítar hér ad framan; en þar á móti vil eg ad lyktum bæta hér vid fáum ordum til leidréttíngar því litla, er höfundurinn um áminnst atridi sagt hefur:

Þar sem höfundurinn seigir, ad „óspillt tilfinníng" landa hans ei muni kjósa:

„hrafnaþíng kolsvart í holti
fyrir haukþing á bergi."

Þá er þad ærid sérgjædíngslegt ad kalla spilta tilfinníngu allra þeirra, sem um alþíngisstadinn ei eru á sama máli sem höfundurinn. Slíkt getur máské verid kjænlega sagt, til ad leida á sitt mál einfaldann og eptirþánkalítinn al-múga, en ónýtt er þad med öllu til ad sannfæra skyn-sama og hyggna menn. Þad getur verid ad ordin, sem höfundurinn tilgreinir eptir skáldinu, séu, sem skáltmæli, ei óheppilega tilfundin, þó eg ætli ad opt hafi þetta skáld fegur kvedid, og þannig, ad betur hefur átt vid; en þeg-ar sá rithöfundur, er finna vill stad ordum sínum, kémur med slíkt í stadinn fyrir ástædur, þá er audséd ad fánga-fátt er heima fyrir; því audvitad er, ad ekki munu sömu alþíngismennirnir, ef þeir eru „haukar", gráir ílits og med vígahug upp á þíngvelli, allt í einu breyta edli sínu og verda ad kolsvörtum „hröfnum", (er helst höggva

í hræ og daudíbli), ef þeir koma í Reykjavík, nema því ad eins, ad einginn stadur eda stadfesta sé í þeim.

Þad er alkunnugt ad alþíngistilskipunin leyfir eingum ad mæla á danska túngu á alþíngi nema konúngsfulltrúanum, og er þar líka bendt á rádstafanir, sem gjöra þad líklegt, ad svo meigi tilhaga, ad þetta ad eingu þurfi ad hindra þíngstörfin, eda trubla ummrædur um málefni þau, er fyrir koma. Þad sem höfundurinn bls. 136 seigir um málid, er tala skal á alþíngi, eru því öfgar einar. Hann kvedur þar svo ad ordi, eins og öll þíngstörf ættu ad fara framm á dönsku, og Íslendíngar hefdu „beidst" ad svo væri. Væri konúngsfulltrúanum ei leist ad tala dönsku á þínginu, væri þad hid sama sem ad meina konúnginum ad velja þann fyrir fulltrúa sinn, sem hann treysti best, edur annann, enn innfæddan Íslendíng; því varla mun nokkur sá danskur madur, sem líkindi eru til ad konúngur kysi, verda svo fær í íslendsku, ad hann fái flutt eda skilid lángar rædur á því máli. En þá sýnist þad nokkud ósanngjarnlegt, ad þeir, sem óska ad kosníngarfrelsi þjódarinnar sé sem allraminnst takmarkad, vilia svo binda hendurnar á konúnginum, ad hann ei géti valid þann sér fyrir fulltrúa, er hann hefur best traust á. Þetta sýnist vera naudsynjalaust rádríki, og konúngi ei vel launad fyrir þad hann veitti Íslandi alþíng. Á fyrri tímum mæltu sendibodar konúnga á latínu á alþíngi hinu forna, og ærdust Íslendíngar þá þó ekki af því, svo um sé gétid.

Þar sem höfundurinn um seinasta atridid kvedur svo ad ordi, eins og um þad væri ad velja, annadhvort ad

mæla „á laun" eda „í heyranda hljódi", þá afbakar hann mjøg og rángfærir málefnid. Þad heitir ekki mælt „á laun", sem talad er í áheyrn 28 til 30 manna, og bodid er strax á eptir ad gjøra heyrum kunnugt um land allt í prentudum tídindum.

---

# Leidréttingar.

Blſ. 1 l. 13, les: i. Blſ. 6 athgr. l. 2, les: Mýra-sýslu. Blſ. 9 l. 30, les: stjórnarform. Blſ. 14 l. 26, les: drjúgast. Blſ. 15, l. 8 les: 1832. Blſ. 19 l. 30, *e*, *b*, og *c*, les: 5, 2 og 3. Blſ. 22 l. 10, les: landsmanna. Blſ. 43 l. 29, 10 les: 20. Blſ. 45 l. 15, les: viljad. Blſ. 54 l. 18, les: lagafrumvarpi Blſ. 80 l. 14, les: en. Blſ. 91 l. 26, les: nákvæmlega. Blſ. 99 l. 19, les: *i*. Blſ. 101 l. 10, les: *studio*. Blſ. 95 l. 19, les: höfundur. Blſ. l. 23, les: mæli.

